EINAR HJÖRLEIFSSON

# VESTAN HAFS OG AUSTAN

## ÞRJÁR SÖGUR

Önnur útgáfa

REYKJAVÍK
ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA
1908

## Efni:

Áfram, áfram! Áfram móti gustinum, sólþrungnum, glóðheitum, sem andar á innflytjandann, ef hann stingur höfðinu út úr vagnglugganum. Áfram yfir sléttuna, ómælilega, endalausa, fulla af friði, minnandi á hvíldina eilífu. Áfram til undralandsins, fyrirheitna landsins, landsins, þar sem vinir og landar bíða eftir manni, óþreyjufullir eftir að biðja mann vera velkominn, faðma mann, kyssa mann; landsins, þar sem auðurinn og ánægjan og gæfan og frelsið og virðingin bíða manns, og hlaupa upp í fangið á manni, óðara en mann ber að garði; landsins, sem embættismennirnir heima sögðu, að væri helvíti, og útflutninga-agentarnir sögðu að væri paradís! Áfram, áfram!

Og áfram þýtur eimvélin, með alla trossuna af innflytjenda-vögnunum aftan í sér, hvæsandi, másandi og skrækjandi, eins og hún sé að vekja alhygli manna á því,

að þeir geti líka mæðst á sléttunum, og að lífið geti tekið ónotalega á þeim, þó að stjórnarhlekkirnir herði ekki að.

Frelsið er ófengið enn, eins og öll gæði Ameríku, og Íslendingarnir hafa jafnvel aldrei átt við annað eins ófrelsi að búa, eins og þeir verða nú að þola. Ekki mega þeir einu sinni standa úti á pöllunum, milli vagnanna. Nemi þeir þar staðar, þá kemur á augabragði maður með koparskjöld framan á húfunni sinni og vísar manni inn — segir sjaldnast neitt, heldur tekur með annari hendinni í öxlina á manni og bendir með hinni á dyrnar á vagninum.

Og inn verður maður að fara, hvort sem ljúft er eða leitt, inn í svækjuna, matarlyktina, svitalyktina, inn til matarskrínanna, rúmfatanna, barnanna skellihlæjandi og hágrátandi, kvennanna, með ber, mórauð, margútsogin brjóstin, og karlmannanna reykjandi, tyggjandi, hrækjandi eða hrjótandi.

Og út þráir hver einasti maður, út úr prísundinni, til þess að rétta úr hnésbótunum, hrista stirðleikann úr taugum og liðamótum; út í loftið tárhreint og ilmandi;

út í lífið, starfið og stríðið, eða sollinn og sukkið, til þess að berjast og vinna sigur, eða til að njóta lífsins; til þess að hrista af sér öll bönd, eða til þess að geta því betur bundist sterkustu böndum lífsins, böndum ástarinnar.

Þess vegna hafði þetta kveðið við í hugum allra alla leiðina: Áfram, áfram! Hvert skifti, sem vagnlestin hafði numið staðar stundarkorn, hafði mönnum þótt sárlega fyrir. En auk þess var nú komin í menn óþreyjan, eirðarleysið, sem ávalt fylgir því, að geta ekkert aðhafst sjálfur, en eiga skamt eftir að takmarkinu. Því að nú var komið fram yfir hádegi, en kl. 4 þann dag, eða um það bil, hafði þeim verið sagt, að þeir mundu komast til Winnipeg. Þeir, sem ekki sváfu, gátu fæstir setið kyrrir; eitthvað urðu þeir að færa sig til, þótt lítið væri að fara. Þó að ekkert væri að sjá út um neinn glugg-ann á vögnunum nema sléttuna, og þó að gluggi væri fast við hvert sæti, þá gengu menn alla vagnatrossuna á enda, til þess að horfa út um glugga þar. Og þó að allir væru jafn-ókunnugir þessum vegi, og þó að allir hefðu heyrt það, sem sagt

hafði verið um, hve nær ferðin mundi verða á enda, þá færði hver sig til annars hvað eftir annað og spurði:

— Heldurðu ekki, að við séum nú bráðum komnir til Winnipeg?

Af öllu þessu rápi og öllum þessum spurningum varð töluvert marr og talsverður kliður í vögnunum, og ónæðissamt fyrir þá, sem annars gátu setið á sér og beðið með tiltölulega mikilli þolinmæði. Þó var það einn maður, sem ekki varð neins var — ekki fremur en hann væri aleinn í vagnlestinni. Hann sat hræringarlaus við einn gluggann og horfði í gaupnir sér, og þannig hafði hann setið nær því allan þann dagshluta, og ekki talað nokkurt orð. Menn höfðu hvað eftir annað yrt á hann, menn höfðu kallað hann öllum þeim nöfnum, sem hann hafði nokk urn tíma verið kallaður: Ólaf, Ólaf Jónsson, Óla, Láfa, Labba, langa Óla, langa Láfa, langa Labba og Lang — en það hafði alt komið fyrir ekki; annaðhvort hafði Ólafur ekkert heyrt, eða þá ekkert viljað heyra.

Alt af horfði hann í gaupnir sér. Og falleg, meinleysisleg, dökkleit augun urðu

enn fallegri, enn meinleysislegri, enn dökkleitari, því að hann reyndi ekki að festa sjónir á neinu, svo að augasteinninn dróst ekkert saman. Hann sá ekki grand, ekki með augunum að minsta kosti. Og hann hefði ekkert vitað af því, þó að vagnlestin hefði alt í einu farið af sléttunni inn í kolsvört göng, og er það þó ónotaleg umskifti fyrir þá, sem eru því óvanir. Hann var að hugsa um hana, sem hafði lofað að halda trygð við hann alt til dauðans, og hann átti nú bráðum að fá að sjá, um einu stúlkuna, sem nokkurn tíma hafði verið góð við hann, einu stúlkuna, sem hann hafði nokkurn tíma verulega langað til að sýndi sér blíðu.

Hann var að hugsa um, hve undarlegt það í raun og veru væri, að hann skyldi hafa náð ást hennar, og hann hafði oft um það hugsað. Hún sem var svo lagleg og svo gáfuð og svo fjörug. Hann hafði svo oft og mörgum sinnum séð það, hvernig allir ungir vinnumenn höfðu horft til hennar innan úr kórnum, einkum þegar farið var að líða á ræðu prestsins, og þeim var farið að leiðast. Í stálgráum, legum, hálfhlæjandi augunum höfðu

leitað sér afþreyingar. Og það hafði hlaupið stingur í brjóstið á honum hvert skifti, sem hún leit þessum augum á einhvern annan en hann inni í kórnum — einkum ef hún kastaði þá um leið höfðinu upp á við og aftur á bak, sem henni oft varð. Hann var svo hræddur um, að hún væri þá að sýna þessum manni þriflegan, rauðhvítan hálsinn á sér. Honum var einkarsárt um þann háls, og hann var hræddur um hann; því að honum fanst enginn staður á himni né jörðu hafa annað eins aðdráttarafl, nema ef það skyldu vera varirnar á henni.

Aldrei hafði henni orðið orðfall við spurningarnar hjá prestinum — ekki einu sinni í sjötta kapítulanum. Alla þessa óskiljanlegu flækju í Balles barnalærdómsbók af skyldum við alt hugsanleg á himni og jörðu hafði hún getað rakið sundur viðstöðulaust, reiprennandi. Hann hafði aldrei séð hana komast í nein vandræði, á hverju sem gekk. Væri eitthvað sagt við hana, sem *ómögulegt* var að svara, hvað sem það nú var, þá roðnaði hún ekki, og fór ekki að stama, fór ekki heldur að jagast, og setti ekki heldur á sig fýlusvip —

heldur kastaði hún höfðinu ofurlítið upp á við og aftur á bak og hló, og fór þá venjulega að syngja á eftir.

En af öllum þeim klaufum, sem hún hafði kynst við, hafði hann verið einna klaufalegastur sjálfur. Hann vissi það vel, því að svo margir höfðu sagt honum það, bæði *hún* og ýmsir aðrir. Trúarbragðanámið — það eina, sem hann hafði fengið nokkura verulega tilsögn í — hafði gengið herfilega. Þegar hann var fermdur, kunni hann reyndar alt »kverið«, að nokkuru leyti, því að hann var ástundunarsamur og samvizkusamur. Hann gat að eins ekki munað stundu lengur, hvað saman átti. Ætti hann að gera grein fyrir »umhyggju fyrir líkamanum«, þá hætti honum oft við að fara eitthvað að rugla um »kennendur og tilheyrendur«; og væri hann spurður um eitthvað áhrærandi »sálu náungans«, þá gat hann hæglega vilst inn í »innvortis« eða »útvortis« guðsdýrkun.

Og svona hafði alt gengið öfugt fyrir honum — nema að ná ást Helgu. Lenti hann í tuski, þá varð hann vanalega undir, þó að hann ætti við sér miklu minni

menn. Glettist einhver til við hann, gat hann aldrei hefnt sín; ef hann reyndi það, varð hann jafnan að athlægi; svo klunnalega fórst honum það. Og alt, sem hann átti að gera, fórst honum jafn-óliðlega. Eitt haustið hafði húsbóndi hans sagt, að það sumar hefði hann brotið fleiri verkfæri fyrir sér en allir sínir vinnumenn hefðu gert samtals, síðan er hann byrjaði búskap, og var hann þó gamall bóndi.

Hann hafði verið svo heppinn að komast á sama bæinn og Helga, árinu áður en hún fór til Ameríku. Og hún hafði lofast honum. Ef til vill hafði hann orðið hlutskarpastur allra þeirra, sem í hana vildu ná, af því að hann var auðsveipastur, af því að hún gat haft jafn-mikið vald á honum eins og menn hafa á tryggum og þægum hundum. Að minsta kosti skýrðu meðbiðlar hans þetta á þann veg.

Og ein eftir aðra liðu þær fram fyrir hugskotssjónir hans, stundir þessa árs, sem hann hafði með henni verið. Sumum þeirra hafði fylgt lamandi angist og hræðsla, sumum innileg sorg, sumum algleymingsfögnuður. En allar höfðu þær verið gagnsýrðar af þessari einu ástríðu.

Hvert hláturskast, sem að henni hafði sett vegna klaufaskapar hans, hvert ónotaorð, sem hún hafði fleygt til hans og um hann, hvert blíðuorð, sem hún hafði hvíslað að honum, hvert bros, sem hún hafði sent honum — eða öðrum karlmönnum — alt þetta var honum jafn-minnisstætt, eins og það hefði borið við þann daginn. Hann gat nærri því munað hvern hnykk, sem hún hafði sett á höfuðið á sér, upp á við og aftur á bak. Að eins kossana, sem hún hafði kyst hann, gat hann ekki greint í huganum; þeir höfðu oft verið svo margir í einu.

Sérstaklega fór hann í huganum nákvæmlega og lengi yfir einn daginn, sem þau höfðu saman verið. Þá var komið langt fram á engjaslátt og dagur því farinn að styttast til muna. Enn hafði honum ekki þokað einu hænufeti nær takmarki sínu, að honum fanst. Hún var jafnvel öllu ónotalegri við hann þann dag en hún hafði nokkurn tíma áður verið, og jafnframt stimamýkri við hina karlmennina.

Þetta kom fram í svo mörgu, allan daginn; þar á meðal þegar fólkið ætlaði að fara að borða morgunmat undir einum bólstrinum. Hvorugt þeirra hafði sezt, hann né Helga, fyr en hitt fólkið hafði sett sig niður. Þá hafði hann sezt, og séð svo um, að autt rúm skyldi vera beggja megin við sig, í þeirri von, að hún kynni að tylla sér þar niður, öðruhvoru megin. En í stað þess tróð hún sér með mestu fyrirhöfn og erfiðismunum inn á milli annars vinnumanns og einnar stúlkunnar. Hann sat flötum beinum á jörðunni. Fæturnir á honum voru óvenjulega langir og þó tiltiltölulega breiðari. Hann sá, að henni varð litið á þá, og þá fór hún að hefja máls á því, að það væri einkennilegt, að sumir menn hefðu fætur, sem væru eins stórir og líkir í laginu eins og meðal-pottlemmar. Hann hafði kipst við og dregið fæturna ósjálfrátt að sér. En þá hafði hún rekið upp skellihlátur og sagt:

— Hvað er þetta? Er nokkuð að fótunum á *þér*, Láfi?

Og þá hafði alt fólkið litið á fæturna á honum og flissað hátt.

Líkt þessu hafði hún látið ganga allan daginn; alt af kvalið hann, stungið hann með hnýfilyrðum og háði. Þegar hann fór heim um kveldið, var hann eins og utan við sig af gremju og örvænting.

Fólkið hafði orðið seint fyrir á engjunum, og það var nærri því orðið aldimt, þegar það lagði á stað heimleiðis. Mesti galsi og kátína var í fólkinu, þótt það þreytt væri. Piltarnir tóku utan um stúlkurnar, og þær hvíuðu og hljóðuðu, en slitu sig ekki frá þeim; og þá sleptu þeir sjálfkrafa. Þá fór einhver að segja sögu, og tókst þegar að draga að sér athyglina. Ólætin hættu, menn héldu sig sem næst sögumanni, til þess að missa ekki af nokkuru orði, og steinþögðu. Helga hafði engan þátt tekið í galsanum, aldrei þessu vant, og Ólafur auðvitað ekki heldur. Þegar byrjað var á sögunni, dróst Helga lítið eitt aftur úr, alein. En þegar sagan var komin svo langt, að menn voru farnir að hlusta á hana af öllum lífs og sálar mætti, þá var tekið í annan handlegginn á Ólafi að aftan. Hann sneri sér við, og þar stóð Helga frammi fyrir honum.

Fólkið hélt áfram, og varð einskis vart, og þá bar þegar leiti á milli.

— Hvað viltu mér? sagði Ólafur.

En hún svaraði engu. Hún teygði að eins handleggina upp, lagði þá utan um hálsinn á honum, og beygði hann niður að sér. Og því næst kysti hún hann, fyrst langan, langan koss á munninn, með hálfopnum vörunum, og þá kysti hún hvern kossinn á fætur öðrum, hvarvetna á andlitið á honum, svo ótt og svo títt eins og hún gat.

Öll angist, öll sorg, öll háðsyrði, alt, sem hann þekti eða hafði heyrt getið um milli himins og jarðar, hver einasta ögn gleymdist Ólafi á þessum augnablikum. Hann fann að eins óglögt, hvernig alt blóðið streymdi til höfuðsins. Hann varð gagntekinn af hugsunarlausum, hamslausum fögnuði.

Skömmu eftir þetta hafði hún farið að minnast á það við hann, hvort þau ættu ekki að fara til Ameríku: það væri svo langt þangað til þau gætu gifzt á Íslandi og reist bú, jafn-fátæk eins og þau væru. En það kostaði hátt á 3. hundrað króna fyrir þau að komast bæði, og al-

eiga Ólafs nam ekki nærri því svo miklu. Helga átti ekkert, bókstaflega sagt *ekkert*, nema fötin, eyrnalokka og tannbakshring með lituðu gleri í, sem kallað var steinn. Hann hafði þá sagt, að það væri ómögulegt fyrir þau að komast.

— Nei, það er ómögulegt fyrir okkur að komast, hafði Helga þá sagt og stunið við.

En alt af var hún að ala á þessu aftur og aftur. Hún sýndi honum fram á, hve óendanlegur munur væri á því að komast áfram í Ameríku eða á Íslandi. Í Ameríku fengju menn 8—10 króna kaup á dag; og þó að karlmennirnir gætu stundum ekki fengið vinnu, þá gætu stúlkurnar æfinlega komist í vistir, og fengið þetta 80 krónur um mánuðinn; hann skyldi gæta að þessu — 80 krónur; eitthvað mætti þó gera með 80 krónur um mánuðinn. Og hvenær sem þau vildu fara að búa, þá gætu þau fengið eignarjörð fyrir ekkert; jafn-bláfátækur og hann væri, gæti hann orðið óðalsbóndi, og það á betri jörð en til væri á Íslandi. Hann skyldi nú bara brúka skynsemina — hvort hann mundi ekki þiggja það, ef einhver byðist til að gefa honum beztu jörðina á Íslandi?

Jú, hann mundi víst þiggja það. Hvers vegna vildi hann þá ekki þiggja það, þegar honum væri boðin fyrir ekkert ágæt jörð í Ameríku?

Hann sagði alt af það sama, að það væri ómögulegt fyrir þau að komast.

En þessar fortölur festu rætur í huga hans. Henni var svo liðugt um málbeinið, og honum datt aldrei neitt í hug, sem hann gæti svarað henni, annað en þetta sama, að það væri ómögulegt fyrir þau að komast. Hann fór að hugsa um þetta, velta þessu fyrir sér á þá fáu vegu, sem andi hans gat velt málinu —, og þá fór hann að langa, sárlanga til að komast vestur yfir haf með hana, og lifa þar með henni í allsnægtum og auði, eins og allir menn í Ameríku gerðu.

En hvernig átti að komast? Hann sá engin sköpuð ráð.

Þá var það eitt sunnudagskveld, að þau voru ein saman sem oftar. Hún hafði sýnt honum jafnvel óvenjulega mikla blíðu; hún hafði faðmað hann, vafið sig utan um hann, kyst hann margra mínútna löngum kossum, eins og hún væri að sjúga út úr honum hverja ögn, sem eftir var í honum

af vilja og viti. Og loks hafði hún sagt við hann, glaðlega og blátt áfram:

— En að eg færi á undan þér, Ólafur? Hann var svo ringlaður, að hann skildi fyrst ekki, hvað hún fór.

-- Hvernig þá? sagði hann.

— Eg á við það, sagði hún, að í Ameríku getur kvenfólk æfinlega komist áfram. Þar er svo mikill skortur á stúlkum. Og þegar maður fær 80 krónur á mánuði, þá ætti að mega gera eitthvað með þeim. Eg yrði ekki lengi að leggja svo mikið upp, að við gætum reist laglegt bú. — Og þá borgaði eg lánið með rentum, bætti hún við brosandi.

Nú skildi hann, hvað hún átti við. Hann átti að fá henni aleigu sína í hendur, — því að hann átti ekki meira en fyrir farinu hennar. Og því næst átti hann að skilja við hana, missa hana út yfir veraldarhafið, og ekki sjá hana langan langan tíma. Nei, nei, nei! Þess gat hann ekki hugsað til.

Og hann spurði hana, hvort hún gæti fengið það af sér, að fara burt frá honum og skilja hann aleinan eftir. Honum fanst í raun og veru, eins og hann mundi verða

aleinn eftir á landinu, þegar hún væri farin. Hann mundi í svipinn ekki eftir neinni manneskju nema henni.

Hún svaraði honum, að hann mundi geta getið því nærri, hvað hana tæki það sárt. — Og þá lagði hún hendurnar um hálsinn á honum og kysti hann lengi, lengi, oft, oft. — En það væri enginn annar vegur. Hún gæti aldrei unnið sér neitt inn á Íslandi, og þau yrðu bæði orðin gráhærð, þegar þau gætu gift sig, og líklegast legðu þessi bágindi þeirra hana í gröfina. Já, hún var alveg viss um, að þau mundu leggja sig í gröfina — alveg viss það. Og þá setti að henni grát.

Hann reyndi að hugga hana, vefja hana upp að sér, kyssa af henni tárin. En þá harðnaði gráturinn enn meir. Og hún sagðist sjá það svo vel, svo dæmalaust vel, að honum hefði aldrei þótt neitt vænt um sig. Hún væri fullgóð til að leika sér við, þegar engar aðrar vildu verða til við hann. En ætti hann að gera eitthvað fyrir hana, þá kæmi annað hljóð í strokkinn — þá tímdi hann ekki að sjá af 130 krónum, og það þó að hann ætti víst að

fá þær borgaðar, margborgaðar. — Og þá grét hún enn óstjórnlegar en áður.

Ólafur fekk samvizkubit. Hann vissi það vel, að það var ekki *eingöngu* peninganna vegna, að hann vildi ekki láta hana fara. Hann vissi það líka vel, að það var *minst* peninganna vegna, að honum var illa við þessa ferð. En hann fann, að hann var ekki alveg saklaus, honum hafði komið eignamissirinn, peningaáhættan til hugar. Það láta fæstir Íslendingar 130 krónur frá sér í einu, án þess að þeim detti í hug að vera hræddir um þær, — og það þó að tryggingin sé meiri en hér var. En hann sárskammaðist sín fyrir þetta. Honum fanst það óbærileg óvirðing, að hún skyldi hafa lesið jafnógöfugar hugsanir í huga hans, eins og að sjá eftir 130 krónum, þó að þær væru aleiga hans. Hann var ekki nema 19 ára.

Sómatilfinning hans vann sigur. Hún átti auðvelt með að sigrast á hugsuninni um peningana. En hún vann líka þann sigur, sem örðugri var: á kvíðanum við að missa af Helgu, þótt ekki væri nema um stundar sakir. En til þess að hún skyldi þannig geta, að nokkuru leyti, feng-

ið yfirhönd yfir ástríðu hans, varð hann að blása hana út, svo að ekkert jafnvægi varð á milli hennar og annara sálarkrafta hans. Hann vildi leggja alt í sölurnar sjálfur. Hún bauð að senda honum peninga, þegar er hún hefði aflað svo mikils fjár, að hann gæti komist fyrir það á eftir henni og til hennar. En það var ekki nærri því komandi. Hann vildi bíða, þangað til hann hefði unnið sér svo mikið inn sjálfur, að hann gæti komist vestur. Hann bjóst við, að hann mundi hafa einhver ráð með það eftír tvö ár.

Bráðlega varð útrætt um það mál. Hann átti að leggja henni til fargjaldið, og annars alt, sem hann gæti losað við sig og henni gæti orðið að gagni. Því næst átti hann að koma á eftir henni, svo fljótt sem honum væri unt. En aftur á móti átti hún að elska hann á meðan, hugsa um hann vakandi og sofandi, og giftast honum, þegar hann kæmi vestur. Þau vildu engu eyða af þessum litlu efnum, sem þau höfðu með höndum í hringa. En til þess að alt skyldi vera í sem beztri reglu, krotaði hann innan í tannbakshring-

inn hennar með glerplötunni í eitthvert krumsprang, sem átti að þýða »Ólafur«.

Þegar varð, er ferð hennar hafði verið afráðin, útrætt um málið að *því* leyti, að ekkert nýtt bar á góma milli þeirra. En þau þreyttust annars aldrei á að tala um þetta aftur og fram, sízt Ólafur. Hvernig hún mundi nú kunna við sig? — Og vonandi vel, af því að það er svo gott að vera í Ameríku. — Hvort henni mundi þá ekki leiðast, þangað til hann kæmi? — Jú, auðvitað mundi henni leiðast, en hún lifði í voninni. — Hvort það væri nú alveg, *alveg* víst, að hún mundi aldrei gleyma honum einn einasta dag? — Já, það var nú *alveg*, *alveg* víst og áreiðanlegt. Og hún kysti burt efann, hvenær sem hann gægðist fram.

Og sumarið eftir fór hún.

— — — Tvö ár voru liðin frá því er hún hafði farið. Og nú sat hann þarna í vagninum, horfði í gaupnir sér, og var að hugsa um þetta, sem nú hefir verið sagt frá, og um svo margt og margt fleira, sem gerst hafði, en ekki hefir verið sagt frá. Tíminn hafði dragnast áfram, og honum hafði fundist þau óumræðilega löng

og leiðinleg þessi ár. En nú áttu vonirnar loksins að rætast; nú átti þránni loksins að verða fullnægt.

Og spurningar þutu upp í huga hans, hver eftir aðra, barnalega óþreyjufullar eftir svari, gagnsýrðar af von og ást og þrá. Hvernig skyldi hún nú líta út eftir þennan tíma? Skyldi hún ganga í íslenzka búningnum enn? Skyldi hún bera hringinn enn þá? Skyldi ekki »steinninn« vera dottinn úr honum, og ef til vill týndur? Það hafði ávalt verið svo illa um hann búið. Skyldi ekki nafnið hans sjálfs hafa slitnað innan úr honum? Hvað skyldi hún nú vera búin að græða mikla peninga?

Skyldi hún nú verða á emigrantahúsinu? Hvernig átti hann að heilsa henni, ef hún skyldi verða þar? Hvernig skyldi hún heilsa honum? Skyldi hún kyssa hann undir eins, svo allir sæju? Eða skyldi hún benda honum að koma eitthvað afsíðis, og faðma hann þar? Skyldi hún hafa nokkur ráð með að útvega honum rúm fyrstu nóttina?

En eftir því, sem þessar spurningar spruttu upp fleiri og fleiri, eftir því varð

þráin sterkari. Og loksins varð hún svo sterk, að hún þurkaði burt allar spurningar og allar ákveðnar hugsanir; hún gagntók manninn allan og lamaði hann. Það var eins og allir sálarkraftar hans rynnu saman og yrðu að óþreyjufullri, óákveðinni, formlausri eftirvænting eftir sælu.

Nokkurir skrækir, sárir og skerandi, upp úr eimvélinni, harður rykkur aftur á við og þá annar rykkur, linari, áfram — og vagnlestin staðnæmdist fyrir norðan meir en hálfbrunnar rústirnar á Common Street, sem kallaðar eru *Dominion Government Immigration Agency*.

Winnipeg stóð og stiknaði í sólinni. Gulhvítir, gráhvítir, skítgráir, svartir og svartröndóttir kofarnir fyrir sunnan innflytjenda-húsið — að líkindum það andstyggilegasta kofasafn, sem til er í Canada — stóðu galopnir í báða enda, gapandi eftir gusti, sem ekki var fáanlegur, ekki var til í bænum. Í hverjum kofadyrum stóð einhver stynjandi, og þurkandi af sér svitann, sumir með vasaklút, aðrir með berri hendinni, enn aðrir á skyrtuerminni sinni. Á einum stað var hnappur af

strákum, berhöfðuðum, berfættum, svörtum um fæturna, mórauðum í framan af ryki og sólbruna, sumir með svo mikið af lúkunni upp í sér, sem þeir gátu komið fyrir innan varanna, aðrir með handleggina hangandi máttlausa niður með hliðunum; en allir einblíndu þeir í áttina til innflytjenda-hússins. Á öðrum stað karlmaður hálfber að ofan, með langskefta viðaröxi í höndunum og *tamerack*-kubb fyrir framan sig, rennandi af svita, hættir að höggva og horfir í sömu áttina. Á þriðja staðnum kerling, haldandi í herðarnar á strákhnokka með vinstri hendinni og lemjandi hann með þeirri hægri, hættir að lemja, sleppir stráknum samt ekki, en starir eins og aðrir til innflytjendahússins. Jafnvel strákurinn hættir að arga, strýkur með annari hendinni í sífellu um holdugasta partinn á líkama sínum, en með hinni um augun, réttir sig upp og teygir úr sér, dregur munninn út á aðra kinnina, og einblínir til innflytjenda-hússins, eins og allir aðrir.

Því að íslenzku innflytjendurnir eru komnir.

Út streyma þeir úr vögnunum, alvarlegir, þrútnir, þreytulegir, og — framar öllu öðru — útlendingslegir. Ekki eins og fólk úr annari heimsálfu, heldur af öðrum hnetti. Karlmennirnir flestir með trefla, einstaka maður alveg berhálsaður og í þessum óumræðilegu, íslenzku, sniðlausu vaðmálsbuxnahólkum, sem eru jafnvíðir, hvar sem á þá er litið. Kvenfólkið þó margfalt undarlegra ásýndum. Sumar með stóra reiðhatta með síðum blæjum aftur á bakið, aðrar með skotthúfuna utan í annari kinninni eða aftur á hvirfli, enn aðrar berhöfðaðar, ógreiddar; sumar í strengdu, íslenzku peysunni, með sporöskjulagaðan, hvítan blett framan á bringunni og rauðleitan eða bláleitan borða utan um hálsinn neðanverðan, aðrar í víðum nátt-treyjum, gulleitum, bláleitum, rauðleitum eða hvítleitum. Sumar með tvær fléttur hangandi niður eftir bakinu og festar saman neðst á endunum, aðrar með tvöfalda hárfléttubreiðu — endunum nælt aftur upp á höfuðið — líkast þykkri bót, sem saumuð hefði verið fyrir hálsinn aftanverðan og herðarnar. En *allar* hafa þær hengt á mjaðmirnar þessi svörtu,

voðfeldu, víðu og þungu pils, sem einkum og sérstaklega gefa íslenzka búningnum þennan þunglamalega og klunnalega svip, sem hann hefir, og öld fram af öld hafa verið að streitast við að toga mjaðmirnar á íslenzku kvenfólki niður á við — sem þeim líklegast tekst á endanum.

Og áfram rogast fólkið, í hitavellunni, undir allri fatabyrðinni, sem utan á því er, og undir öðrum byrðum; einstaka maður með fárveika konu í faðminum, allmargir með börn, sjúk og grátandi, allur þorri manna með poka í fanginu, sumt með stóra poka, sumt með litla poka, flest með stóra poka, — áfram heldur það að dyrunum á innflytjenda-húsinu. En þar fyrir utan dyrnar hafa íslenzkir Winnipegmenn fylkt sér í tvær raðir — þröngur gangur fyrir innflytjendurna milli raðanna. Allir eru þeir léttklæddir, karlar og konur, þó einkum konurnar. Allir eru glaðir og hálfbrosandi, og það er snertur bæði af góðmensku og háði í brosinu — þó meira af góðmensku. Amerísku Íslendingarnir finna svo innilega til þess, hve íslenzku Íslendingarnir standa langt fyrir neðan þá, með allan sinn græningja-

hátt, og alla sína fátækt, og allar sínar skotthúfur, og alla sína trefla. Og þeir vilja svo innilega hjálpa og leiðbeina og fræða og njóta ánægjunnar, sem fylgir því að fá áþreifanlega sönnun þess, að til séu verur, sem eru lítilsigldari og varnarminni og grænni en þeir eru sjálfir. Og vandlega er nú gætt framan í hvert andlit. Skyldi maður ekki fá að sjá einhvern gamlan stallbróður eða stallsystur? Syldi þessi maður og þessi maður og þessi maður, sem von var á, vera í þessum hóp? eða skyldi hann koma seinna? eða skyldi hann ekki hafa getað komist, þegar á átti að herða? Hvernig skyldi nú þessi og þessi vera ásýndum, sem maður var alveg viss um að mundi koma í þessum hóp?

Og gangurinn þrengist smámsaman af forvitnis-ákefðinni. Og pokarnir rekast út í þessa lifandi veggi. En hvert skifti, sem þeir snerta einhvern kjól, þá þurka stúlkurnar með vasaklútnum sínum þann blett, sem snortinn hefir verið, þó að ekkert rykkorn hafi komið á hann. Þær þurka ósjálfrátt af sér íslenzkuna, sem hefir hangið við þessa poka.

Innflytjenda-húsið fyllist af innflytjendum og áhorfendum. Og nú blandast hvorir innan um aðra. Hvítbláir *mousselins*-kjólar og gulhvítir *grandin*-kjólar nuggast upp að svörtum og mórauðum vaðmálstreyjum; svartar klæðis- og vaðmálspeysur og ljósleitar, óhreinar nátt-treyjur upp að gljáhvítum vestum og digrum, gyltum keðjum. Silkiskúfurinn íslenzki hangir við hliðina á barðabeinum, hvítfjöðruðum stráhatti, og álmurnar á laufléttum, snjóhvítum sólhlífunum krækjast í hlýja, íslenzka bandtreflana.

En fram með hliðunum sitja konur á bekkjum með börn í fanginu. Sum sofa, önnur sjúga, en flest gráta. Og gamall, langur og nefstór læknir með sítt skegg á kinnum gengur fram með bekkjunum og heldur á skeið í annari hendinni, en stóru meðalaglasi í hinni. Hann staðnæmist hjá hverju barni, sem grætur, og segir: »*Sick?*« Og æfinlega er svarið: »*Yes*«. Og þá hellir hann alt af þessu sama meðali úr þessu sama stóra meðalaglasi, fyrst í skeiðina, og þá ofan í barnið. Hvert barn stendur þá fyrst ofurlitla stund á öndinni

og reigir sig aftur á bak — og þá grætur það enn átakanlegar en áður.

Og upp frá mannfjöldanum stígur kliður, og legst yfir mann, þungur og deyfandi. Hann svæfir hverja hugsun, lamar hæfileikann til að taka eftir nokkuru sérstöku og aðgreina, gerir mann að fábjána — þangað til málrómur einhvers einstaks eða eitthvert einstakt óp smýgur gegn um kliðinn, inn úr eyrunum á manni og út í sér hverja taug og skekur mann og kvelur ofurlitla stund. Þá nær maður sér aftur.

Alt er á iði, þótt enginn komist þvers fótar, fyr en eftir langa mæðu. Þarna stendur einhver, sem maður þarf endilega að ná í; nú datt manni einhver í hug, sem maður þarf endilega að spyrja um. Og þá treður maður ofan á tærnar á næsta náunga sínum; hann rekur upp hljóð; og þá færir maður sig aftur á bak aftur.

En tiltölulega ganga þó munnarnir mest. Sumstaðar halda kunningjar sig í hnapp og gera athugasemdir. Sumstaðar heilsast fólk og spyr tíðinda. Og athugasemdirnar og spurningarnar og hljóðin og hvíið fléttast saman í eina bendu. Á sama augna-

blikinu syngur í eyrunum á manni: Komdu nú blessuð og sæl — vertu nú velkominn — kemur hún ekki? — enginn gróður kominn — ís úti fyrir — *halloh* — *how do you do* — *you bet* — *oh my* — *dear me* — nei ert þú komin á hvítan kjól, Gunna! — *good graces* og *confounded.*

Ólafur stóð þar í mannþrönginni og litaðist um. Honum var órótt; hann var milli vonar og ótta, því að hann þóttist hafa séð Helgu bregða fyrir úti fyrir, en hann var ekki viss um það. Stúlkan, hver sem það nú var, hafði horfið honum á sama augnablikinu. Og hann skimaði og skimaði. Skyldi hún ekki vera þar? Það var ólíklegt, fanst honum, að hún hefði ekki komið til að fagna honum, þar sem svo margar aðrar manneskjur höfðu komið þangað í líkum erindum. Honum fanst nálega hver maður hafa hitt hér vin sinn eða vandamann.

Jú, þarna var hún — ja, var það nú áreiðanlegt? Var það ekki einhver önnur stúlka, undarlega lík henni, en þó alt önnur? Og hann starði á hana, starði svo fast, að hann teygði sig ósjálfrátt í þá áttina, sem hún var, og sá hann hana þó á-

gætlega, því að hann var hærri en flestir í húsinu, svo að ekkert byrgði hana fyrir sjónum hans; og auk þess var hún skamt frá honum.

Nei, það var ekki Helga — það var ómögulegt, að þetta væri Helga. Hún var miklu fölari, þessi undurfallega stúlka í hvíta kjólnum með rauðu borðalykkjunum og með hvíta hattinn með rauðu fjöðrinni. Helga hafði verið rjóð, en hörundsliturinn í kinnunum á þessari stúlku var ljósari en rauðhvítur. Lagleg hafði Helga verið, en *eins* lagleg eins og þessi stúlka hafði hún þó sannast að segja naumast verið. Það var eitthvað það, fanst honum, við þessa stúlku í hvíta kjólnum, sem gerði það að verkum, að það náði engri átt að hann snerti hana. Hann hafði aldrei orðið var við neitt þess háttar hjá Helgu.

Eða var það að eins hvíti kjóllinn með rauðu borðalykkjunum og hvíti hatturinn með rauðu fjöðrinni, sem hann skirðist fremur við að snerta en peysuna og skotthúfuna? Dæmalaust gátu þær verið líkar, Helga og þessi stúlka. Sami lági, hnellni, þriflegi vöxturinn, sama stutta, beina, sterkvaxna nefið, sömu kviklegu, stálgráu aug-

un. — Jú. þetta *var* Helga — auðvitað var þetta Helga.

Nei, víst var það ekki Helga! Hún talaði alt af ensku, þessi stúlka — ekkert annað en ensku. Honum fanst líklegt, að Helga kynni að vera orðin svo fær í málinu, að hún gæti talað það svona reiprennandi; en að hún hefði komið hingað í innflytjenda-húsið, til þess að hitta landa sína, nýkomna heiman frá Íslandi, og talaði svo ekkert annað en ensku — og seisei nei, það náði engri átt. Því var nú miður, að þetta var ekki Helga. Hún hafði fráleitt komið. — En dæmalaust gat þessi enska stúlka verið lík henni.

Þá heyrði hann sagt til hliðar við hana: »*Say, Nellie*«. Og þá leit þessi stúlka við, og sagði: »*Eh?*« Það hafði hann heyrt skipverja segja, þegar á þá var yrt og þeir hváðu. En hvað hann gat verið heimskur, að standa þarna og glápa á þessa stúlku, og láta sér detta í hug, að þetta væri Helga — þetta sem auðsjáanlega var ensk stúlka, sem hét Nellie!

En undarlegt var það, hvað þetta gat verið líkt henni; t. d. þegar þessi stúlka leit við, þá vingsaði hún herðunum ofur-

lítið um leið — alveg eins og Helga hafði verið vön að gera, þegar *hún* leit við.

Stúlkan hafði hingað til haldið höndunum niður með hliðunum, svo að Ólafur hafði ekki séð þær. Nú dró hún hægri höndina upp að vörunum — snjóhvít sólhlíf með síðu kögri hékk á hendinni — og hún dró vísifingurinn eftir vörunum. Ólafi datt þá í hug hringurinn með glertölunni, sem hann hafði krotað nafnið sitt innan í; hún hafði haft hann á hægri hendinni. Skyldi þessi stúlka vera með hring? — En það gat hann ekki séð, því að hún hafði hanzka á hendinni.

Honum auðnaðist þó bráðlega að fá að sjá það. Vinstri höndin kom líka upp. Þá stakk hún sólhlífinni undir handkrika sinn. Og því næst fór hún að toga hanzkann af hægri hendinni. Ólafur stóð á öndinni. Jú víst var hringur á hendinni, á sama fingrinum — en það var ekki sami *hringurinn*, alveg ólíkur hringur, með mörgum, stórum, glitrandi steinum. — Hvar hafði hún fengið þennan hring? — Æ, það var satt, það kom honum ekkert við; þetta var ekki Helga, heldur var það ensk stúlka, sem hét Nellie.

Svo var eitthvað sagt lágt við þessa stúlku, sem hét Nellie, eitthvað skrítið, því að hún kastaði höfðinu upp á við og aftur á bak og hló. Þá opnuðust augu Ólafs til fulls. Þennan hnykk hefði hann þekt, þó að hann hefði ekki séð hann ì 50 ár; hann hafði brenst inn í sálu hans í kirkjunní hans heima á Íslandi, og farið eftir hann var óafmáanlegt, af því að hann hafði staðið í sambandi við sárustu tilfinninguna, sem til er í hjarta ungra manna — afbrýðisemina. Hann sá það nú svo glögt, að þetta *var* Helga, að hann skildi ekkert í því, hvernig hann hefði getað efast um það eitt augnablik.

Og nú gat hann ekki stilt sig, ekki beðið eina sekúndu. Þyrpingin var svo þétt umhverfis hann, að hann komst ekki á augabragði til hennar. En hann kallaði ósjálfrátt upp hátt og hvelt:

— Helga, komdu sæl!

Hún hrökk saman, leit við og framan í hann, og roðnaði — í fyrsta sinni, sem hann hafði séð hana roðna alt í einu. Hún stóð rétt hjá dyrunum; og hún beið ekki boðanna, heldur hvarf út um þær á svipstundu.

Hann gat þess þegar til í huga sínum, að hún mundi ekki vilja heilsa honum þarna inni, eins og honum hafði dottið í hug áður um daginn í vagninum. Og honum þótti vænt um það. Hann var þyrstur í að faðma hana, vefja hana upp að sér, kyssa hana lengi, lengi. Og hann kom sér ekki að því þar inni, fyrir framan augun á mannfjöldanum.

Og þá sópaði hann þeim burt, sem fyrir honum stóðu, í einni svipan, og þaut á eftir henni út um dyrnar. Í því hann kom út úr dyrunum sá hann hvíta hattinn með rauðu fjöðrinni hverfa fyrir eitt kofahornið fyrir suðaustan innflytjendahúsið. Honum datt allra-snöggvast í hug, að hún hefði flýtt sér undarlega mikið burt frá húsinu. Hann hafði vonast eftir, að hún biði eftir sér fyrir utan dyrnar; og svo hefðu þau getað orðið samferða á einhvern afvikinn stað. En hann gaf sér engan tíma til að hugsa um það nákvæmar, heldur hljóp hann, alt hvað af tók, að kofahorninu, þar sem hann hafði séð hvíta hattinn hverfa. Hann bjóst við, að hún mundi bíða hinumegin við það horn.

En hún beið ekki heldur hinumegin við það horn. Hún hélt áfram austur eftir, og það heldur hratt. Samt náði hann henni bráðlega.

— Ætlarðu ekki að heilsa mér, Helga? sagði hann, þegar hann var kominn á hlið við hana.

Hún leit fyrst á hann, allra-snöggvast, ekki framan í hann, heldur um brjóstið á honum. Því næst leit hún allra-snöggvast kringum sig. Enginn var sjáanlegur; gatan var ekki fjölfarin. Þá sneri hún sér að honum og sagði:

— Jú, náttúrlega. Komdu sæll, Ólafur. Hvernig líður þér?

Ólafur fann ósjálfrátt, að það var tilgerðar og vandræða keimur í rómnum; það verkaði á hann, lagði band á tilfinningar hans. Hann langaði til að segja eitthvað af því, sem honum bjó í brjósti, en hann gat það ekki. Hann gat ekkert sagt, nema:

— Og svona nokkurn veginn — þakka þér fyrir.

Svo gekk hann við hliðina á henni dálitla stund, og bæði steinþögðu þau. Þau voru óneitanlega illa saman valin, eins og

þau gengu þarna eftir stéttinni. *Hann* langur, herðalotinn, allur kræklóttur, og bar sig hörmulega; íslenzkt vaðmálskaskeiti á höfðinu, trefill um hálsinn í kappmellu, vaðmálstreyjan og vaðmálsbuxurnar sniðlausar, og íslenzkir leðurskór á fótunum. *Hún* lágvaxin, þéttvaxin, snoturleg, klædd hvítum sumarfötum eftir síðustu tízkublöðum, með snjóhvíta, langkögraða sólhlíf yfir höfðinu.

Þegar þau höfðu gengið þannig dálitla stund, fór henni að verða órótt. Hún fór að horfa í kringum sig, því að þau voru komin nærri þeim parti bæjarins, sem sífeld umferð er um. Hvernig átti hún að losna við hann? Hún var í standandi vandræðum; hún kom sér svo illa að því að yrða á hann. En hún herti sig upp, því að einhver ráð varð að hafa.

— Heyrðu, hvert ætlarðu að fara, Ólafur? sagði hún.

Hann var hálfgert utan við sig.

— Eg veit ekki, sagði hann. Hvert eigum við að fara?

Hún heyrði á þessu, að honum var alvara að sleppa henni ekki. Hún vildi ekki beita við hann hörku, því að hún

hálf-kendi í brjósti um hann. En hún var svo dauðhrædd um, að einhver mundi sjá þau saman, ef til vill einhver enskur maður, sem hún þekti, og henni fanst sem hún gæti ekki afborið þá smán. Hann var svo afkáralegur og hlægilegur.

— Þér er nú langbezt að fara heim aftur á emigrantahúsið, sagði hún. Þú kant að villast annars.

Þá náði hann sér aftur. Þú ætlar þó ekki að yfirgefa mig undir eins, svona fyrsta daginn? sagði hann.

— *Good graces*, Ólafur, sagði hún óþolinmóðlega. Heldurðu eg hafi tíma til að hanga yfir þér allan daginn? Eg er búin að vera alt of lengi úti.

Þessar viðtökur voru svo alt öðruvísi en hann hafði búist við, að hann varð gagntekinn af skelfingu, dauðans-ótta.

— Þú ætlar þó ekki að — að — að — svíkja mig, Helga? sagði hann. Eg sleppi þér ekki. — Og svo staðnæmdist hann frammi fyrir henni og tók í handlegginn á henni.

Hann hefir víst tekið fastara í handlegginn en hann hefir ætlað sér eða viljað, því að hún rak upp sárt hljóð.

— Ólafur, Ólafur! Ertu að verða vitlaus, Ólafur? æpti hún.

Hann linaði á tökunum, en slepti þó ekki að heldur. Henni varð það fyrst fyrir, þegar hún fann draga úr sársaukanum, að líta kringum sig. Og þá var einmitt það fram komið, sem hún óttaðist mest í heiminum. Enskur maður, sem hún þekti, stóð á gangstéttinni hinumegin á strætinu og horfði á þau glottandi.

Hún varð svo hrygg og reið, að hana langaði bæði til að gráta og berja hann. Henni fanst það svo óumræðilega illa gert af honum að baka henni þessa smán, þar sem hún hafði þó í raun og veru kent í brjósti um hann. Hana langaði til að ausa yfir hann illyrðum, mörgum, mörgum, lengi, lengi. En hún fann engin önnur orð í huga sínum en þessi:

— Eg hefi andstygð á þér, durgurinn þinn, og ef þú ekki sleppir á auga-lifandi-bili, þá kalla eg á pólitíið og læt setja þig inn«. Þá sleit hún sig af honum og hljóp á burt.

Og þar stóð hann eftr agndofa. Ekki hryggur og ekki reiður, heldur lamaður. Það bólaði ekki á nokkurri hugsun hjá

honum, ekki fremur en ljóskersstaurnum, sem stóð rétt við hlið hans. Hann var allsendis hugsunarlaus og tilfinningarlaus. Hann starði á eftir henni, án þess að hann hefði hugmynd um, hvar hann væri, eða hvað hann væri að einblína á. Svo hvarf hún fyrir götuhorn. Honum fanst óljóst, eins og eitthvað breytast þá; en hann vissi ekkert hvað það var, sem breyttist — og hann hélt áfram að blína í sömu áttina. Þá varð fyrir augunum á honum vagn og hestur fyrir. Hann fór að blína á vagninn. Þá var vagninum ekið burt. Þá fór hann að blína á rautt krítarstrik, sem dregið var á hvítan timburvegg hinumegin við það sem vagninn hafði verið. Og á krítarstrikið horfði hann lengi; það hljóp ekki burt frá honum.

En hann þreyttist að standa í sömu sporum; hann fór að finna til verkja í kálfunum og upp í hnésbæturnar. Hann færði sig því ósjálfrátt dálítið til og hætti að blína á rauða krítarstrikið. Og nú fór hann smátt og smátt að rakna við sèr. Hann fór að muna eftir því óljóst, að Helga hefði verið hjá honum, og hefði verið eitthvað vond við hann. Og svo

rann alt í einu upp fyrir honum með voðalegum skýrleik, hvernig ástatt var.

Hann lagði á stað út í þennan ókunna bæ, án þess hann hefði hugmynd um, hvað hann var að fara. Og nú þutu hugsanirnar upp í huga hans, en þó ekki nærri því jafn-ótt eins og þær höfðu gert í vagninum áður um daginn.

Og fyrst kom það, hve óumræðilega falleg Helga hafði verið í augunum á honum í dag. Þessi ókunnuglega fegurð á henni í hvíta kjólnum með rauðu borðalykkjunum, og með hvíta hattinn með rauðu fjöðrinni, og hvítu sólhlífina — hún hafði algert vald yfir honum nokkura stund. Sorgin þokaðist undan aðdáuninni.

Þá kom hégómadýrðin. Þessi stúlka, svona ljómandi falleg eins og hún var, svona langtum fínlegri en nokkur stúlka, sem gifst hafði nokkrum af þeim vinnumönnum, sem hann hafði þekt — hún hafði átt að verða konan hans, hún hafði faðmað hann afdráttarlaust, kyst hann stundum saman oft og mörgum sinnum. Hann krepti saman hnefana af reiði út af því, að þetta skyldi hafa brugðist, að í stað þess að njóta þessarar dýrðar og

þessa unaðar, var honum nú útskúfað eins og hundi.

Peningamálið ófst líka þar inn í. Ekki á þann veg, að hann í raun og veru sæi eftir peningunum. Hann hefði ekki þegið þá, þó að þeir hefðu nú verið boðnir honum. Heldur með þeim hætti, að hann fann, að hann hafði verið flón að láta hana fá þá. Honum datt í hug, að kunningjar sínir mundu hæðast að sér fyrir það. Og nú tók hann *það* sárt.

En þessar hugrenningar voru ekki nema fyrirrennarar sorgarinnar sjálfrar, óumræðilegrar tómleika-tilfinningar, tilfinningarinnar fyrir því, að allri ánægju, allri von um ánægju, væri svift burt úr lífinu, tilfinningarnar fyrir því, að alt, sem hann hefði vonað og þráð, alt, sem hann hefði elskað, alt, sem hann hefði dreymt um vakandi og sofandi — það væri í raun og veru ekki lengur til, og það yrði aldrei framar til. Og inn í þetta fléttaðist meðvitundin um, að standa þarna allslaus í ókunnu landi, innan um bráðókunna, útlenda menn, með ekkert fyrir framan sig, nema stritið, fátæktina, huggunarleysið, eyðimörk lífsins.

Og nú þyrlaðist upp í huga hans endurminningin um sæg af ljúfum vonum, sem nú höfðu allar dáið — eins og líka allar vonir deyja — og af dýrðlegum loftköstulum, sem dagurinn í dag hafði farið með eins og lífið fer með alla loftkastala — hafði blásið um koll og feykt í hyldýpi tilveruleysisins.

Hann mintist þess, hvernig hann hafði ætlað að bera hana á höndum sér gegnum alt lífið, hve undur-góður hann hafði ætlað sér að vera henni. Ekkert hafði hann ætlað að láta hana gera, nema það, sem hana sjálfa langaði til, og hann hafði aldrei hugsað sér, að það mundi verða mikið. Og þegar þau væru orðin rík, hafði hann ætlað að gefa henni undurmikið af gullskrauti, keðjur og lokka og hringa, því að alt þess háttar vissi hann að hana langaði svo mikið til að eiga. En sérstaklega hafði hann nákvæmlega dregið upp í huganum húsið, sem hann ætlaði að búa í, þegar þau væru farin að eldast og orðin stórrík. Það átti að vera fallegra en nokkurt kaupmannshús á Íslandi, og alt fult með fallegar myndir. Í þessu húsi átti hún að sitja prúðbúin frá morgni til

kvelds. Og þegar hann kæmi heim frá vinnunni á kveldin — því að hann hafði aldrei hugsað sér, að hann mundi sjálfur hætta að vinna — þá ætlaðist hann til, að hún stæði úti í dyrunum og kysti hann og færi svo með hann inn að stóru borði, hlöðnu kræsingum.

Og upp úr þessum hugrenningum greip hann angistarhræðsla. Hver veit, nema vonirnar rætist — að eins að það verði annar en hann, sem kemur heim að fallega húsinu, annar en hann, sem kyssir Helgu, og annar en hann, sem sezt að kræsingunum. Og honum datt í hug nýi hringurinn, sem hann hafði séð á hendinni á henni um daginn. Já, það var svo sem auðvitað, að Helga mundi ekki verða ógift alla sína æfi. Það voru fleiri piltar til en hann — og nú þótti henni ekkert vænna um hann en aðra karlmenn. Ekkert vænna! — hún hafði sjálf sagt honum í dag, að hún hefði *andstygð* á honum, og hún hafði hótað, að láta pólitíið setja hann inn!

Og honum fanst hann sjálfur verða svo lítill, og sorgin verða svo stór, svo óskaplega stór — líkust ógnarfjalli, sem einhver óskaplegur andi væri að velta yfir hann,

til þess að merja hann þar undir, saklausan. Hann gerði sér enga grein þess, hver andinn mundi vera, því að hugsunarafl hans var farið að veikjast til muna. En hann hafði eins og veður af einhverri óumræðilegri hörku og rangsleitni, sem beitt væri við hann, saklausan og meinlausan.

Hann fann, að það var farið að verða mýkra undir fæti, en það hafði verið. Hann var farinn að ganga á grasi í stað trjáborðanna. Án þess að vita af því, hafði hann gengið vestur úr bænum og nokkuð langt vestur á sléttuna.

Hann staðnæmdist og litaðist um. Alt í kringum hann sléttan, græn hjá honum, fagurgul þegar frá dró, endalaus til norðurs og vesturs. Langt suður frá skógarbelti úti í sjóndeildarhrings-brúninni. Fyrir ofan skógarbeltið skýjabólstrar, líkastir óteljandi fjallahnúkum, sem allir voru hvítleitir í norðvestri, dökkir að austan. Og skýjabólstrarnir viðruðu sig hver upp að öðrum, runnu svo saman og skildu svo aftur svo undurhljótt og friðsamlega. Norðurloftið alt heiðríkt, nema hvað feykilöng skýtunga teygði sig austur eftir, eins og hún ætlaði að sleikja blágráu móðuna

uppi yfir bænum. En undir sólunni á vesturloftinu stóðu grisjuleg, írauð ský með blágrænum rákum og blettum á milli. Engir skærir litir á loftinu, heldur allir slikjukendir, eins og gleðin í mannshjartanu, þegar sterk sorg, sem maðurinn er farinn að sætta sig við, stendur bak við og kastar yfir hana fölva.

Engin rödd á sléttunni, ekkert hljóð, nema hvað friðandi klukknahljómur barst að eyrum hans innan úr bænum. Því að klukknahljómur berst lengra en nokkur annar borgahávaði.

Friður sléttunnar fekk vald á honum. Ástríðurnar leystust sundur og runnu saman, líkt og skýjabólstrarnir á suðurloftinu. Og við það mistu þær broddana og stungu ekki lengur. En í stað þess fanst honum brjóst sitt þrútna, belgjast út, eins og það ætlaði að springa.

Og þá fleygði hann sér niður á sléttuna og grét, grét eins og barn; fyrst með hörðum hviðum og háum sogum, og svo stillilega, lágt og léttlega. Það var ekki karlmannlegt, en hann þurfti ekki að skammast sín. Það heyrði það enginn nema sléttan — sléttan, sem héðan af átti að

verða eina unnustan hans, og er flestum unnustum betri. Því að hún gerir menn auðugri, þar sem margar unnustur gera menn fátækari; því að hún snýr aldrei við manni bakinu; því að hún er síung og síhraust, og deyr aldrei burt frá manni, heldur tekur mann þvert á móti í fang sér, þegar maður er sjálfur dauður, og faðmar mann til eilífðar. Sléttan ómælilega, endalausa, sem er full af friði og minnir á hvíldina eilífu.

Flesta furðaði á því, að Sveinbjörn í Stóra-Hvammi skyldi ekki hafa kvænst í annað sinn. Hann hafði mist konuna um fertugt, búið með bústýru — eða réttara sagt bústýrum — síðan, og var nú komin á sextugsaldur. Það var ekkert leyndarmál, að hann var leiður á þessu ráðskonuhaldi, enda hafði hann skift um ráðskonur nærri því á hverju ári — eða þá, að þær höfðu skift um húsbændur af eigin hvöt, sem kom í sama stað niður. Honum þótti þær ýmist eyðslusamar eða afkastalitlar eða óþrifnar eða geðvondar eða búnar öðrum annmörkum, sem illa væri tætandi við. Og þó að hann færi ekki í neinn hávaða út af því, sem honum þótti að þeim, þá hafði hann gott lag á, að láta þeim skiljast, hvað honum bjó í skapi. Og þær kvörtuðu sáran undan þessum húsbónda, sem öllu vildi ráða, hvað smásmuglegt sem það væri, hefði nefið niðri

í hverri kirnu, svo að þær mættu aldrei um frjálst höfuð strjúka, og væri auk þess svo neyðarlegur í orðum, að enginn hefði boðið þeim slíkt fyr — æfinlega neyðarlegastur, þegar hann færi hægast og væri mýkstur á manninn. Og þegar á þessum umkvörtunum stóð, kom þeim einstaklega vel saman við vinkonur sínar um það, að það væri ekki betri sú músin, sem læddist, en hin, sem stykki.

Orð lèk á því, að Sveinbjörn hefði ekki látið kvonbæna með öllu ófreistað eftir að hann varð ekkjumaður. Hann hafði, eftir því sem fullyrt var, leitað fyrir sér hér og þar, hjá einum tveimur prestsdætrum og hjá einni eða tveimur bændadætrum í heldri röð. Hvað sem nú var satt í þessum sögum, hafði árangurinn sýnilega enginn orðið. Flestum þótti það kynlegt nema bústýrum. Þeim kom saman um, að það væri engin von, að nokkur almennileg stúlka vildi hann Sveinbjörn. En fæstir litu þeim augum á málið, og gárungarnir stungu því að bústýrunum, að þær mundu hafa þakkað fyrir, ef hann hefði staðið þeim til boða.

Það lá sannarlega ekki í augum uppi, hvers vegna stúlkurnar sýndust fælast henn. Reyndar var hann ekkert fríður sýnum né tilkomumikill, en þó fullkomlega eins og fólk er flest — lítill maður, smáleitur, dökkhærður, með svartan, þunnan skeggkraga, sem nú var orðinn ígrár, á vöngum og höku. Viðmótið var prúðmannlegt og góðmannlegt, en upplitið ekki djarflegt. Ýtinn þótti hann og fylginn sér, við hvern sem var að eiga, og hann hafði það til, að verða nokkuð þungorður, en var annars stiltur í lund.

Ekki var ómegðin, — einn sonur, Sigurgeir að nafni, rúmlega tvítugur. Hann hafði nú verið erlendis fimm ár að nema búfræði og ýmislegt annað.

Og ekki vantaði efnin. Sveinbjörn átti ágætt bú og svo jörðina Stóra-Hvamm. Þegar vel lá á honum, hafði hann það til að stinga því að kunningjum sínum, að það vildi svoleiðis til að Stóri-Hvammur væri enn ekki veðsettur bankanum, og að hann hefði heldur hug á að láta það dragast næstu árin, ef guð lofaði sér að lifa. Í þeim efnum gat Sveinbjörn líka trútt um talað. Enginn vissi til þess, að hann

skuldaði neinum manni neitt. Aftur á móti var það alkunnugt, að hann átti hjá mörgum.

Því að Sveinbjörn var hjálpsamur maður og greiðvikinn, og sveitungar hans notuðu sér það líka óspart. Sjaldan varð nokkur bóndi þar í sveitinni bjargarlítill fyrir menn eða skepnur á vorin svo, að ekki leitaði hann til Sveinbjarnar. Hann hafði æfinlega einhver ráð. Og að jafnaði lét hann menn ekki synjandi frá sér fara, þegar þeir komu og báðu hann um innskrift í kaupstað — ef verzlunarstjórinn fór að verða óþægilega eftirgangssamur — eða jafnvel um peningalán gegn lélegri eða engri tryggingu. Með hjálpsemi sinni hafði hann vitanlega forðað ýmsum frá sveit — að minsta kosti um stundar sakir.

Það var svo sem auðvitað, að hann vildi hafa nokkuð fyrir snúð sinn. Hann lét menn borga sér með fé á vorin, heyi, slægjum og dagsverkum á sumrum, lambsfóðrum og hagagöngu á vetrum. Og eftir alla þá hjálp, sem hann hafði látið skuldunautum sínum í té, ætlaðist hann til að fá þetta alt heldur ódýrt — og fekk það líka. Mörgum veitti því örðugt að borga

honum að fullu. Sveinbjörn fekst ekki svo mjög um það — »ef þeir bara sýndu vilja á því,« sagði hann. Þeir sem óþolinmóðastir voru og vanþakklátastir, sögðu, að hver sem ekki gæti borgað Sveinbirni að fullu, mætti aldrei um frjálst höfuð strjúka fyrir kröfum hans, og að eftir Sveinbjarnar hugsunarhætti væri það alveg það sama að sýna vilja á að borga honum eins og vera alt af að vinna honum eitthvað, vetur, sumar, vor og haust.

Víst var það, að öllum bar saman um, að Sveinbjörn ætlaðist til þess, að skuldunautar hans færu að hans ráðum, sem hann kallaði svo. Og mörgum fanst það orðatiltæki hans í raun og veru ekki þýða annað en það, að þeir ættu að láta hann einan öllu ráða, ekki að eins viðskiftum þeirra við sjálfan hann og aðra, heldur og sérhverju, sem þeir tóku sér fyrir hendur. Það var ekki heldur neinum blöðum um það að fletta — hann réð meiru þar í sveitinni en allir aðrir til samans.

Og þó hafði hann ekki fengið því ráðið, sem hjarta hans girntist um aðra hluti fram. Nú gizkar lesandinn að líkindum á, af því sem áður er sagt, að hér sé átt

við kvonbænir hans. Nei, hann langaði meira til að eignast Litla-Hvamm en til nokkurs annars.

Stóri-Hvammur var kostajörð. Þar var laxveiði og silungsveiði, æðarvarp, stórt tún og eftir því gott, og frægasta útbeit. Eini ókosturinn var engjaskorturinn. Slægjurnar voru bæði litlar og reytingssamar. Litli-Hvammur var lítil jörð að víðáttunni til, en næstum því eintómar engjar — rennislétt, kafloðið flæðiengi. Lítið vantaði á, að túnin lægju saman. En það hattaði fyrir við merkjalækinn. Öðrumegin gekk grasið í öldum um hásumarið, hvað lítill vindblær sem var. Hinumegin hlykkjaðist hrísið og birkirenglurnar um holt og hæðir og grávíðirinn þandi sig út um bollana, hvar sem hann fekk frið til þess. Sveinbirni þótti það skrítið réttlæti, að allar engjarnar skyldu þurfa að vera hinumegin við lækinn, eða að jafn-ómerkileg lækjarspræna skyldi vera höfð fyrir merkjalæk. En það var ekki nokkurt viðlit að hagga því. Það var margsannað með margra alda gömlum skjölum, að merkin voru þarna og hvergi annarstaðar.

En að hugsa sér, hvílík jörð Stóri-Hvammur hefði verið, ef Litli-Hvammur hefði fylgt henni. Að minsta kosti bezta jörðin í sýslunni, og sjálfsagt þótt víðar væri leitað. Sveinbjörn varð bljúgur í hug af meðaumkvun með sjálfum sér hvert sinn, sem hann hugsaði um þær engjar — líkt og hann hafði orðið fyrsta árið eftir að hann misti konuna sína, hvert skifti, sem hann hugsaði til hennar.

Margar atrennur hafði hann að því gert að ná í Litla-Hvamm. En það var ekki laust, sem Guðríður gamla hélt. Hún var ekkja, á aldur við Sveinbjörn, hafði mist mann sinn fyrir löngu, átti engin börn á lífi og hafði búið á eignarjörð sinni, Litla-Hvammi, allan sinn búskap.

Sveinbjörn hafði farið að leggja drög fyrir að eignast Litla-Hvamm, þegar er maður Guðríðar var nýlátinn. Hann hafði hvað eftir annað boðist til að gera henni einhvern greiða. Hún hafði ávalt tekið boðum hans ástúðlega, eins og henni kæmi ekki í hug né hjarta, að neitt byggi undir.

— Þakka þér hjartanlega fyrir, Sveinbjörn minn, sagði hún æfinlega, þegar hann bauð henni eitthvert kostaboðið. Eg leita

til þín, þegar mér liggur á. Og fegin vil eg eiga þig að, sagði hún hvert skifti, sem þau kvöddust. En Sveinbjörn varð þess aldrei var, að henni lægi neitt á, og aldrei fekk hann heldur vísbendingu um það, að hverju leyti hún vildi eiga hann að. Hann átti aldrei kost á að gera lifandi vitund fyrir hana — ekki svo mikið sem að lána henni reipi, þegar hún batt hey sitt — svo hún var ein af þeim fáu búendum í sveitinni, sem engin nauður rak til að fara að hans ráðum.

En hún hafði ávalt reynst honum góður nágranni, hafði einkum gert sér far um að vera Sigurgeir góð, eftir að hann hafði mist móður sína, og jafnan hafði henni legið vel orð til Sveinbjarnar, þótt mörgum yrði það að hnjáta í hann. — Sveinbjörn vissi það vel, og honum var því hlýtt til hennar.

Þrásinnis hafði hann farið þess á leit við hana, að hún seldi sér Litla-Hvamm, stundum óbeinlínis, stundum beinlínis og afdráttarlaust. Guðríður hafði venjulegast svarað honum í gamni; sagt, að það yrði hægðarleikur fyrir hann að ná í kotið, þegar hún væri komin á höfuðið, eða að

hann gæti beðið þangað til hún hrykki upp af — það yrði nú líklegast ekki svo langt eftir því að bíða, annar eins ræfill og hún væri orðin — hann gæti þá keypt það úr dánarbúinu, og líklegast fengið það fyrir mjög lítið — ef eg þá ekki arfleiði þig að því, Sveinbjörn minn, svo þú getir fengið það fyrir ekkert; eða að þau gætu talað um það betur einhvern tíma seinna — sér kæmi æfinlega vel að fá skildingana frá honum.

Sveinbirni duldist það ekki, að öll þau svör hennar voru út í hött og í raun og veru ekki annað en afsvar. »Þegar hún væri komin á höfuðið« — hún var ekki óþessleg eða hitt þó heldur, jók bústofn sinn á hverju ári og bætti jörðina. Ekki var öllu vænlegra fyrir hann, að því er Litla-Hvamm snerti, að bíða andláts hennar. Það var sannarlega óvíst, hvort annað græfi. Sællegri kona var ekki þar nærlendis, enda var hún síkát, og aldrei bar á því, að henni yrði misdægurt. Og það virtist ætla að verða heldur en ekki dráttur á því, að hún ágirntist peninga hans. Hann var orðinn alveg vonlaus.

En hann gat samt ekki með nokkuru móti stilt sig um að vera alt af að hugsa um þetta. Hann þurfti ekki nema líta yfir að Litla-Hvammi — honum fanst hann finna heylyktina koma angandi á móti sér. Hann þurfti ekki nema hugsa um féð sitt — og það gerði hann oft, eins og eðlilegt var — þá stóðu honum jafnframt heybirgðirnar í Litla-Hvammi fyrir hugskotssjónum. Það var eins og sál hans væri að grafa sig inn í heystabba — líkt og mús inn í moldarvegg — og gæti hvergi unað sér annarstaðar. Og alt af voru það Litla-Hvamms heyin, sem hún gróf sig inn í.

Hann hafði ekki einu sinni frið fyrir þessari ástríðu á nóttunum. Hann var stöðugt að dreyma um slægjur og hey, og átti venjulegast við einhverja örðugleika að stríða í svefninum. Stundum var hann að þenja sig með orf og ljá á Litla-Hvamms engjunum, og vissi svo ekki fyr til en ljárinn fór í stein og brotnaði allur upp í bakka. En alt af var eitthvað því til fyrirstöðu, að hann gæti með nokkuru móti fengið sér annan ljá. Stundum var hann að hlaða upp háan heybólstur, og

svo valt bólsturinn ofan á hann, þegar minst varði, svo að hann gat hvorki hrært legg né lið. Stundum var hann að binda, og gat ekki með nokkuru móti látið neina tuggu tolla í reipunum.

Þó var einn draumur, sem fremur hresti hann en hitt. Því að hann gat ekki að því gert, hann tók dálítið mark á draumum — honum fanst þeir svo oft hafa ræzt. Hann þóttist staddur í sporum Sæmundar fróða, þegar Straumfjarðar-Halla gekk að flekkjunum, veifaði yfir þeim svuntu sinni og sendi með þeim hætti alt heyið heim í garð til Sæmundar. Og það var Guðríður í Litla-Hvammi, sem gerði verk Höllu í draumnum. Sveinbjörn var í standandi vandræðum með að hafa undan að hlaða úr heyinu, — það bar svo ört að — enda hafði hann ekki púka Sæmundar til að hjálpa sér. En aldrei hafði hann verið svo sæll í svefni sem þá.

Loksins kom honum ráð í hug, sem hann var ekki vonlaus um að dygði. Það var blátt áfram að biðja Guðríðar. Hann furðaði sig á, að sér skyldi aldrei hafa komið það til hugar, jafn-einfalt og það var.

Ekki hrapaði hann samt að þessu ráði, heldur velti hann því fyrir sér vandlega. Hann gat ekki neitað því, að hann hefði heldur viljað yngri konu. Guðríður var að verða nokkuð kerlingarleg — einkum vegna fitunnar. En hann var líka sjálfur kominn af unglingsárunum, og fráleitt eins álitlegur ásýndum og hann hafði verið á þrítugsaldrinum. Og Guðríður var sómakona og atkvæðakona í alla staði. Sveinbjörn gekk að því vísu, að alment mundi þetta verða talið jafnræði. Hann hafði beyg af því, að hún mundi verða nokkuð ráðrík. Í hjónabandinu hafði hún verið talin bóndinn og húsfreyjan. Og síðan hún varð ekkja, hafði hún að sjálfsögðu öllu ráðið á heimili sínu. Sveinbjörn fann, að hann mundi eiga örðugt með að afsala sér nokkuru af völdunum. En svo bætti það mikið úr skák, hvað Guðríður var ráðdeildarsöm og hyggin kona. Hann trúði ekki öðru en að þau mundu koma sér dável saman. Og svo var óneitanlega vel viðunanlegt að eiga eitthvað ofurlítið á hættunni, þar sem um það var að ræða að eignast Litla-Hvamm, án þess að borga einn eyri fyrir hann.

Og þá voru þau ómetanlegu hlunnindi, að verða með öllu laus við ráðskonu-áhyggjurnar, sem einmitt um þetta leyti surfu að honum fastara en nokkuru sinni áður.

Eftir að hafa hugleitt þetta fram og aftur nokkura daga og ávalt hafa komist að sömu niðurstöðu, rèð hann af að herða upp hugann og finna Guðríði. Það var ekki trútt um að hann kveinkaði sér við því, þegar á átti að herða. Guðríður var ekkert árennileg. Hún þóttist vitanlega góð fyrir sinn hatt og ekki vera upp á neinn komin. Hún hafði það til að vera háðsk, neyðarlega smákýmin. Það var í meira lagi leiðinlegt að fá hryggbrot hjá henni, fanst honum. En þá huggaði hann sig að nýju við það, hvað hún var hyggin og ráðdeildarsöm. Því að það var ekki sjáanlegt, að þetta þyrfti fremur að vera hans þægð en hennar. Ef hann eignaðist Litla-Hvamm með henni, þá eignaðist hún alveg eins Stóra-Hvamm með honum. Og þó að Litli-Hvammur væri laglegt býli, þá var þó Stóri-Hvammur óneitanlega miklu meiri jörð. Og ekki virtist hún skifta um til hins verra með því að flytja úr torfbænum sínum inn í nýtt timburhúsið hans.

Hann fann enga skynsamlega ástæðu, sem gæti verið þessu til fyrirstöðu frá hennar hálfu. Og skynsöm var Guðríður. Það vissi bæði hann og aðrir.

Þá var það einn dag skömmu eftir nýárið, að Sveinbjörn fór í sparifötin sín, dökk klæðisföt gömul, og þar utan yfir í bláan, útlenzkan yfirfrakka, sem hann var aldrei í, nema þegar henn hafði mest við. Hann hafði keypt hann á uppboði eftir skipstrand þar nærri, og hann var honum of stór. Og nú lagði hann á stað út að Litla-Hvammi.

— Þú ætlar víst eitthvað lengra að fara, Sveinbjörn minn? sagði Guðríður, þegar þau höfðu heilsast á hlaðinu í Litla-Hvammi og hún hafði virt fyrir sér yfirfrakkann.

Nei, hann ætlaði ekki lengra. Erindið var við hana.

Nú hélt Guðríður að eitthvað nýrra bæri við. Hún vildi ekki bjóða honum inn í stofuna, af því að þar var svo kalt, svo hún fór með hann inn í afþiljað hús í öðrum enda baðstofunnar, þar sem hún var vön að sitja við rokkinn sinn. Á leiðinni inn sagði hún eldabusku sinni að

hita á katlinum. Hún setti rokkinn og kembukassann út í horn, bauð honum til sætis á stól við borðið undir stafnglugganum, og settist sjálf á rúmið sitt.

Sveinbjörn sat stundarkorn þegjandi og strauk hnén hálf-vandræðalegur.

— Hver fjandinn er það, sem karlinn býr yfir? hugsaði Guðríður með sér. Eins og eg er lifandi, er það eitthvað viðvíkjandi jörðinni.

— Mér datt í hug að finna þig, — sagði Sveinbjörn loksins, viðvíkjandi nokkuru, sem — sem — sem — — mér hefir dottið í hug.

Guðríður var óárennilegri en nokkuru sinni áður, þar sem hún sat brosandi með stóra rauða undirhökuna, á háa rúminu, og horfði ofan á hann og inn í augun á honum, eins og hún ætlaði að lesa þar leyndustu hugsanir hjarta hans. — En eigulegur kvenmaður var hún — það fann Sveinbjörn miklu betur nú en nokkuru sinni áður, af því að hugrekkið var að bila — næstum því tignarleg í hans augum.

— Einmitt það, sagði Guðríður.

— Við höfum æfinlega verið góðir nágrannar, Guðríður, og mér hefir dottið í hug að — að — mér hefir dottið í hug, hvers vegna við ættum ekki að — að verða meira.

— Verða meira en góðir nágrannar, Sveinbjörn? Mér er ekki ljóst, hvað þú ert að fara. Meira en góðir nágrannar? Eg held, það væri ekki svo hægt að koma því við. — Þú ætlar þó aldrei að bjóða mér að verða próventukerling hjá þér.

— Próventukerling? Hvernig getur þér dottið annað eins í hug? Nei, eg ætlaði að nefna það við þig — biðja þig — fara þess á leit við þig, að — verða *konan* mín.

— Er þér alvara?

— Mér hefir aldrei verið meiri alvara á allri minni æfi, sagði Sveinbjörn hátíðlegur. Hann var nú búinn að ná sér aftur, af því að út í bardagann var komið. Og eg lofa þér því, að reyna að verða þer æfinlega góður maður. Hitt veit eg, að þú munir verða mér góð kona. Þess vegna er eg líka hingað kominn.

— Langar þig svona mikið til að eignast kotið, Sveinbjörn, sagði Guðríður, leit

fast framan í Sveinbjörn og skellihló. — En þú þarft þess ekki, maður. Þú býr svo sem ekki á Stóra-Hvammi einum — þó að hann ætti að vera nokkurn veginn nógur handa einum manni. Þú veizt það sjálfur, að þú býr á öllum hreppnum hérna.

Og þá leit hún aftur hlæjandi framan í biðilinn.

Það fór að síga í Sveinbjörn. En hann stilti sig, eins og hann var vanur.

— Mér finst ekki, Guðríður, þetta vera neitt hlægilegt, sagði hann. Og mér finst ekki ósanngjarnt að ætlast til þess, að þú svarir mér í alvöru, eins og eg spyr. Tilboðið kann að vera lélegt; en eg hefi ekki betra að bjóða. Og það er gert í einlægni og af góðum hug.

— Það er alveg satt, sagði Guðríður, og hláturinn hvarf með öllu af andlitinu á henni. Það getur enginn betur boðið en sjálfan sig og alt, sem hann á. Eg skammast mín fyrir gáskann. En eg hefi æfinlega galgopi verið.

— Hverju helduröu þá að þú svarir? spurði Sveinbjörn.

— Þú mátt ekki misvirða það við mig — en það getur ekkert úr þessu orðið.

Þetta er vel boðið — eg veit það. En eg get það ekki — get það ekki með nokkuru móti.

Sveinbjörn þagði við ofurlitla stund og horfði í gaupnir sér. Þá stóð hann upp og hnepti að sér yfirfrakkanum.

— Þá er erindinu lokið, sagði hann, svo eg hefi hér ekki meira að gera.

— Nei, nei, þú mátt ekki fara í þykkju, Sveinbjörn. Við höfum æfinlega verið góðir nágrannar, eins og þú sagðir sjálfur, og eg vona, að við verðum það eins hér eftir eins og hingað til. Það má ekki minna vera en að eg segi þér, hvernig á því stendur, að eg svara þér svona.

Sveinbjörn settist aftur.

— Sannleikurinn er sá, að eg er áreiðanlega komin af giftingaraldrinum. Eg er orðin of gömul til að breyta til. Eg get ekki lengur látið mér ant um ný verk og nýja hluti. Eg get ekki látið mér þykja vænt um nýjan mann — ekki líkt því eins mikið og mér ætti að þykja.

Þó að ekki væri annað, þá væri það eitt nóg, að eg get ekki farið frá Litla-Hvammi. Eg get það ekki, þó ekki væri lengra að fara en inn að Stóra-Hvammi.

Þér þykir það líklegast ótrúlegt, en svona er því nú samt farið, að eg hefi ekki einu sinni treyst mér til að rífa baðstofuna þá arna, þó að hún sé orðin hrörleg og fornfáleg, og þó að eg hafi vel haft efni á því. Hér er eg borin og barnfædd, og hér hljóp eg um gólfið og lék mér, þegar eg var lítil. Eg gæti ekki einu sinni unað mér annarstaðar í baðstofunni en í húsinu því arna. Hér hefir alt það gerst, sem eg hugsa mest um. Hér hefi eg lengst um verið hjá manninum mínum sáluga. Hér höfum við ráðið ráðum okkar, hér hefir okkur orðið sundurorða og hér höfum við sæzt. Hér hefi eg annast hann veikan, og hér hefi eg þakkað guði fyrir, að hann fekk heilsuna aftur. Hér hefir hann faðmað mig og kyst. Hér hefi eg kvatt hann í síðasta sinn. Hér hefi eg alið eina barnið, sem við eignuðumst. Hér hefi eg setið undir því og hossað því og leikið mér að því, og hér hefi eg kyst það, þegar það var að deyja. Eg get ekki unað mér annarstaðar. Og eg gæti ekki hætt að hugsa um þetta alt, né farið að hugsa um alt annað. Þú mátt ekki misvirða það við

mig, Sveinbjörn. Eg er svona gerð. Mér væri það ómögulegt.

Nú kom vinnukona inn með kaffið handa Sveinbirni. Hann sá, að öll von var úti og að hér varð engu um þokað. En hann lét enga geðshræring á sér sjá, — drakk kaffið og borðaði pönnukökurnar, eins og ekkert hefði í skorist.

— Við verðum þá eins góðir vinir eftir sem áður — verðum við ekki, Sveinbjörn? sagði Guðríður. Og getum ekki um þetta við nokkurn mann — látum sem það hafi engum í hug né hjarta komið.

Sveinbirni gazt ágætlega að því, að halda þessu leyndu, og lét það á sér skilja. Það kemur engum við, sagði hann.

Guðríður varð fegin að geta farið að víkja talinu að einhverju öðru. — Er það satt, Sveinbjörn, að ráðskonan þín hafi sagt þér upp vistinni? spurði hún.

Sveinbjörn kvað svo vera.

— Ertu búinn að vista nokkura í staðinn hennar? Svo datt henni í hug, að Sveinbjörn kynni að vera sér reiður, þótt hann léti ekki á neinu bera, svo hún bætti við: Annars kemur mér þetta lítið við. Fyrirgefðu spurulsemina.

— Hver veit? sagði Sveinbjörn og lifnaði yfir honum. Hver veit, nema þér geti komið það eitthvað við? Kannske þú getir nú hjálpað mér, Guðríður. Eg er, sannast að segja, í standandi vandræðum. Eg veit ekkert, hvar eg á að reyna fyrir mér. Og eg má til með að vera vandlátur. Eg þoli ekki óþrifnað — hann er mér óviðráðanleg andstygð. Og eg hefi stórt heimili, eins og þú veizt. Það er ekki lengi að ganga í súginn hvert krónuvirðið þar, ef illa er með farið. Og mér verður náttúrlega alt af ver og ver til, því fleiri ráðskonur sem fara frá mér. Þær bera mig allar út. Og þó hefi eg ekki verið þeim vondur. Þú veizt, að það er ekki minn siður, að fara að fólki með hranaskap. Hitt getur enginn láð mér með réttu, þó að eg líti eftir mínu — finst þér, Guðríður? — Láttu nú sjá og vísaðu mér á einhverja, sem reynist mér betur en þær, sem mér hafa hingað til hlotnast.

Guðríður vissi að það var alt satt, sem hann hafði sagt. Hún kendi í brjósti um hann, og einkum vegna þess, sem þeirra hafði nú á milli farið, langaði hana til að

verða honum að liði. Hún hugsaði sig um ofurlitla stund.

— Þér mun aldrei hafa dottið í hug að fá hana Solveigu Ólafsdóttur í Holti?

Nei, Sveinbirni hafði ekki dottið hún í hug. — Þekkirðu hana nokkuð?

— Já. Mér þykir ekki eins vænt um neina manneskju eins og hana, svo þú sér, að eg ætla ekki að velja þér af verri endanum. Það er bæði góð stúlka og myndarleg.

— Hún er sögð nokkuð stórlynd.

— Já, eg hefi líka heyrt það, en eg veit ekki af hverju fólk ræður það. Eg veit, að allir, sem hafa verið henni samtíða, segja, að hún sé jafnlynd og góðlynd. Og hún er vön við að sjá um innanbæjarstörf, því að hún hefir nú árum saman verið ráðskona föður síns. En eg hefi auðvitað enga hugmynd um, hvort hún kann að vera fáanleg.

— Ekki þykir mér það óhugsandi. Ólafur hefir nú lengi farið að mínum ráðum, sagði Sveinbjörn.

Þegar Sveinbjörn var farinn, var ekki trútt um að Guðríður sæi eftir þessu ráði, sem hún hafði gefið honum. Hún fór að

hugsa um, að það kynni að hafa verið nokkurt fljótræði. Sveinbjörn var líklegur til að sækja þetta fast, hvort sem Solveigu og foreldrum hennar var það að skapi eða ekki. Að hinu leytinu vissi hún, að komið hafði til orða, að Solveig færi að heiman, fátæktarinnar vegna, ef góður staður byðist. Og hún gat ekki betur séð en að Stóri-Hvammur væri í raun og veru góður staður. Solveigar vegna ætlaði hún sér að hafa vakandi auga á öllu, sem gerðist.

Olafur í Holti hafði verið í betri bænda röð framan af búskaparárum sínum. Hann hafði haft nokkur efni að byrja með, og fengið ágætt kvonfang, góða konu og vel menta. En nágrannar hans sögðu, að hann væri enginn búmaður, þótt hann væri iðjumaður hinn mesti. Fæstir vissu, hvað mikið hann vann — gekk að venjulegum heimilisstörfum á daginn, eins og vinnumennirnir, og smíðaði oft fyrir sjálfan sig og aðra á nóttunum. Þrátt fyrir það átti hann mjög örðugt. Ómegð hafði hlaðist á hann, 8 börn. Svo hafði honum

einu sinni viljað það mikla óhapp til, að verða heylaus nokkuru eftir miðjan vetur. Alstaðar var jarðlaust í sveitinni mestallan veturinn, nema í Stóra-Hvammi. Og Sveinbjörn hafði reynst honum sá drengur, að taka alt féð af honum. Enginn vissi, hvernig reikningum þeirra var farið þar á eftir, en flestum lék grunur á, að Ólafur mundi skulda honum stórfé — líklegast meira en hann væri í rauninni maður til að borga. Þó tók það mótlæti Ólafs út yfir, að konan hans hafði komið svo hart niður að síðasta barninu, að eftir það steig hún aldrei fæti á jörð. Hún hafði sér það helzt til afþreyingar í rúminu, að segja börnunum til og lesa þær bækur, sem hún gat náð í, og svo þess á milli helzt að prjóna ofurlítið. Ólafur var orðinn kjarklítill af andstreyminu og þreyttur af þrælkuninni, giktveikur og bilaður fyrir brjóstinu.

Solveig var elzta dóttir hans og yndi og eftirlæti móður sinnar, enda hafði henni farist alt af hinni mestu snild, eftir að móðir hennar gat ekki lengur að staðið. Það var eins og hún væri fædd til að stjórna stórum barnahóp — svo liðugt

gekk alt fyrir henni og hávaðalítið. En annars sýndist vafasamt, hvorri þótti vænna um hana, móður hennar eða Guðríði í Litla-Hvammi. Guðríður hafði tekið dæmafáu ástfóstri við hana. Fyrst hafði henni litist svo vel á barnið og farið að gefa því smágjafir. Það þarf ekki annað til þess að mönnum fari að þykja vænt um aðra, en vera þeim góður. Og góðvild Guðríðar til Solveigar hafði stöðugt aukist að sama skapi, sem hún sýndi hennar fleiri merki.

Nú var næst-elzta dóttirin orðin svo gömul, að hugsanlegt var, að hún gæti tekið við störfum systur sinnar. Og fátæktarinnar vegna átti Solveig nú að fara heiman, ef góður staður byðist, eins og Guðríður hafði sagt Sveinbirni.

Það varð uppi fjöður og fit á Ólafi, þegar Sveinbjörn nefndi vistarráðin við hann. Sveinbjörn bauð óvenjulega hátt kaup, og lofaði því, að Solveig skyldi ekki verða þrælkuð, heldur fá nóga hjálp við innanbæjarstörfin. Móðir hennar lét sér fátt um finnast. Hún átti örðugt með að hugsa sér heimilið án Solveigar, og henni fanst vistin í rúminu mundi fara að verða nokk-

uð dauflég, þegar hún væri farin, og svo var ekki að vita, að hverju henni yrði þetta, þótt boðin væru góð. En Guðríður kom daginn eftir að Sveinbjörn hafði nefnt þetta, og hughreysti hana.

— Eg er þarna á næstu grösum, sagði hún, og það er hægðarleikur fyrir mig að sjá, hverju fram vindur. Eg skal einhvern veginn reyna að sjá svo um, að Veiga verði þar ekki lengi, ef henni verður ekki vistin að skapi.

Svo fór Solveig að Stóra-Hvammi á krossmessunni vorið eftir.

Og það var ekki lengi að koma annar svipur á heimilið þar. Alt varð hreint og fágað, sem áður hafði verið óhreint og óhrjálegt. Alt gerðist á réttum tíma. Húsgögnin í betri stofunni, sem Sveinbjörn hafði keypt á uppboði eftir verzlunarstjóra einn í næsta kaupstaðnum — og var drjúgur af —, voru flutt til í stofunni, og Sveinbjörn skildi ekkert í því, hvað hún varð á svipstundu skemtilegt. Áður hafði honum í rauninni fundist þar óvistlegt og leiðinlegt. Nú gaf stofan hans ekkert eftir stofunni á sýslumannssetrinu, enda hafði Solveig fengið hann til að

kaupa í hana smávegis, sem henni fanst vanta. Hann sá ekkert eftir því — síður en svo.

Og honum fanst hún ganga um alt þetta eins og drotning — að minsta kosti eins og hún ætti það sjálf.

Hann fór að hugsa margt. Hvers vegna ekki lofa henni að eignast það — með honum?

Hann skildi ekkert í sér — að hafa haft hana nærri því undir handarjaðrinum öll þessi ár og aldrei litið við henni. Með hverjum deginum, sem leið, staðfestist hann betur og betur í þeim ásetningi sínum, að taka hana að sér. Og það lá við, að hann kæmist við af drenglyndi sínu — að láta sér farast svona við hana, bláfátæka, allslausa.

Guðríður kom alt af við og við, og Solveig sagði henni jafnan, að sér liði vel og húsbóndinn væri sér góður.

Sannleikurinn var samt sá, þótt hún léti ekki á því bera, að henni leiddist Sveinbjörn. Henni leiddist, að láta hann standa yfir sér, hvað sem hún var að gera, eins og hann lagði í vana sinn. Henni leiddust lofræður hans um verk

hennar. Henni leiddist hann alt af því meira, sem hann var henni betri. Henni kom það ekki í hug né hjarta, sem honum var innanbrjósts. En hún hrökk undan honum ósjálfrátt í hvert sinn, sem hún tekk því við komið. Hún hálf-skammaðist sín fyrir það — fann, að hann átti það ekki skilið. En hún gat ekki að því gert.

Einn dag um túnasláttinn var von á Sigurgeir heim. Solveig þekti hann vel að fornu fari, því að þau höfðu gengið saman til prestsins, þótt hún væri tveim árum yngri. Í öðru veifinu kveið hún fyrir komu hans. Það var sýnilega enginn vandi fyrir hana, að gera Sveinbirni til hæfis. En það var ekki víst, að sonurinn yrði eins auðveldur — hann, sem hafði séð svo margt og framast svo mikið. Þau Sveinbjörn ræddu mikið um það, hvernig ætti að taka á móti honum. Honum var ant um að fagna syni sínum sem bezt, og henni var ekki síður hugleikið, að viðtökurnar yrðu sem myndarlegastar. Sveinbjörn hafði hugsað sér, að hann svæfi hjá sèr uppi á lofti. Solveig fekk því ráðið, að hann skyldi sofa í gestarúminu í litlu herbergi inn af stáss-stofunni. Og daginn,

sem hans var von, átti hún annríkt mjög við bökun og annan matartilbúning.

Það var komin nótt, þegar hann kom. Hann var úrvinda af þreytu, og Solveigar til mikillar raunar þá hann ekkert nema mjólk að drekka, og fór svo að sofa.

Sigurgeir svaf langt fram á dag. Hann vaknaði við söng, undurþýða og viðfeldna kvenrödd. Solveig stóð við annan gluggann í stofunni, fram af herberginu, sem Sigurgeir svaf í, og það var hún, sem var að syngja. Hún hafði ekki viljað vekja hann með kaffi. Því að hún vissi, að hann var þreyttur. En hún var að bíða eftir að hann vaknaði, og henni var, sannast að segja, farið að finnast hann hafa sofið nógu lengi og að ekki mundi vera hundrað í hættunni, þó að hann færi nú að vakna. Svo hún fór að syngja.

Visurnar, sem hún söng, voru svona:

Við nemum ei staðar, en höldum ei hart,
því huga minn töfrar svo margt, svo margt
í íslenzku vornætur yndi.
Það ætti að vera á annari' eins stund,

að elskunnar minnar eg kæmist á fund,
ef hana' eg í heiminum fyndi.
Það bærist ei blað fyrir vindi.

Mér virðist nú eins og viti mín önd,
hvernig vorið sín ástar og nautnar bönd
um víða veröldu bindi,
og friðarins vættir um fjöll og dal
nú fylgi' okkur, hvert sem vera skal,
í dagnóttu dreymandi syndi.
Það bærist ei blað fyrir vindi.

Nú alt finst mér vera svo indælt og létt,
Hver einasta gata, sem fara skal, slétt.
Til eilífðar hygst eg verða' ungur.
Já, hvað manni verður nú huglétt og rótt!
Hver hugsar á annari' eins dýrðarnótt
um urðir og kletta og klungur
og jarðföll og jökulsprungur?

En nóttin og leiðslan, þær líða hjá
og ljósrákin teygir sig austur frá
sem grænblár og gullbryddur lindi!
Við nemum ei staðar — ho ho ho! —
en hröðum ei ferðinni. — Sko, nei sko —
nú er sólskin á sérhverjum tindi!
Það bærist ei blað fyrir vindi.

Sigurgeir lá kyr í rúminu, hlustaði á sönginn og teygði úr hálfþreyttum limunum undir dúnsænginni. Honum leið frámunalega vel, sumpart af meðvitundinni

um að vera kominn heim, sumpart af hvíldinni. Og söngurinn andaði friði inn í huga hans og vakti hjá honum endurminningar um bjartar nætur, þegar hann hafði vakað yfir vellinum, síkátur og sífjörugur, og ljósið og vorblíðan höfðu gagntekið sál hans svo algerlega, að hann skildi ekkert í því, að hann skyldi vera myrkfælinn á vetrum.

Hann lét ekkert á sér bæra, fyr en hún þagnaði. Þá kallaði hann til hennar:

— Er það þú, Solveig?

Hún lauk upp hurðinni, stakk höfðinu inn í gættina, brosandi, og sagði:

— Svo þú ert þá vaknaður? Eg hefi líklegast vakið þig með hávaðanum.

Sigurgeir hélt að það væri ekki margt að því að vakna, þegar maður vaknaði við ekki verri draum.

Hún brosti aftur. Nú kem eg undir eins með kaffið, sagði hún, og hvarf úr gættinni.

— En hvað hún er lagleg! sagði Sigurgeir við sjálfan sig. Og þá fanst honum ekki minna til um hana, þegar hún kom inn til hans með kaffið, og hann gat virt hana betur fyrir sér.

Hvað hún hafði breyzt, þessi fimm ár, sem hann hafði ekki séð hana! Hún hafði verið löng, beinastór, gelgjuleg. Sigurgeir hafði ávalt fundist, þegar hann sá hana, eins og hún hlyti að vera á sífeldum hlaupum eða í einlægum áflogum. Og þó hafði hann aldrei séð hana hlaupa né fljúgast á. En það var eitthvað svo rösklegt, en jafnframt vanstilt, slarkaralegt í látbragðinu. Nú var hún orðin hávaxin, heldur þrekleg stúlka, sem samsvaraði sér ágætlega. Og jafnframt því sem vöðvar höfðu vaxið utan um þessi stóru bein, sem áður höfðu látið svo óþægilega mikið á sér bera, höfðu hreyfingarnar orðið mjúklegar og fengið jafnvægi og alt látbragðið orðið kvenlegt. Einkum þótti Sigurgeir þó hreimurinn í röddinni yndislegur — viðkvæmur og þó einbeittur.

Hvað það var ánægjulegt, að faðir hans skyldi vera búinn að fá aðra eins bústýru! Hvað það var gaman að vera kominn heim!

Hún sat á stól við rúmið, meðan hann var að drekka kaffið. Hann spurði hana, hvort hún hefði verið hér lengi.

— Nei, ekki nema síðan í vor, á krossmessunni.

Hvernig hún hefði kunnað við sig — hvort henni hefði ekki leiðst.

Ó-nei, henni hafði ekki leiðst. Það var vitaskuld sárt, að vita móður sína liggja í rúminu og geta ekkert fyrir hana gert — en við því varð ekkert gert — og hún hafði nóg annað að hugsa um en að láta sér leiðast — og faðir hans hafði verið henni dæmalaust góður — nei, henni hafði eiginlega ekki leiðst.

Sigurgeir skildist, sem í raun og veru hefði hún samt ekki verið alveg laus við leiðindi. Og honum datt í hug, að hann mundi verða sjálfur fús á að gera það, sem í hans valdi stæði, til þess að henni leiddist aldrei eitt einasta augnablik. Hvað það var gaman, að vera kominn heim!

Þá kom faðir hans inn og bauð honum góðann daginn. Solveig fór út með bakkann og bollapörin og sjálfur fór hann að klæða sig. Og þar næst fór hann út að litast um.

Breytingin var töluverð, því að faðir hans hafði mikið að hafst þessi síðustu ár. Mest bar á timburhúsinu í stað torfbæjar-

ins. Túnið var líka orðið öðruvísi ásýndum, sléttur komnar hér og þar, sem áður höfðu verið þúfur og lautir. Mest saknaði hann einnar stórrar lautar. Þar hafði hann í æsku átt ofurlítið hús og hýst þar völur sínar á nóttunum. Á daginn hafði hann haldið þeim á beit út um þúfnakollana umhverfis. Oft hafði hann setið í þessari laut og horft á fjöllin — dáðst að því, hvað þau fjöllin voru fagurblá, sem fjærst honum voru, og furðað sig á, að fjallið uppi yfir honum skyldi ekki vera blátt, heldur dökkgrátt. Hvað það hlaut að vera miklu meira gaman, að eiga heima undir bláu fjöllunum!

Og þá hafði honum ekki þótt síður merkilegt, að horfa þaðan á himininn á kvöldin, sjá hvað hann tók undarlegum og skrautlegum litbreytingum uppi yfir sjónum í vestri, varð grænblár og lifrauður og ljósrauður og fekk alla vega liti, sem hann kunni ekki að nefna. Oft hafði hann um það hugsað, hvort það mundi ekki vera einhverstaðar nálægt þessu skrauti, að guð ætti heima og englarnir — og hann sjálfur ætti að vera, þegar hann væri dáinn, ef hann yrði alt af góð-

ur. — Já, það hafði margt gerst og mikið verið hugsað í þessari laut, sem nú var horfin.

Sumar breytingarnar áttu sér engan stað nema í hug hans. Eins og sú t. d., hvað allar vegalengdir voru orðnar litlar. En honum fanst mjög til um það. Þetta var enginn vegur orðinn út að vallargarðinum! Sú hafði þó verið tíðin, að honum hafði fundist það nógu ári-langt, þegar hann hafði verið að flytja hestana á kvöldin um háttatímann og kom heim svo þreyttur, að hann gat varla valdið beizlinu.

En alt var þetta þó sama og áður, og það var óstjórnlega gaman að sjá það aftur — þótt ekki væri annað en hann Strút, stóra, slétthærða hundinn af útlenzka kyninu, með stór, dúnmjúk, lafandi eyru, og góðleg, þunglyndisleg augu. Strútur hafði gelt að honum í gærkvöldi, en viðraði sig nú upp að honum sem gömlum vini sínum.

Auðvitað var mest um vert að sjá aftur föður sinn, glaðan, ástúðlegan, undirleitan, eins og hann væri hálffeiminn við þennan heimkomna son sinn, sem svo víða hafði farið og margt hafði séð. Það þyrl-

aðist upp heill urmull af endurminningum — líkt og þegar helsingja-hópur tekur sig upp af árbakka, þar sem ekkert hefir á þeim borið — við það eitt, að sjá hann trítla um hlaðið, smástígan og hægfara.

Allir skapaðir hlutir voru svo vingjarnlegir og svo gamalkunnugir. Það var ótrúlega skemtilegt að sjá það alt aftur — sömu mennina, sömu skepnurnar, sama túnið, sömu fjöllin, sama sjóinn, sama himininn. Hvað það var gaman að vera kominn heim!

Honum varð litið út að Litla-Hvammi.

Guðríði varð hann að finna — heimsækja hana samstundis. Hann mintist þess, hvað Solveig hafði ávalt verið elsk að henni, og honum datt í hug, að það væri gaman að fá hana með. Svo hann skauzt inn í húsið og bar þetta upp við hana. Nei, hún mátti ekki vera að því. Hann varð að fara einn. Og svo fór hann.

Það varð heldur fagnafundur, þegar þau Guðríður fundust. Hún gat ekki haft augun af honum — hann var orðinn svo fallegur, svo þreklegur og karlmannlegur. Hún gat ekki stilt sig um að strjúka hendinni um jarpt, mjúkt hárið á honum —

hún hafði svo oft gert það áður. Hún vonaði, hann þyktist ekki við sig, þó að hún væri svona nærgöngul — hún væri orðin svo gömul.

Engin roskin kona sér svo ungan, efnilegan pilt, að hún gefi hann ekki einhverri stúlku. — Þarna var mannsefni handa Veigu. Hún hafði oft um það hugsað, að þar í sveitinni væri enginn piltur henni samboðinn. Nú þurfti hún ekki lengur að hafa áhyggjur út af því, — ef það nú bara gæti lánast.

Það var brakandi þerrir um daginn og alt á fleygingsferð á túnunum í sveitinni, sumir að snúa, aðrir að sæta, enn aðrir jafnvel farnir að binda. Sigurgeir gat ekki haldið kyrru fyrir né hengslast iðjulaus allan daginn. Hann varð eitthvað að hafast að, eins og aðrir. Svo eftir miðdagsmatinn lagði hann á stað út á túnið með hrífu í hendi. Og þetta sinn hafði honum tekist að fá Solveigu með sér. Stóra-Hvamms-taðan lá enn mestöll í flekkjum.

Hvað það var gaman að özla í heyinu með henni. Hlátur hennar var svo tær, þegar hann sagði eitthvað skrítið, og bros

hennar var svo einkennilega, næstum því undarlega bjart. — Það var eins og það varpaði geislum yfir alt andlitið. Og hvernig hún gat litið á hann undan þungum sterklegum brúnunum—undrandi, spyrjandi, hlýtt, hjartanlega! Og hvað allar hreyfingarnar í mjöðmunum voru mjúkar — mintu hann einhvern veginn á lipran bát undir seglum, sem er viðkvæmur fyrir hverri einustu smáöldu og hverri minstu breyting á andvaranum. Ljóst hárið lafði niður á bakið í tveim löngum, digrum fléttum. Honum fór líkt og Guðríði — hann ætlaði ekki að geta stilt sig um að taka í þær og vefja þeim um hendur sér; — en hann stilti sig samt.

Skórnir hennar fóru að verða glerhálir, svo hún átti bágt með að standa. Hvað það var gaman að sjá hana renna sér ofan hólana — sjá kippina í þreklegum herðunum, þegar hún var að halda jafnvæginu. Loksins misti hún fótanna. En hann náði utan um hana, svo hún datt ekki alveg.

— Það er víst bezt fyrir mig að taka af mér skóna, svo eg detti ekki aftur, sagði hún.

— Eg held þú þurfir þess ekki, sagði hann. Eg skal reyna að hafa gætur á þér, svo ekki verði slys að.

Hún leit á hann — og settist niður og tók af sér skóna.

Honum fanst líkast því, sem hann væri sætkendur — af heimkomunni og heylyktinni og návist Solveigar. Hugur hans og skilningarvit voru í svo ljúfri æsingu, að hann mintist þess ekki, að hafa lifað jafnsæla stund.

Mikið af heyinu var orðið þurt. Piltarnir fóru að bera það saman í bólstra og stúlkurnar söxuðu föngin. Sigurgeir tók ekki önnur föng en þau, sem Solveig saxaði. Og hún hafði varla undan honum. Hann flýtti sér svo mikið, til þess að geta staðið hjá henni fáein augnablik í hvert sinn.

Sveinbjörn hafði verið heima við að dytta að amboðum. Nú kom hann út á túnið til fólksins. Hann gekk frá einum bólstrinum til annars, strauk þá, stakk hendinni inn í þá, smakkaði á heyinu og stakk svo hendinni aftur inn.

Einn húskarlinn starði á hann þegjandi. Það var eins og hann skildi þann græðgis-

legan unað, sem Sveinbjörn hafði af því að handfjalla alt þetta þurra, ilmandi hey.

— Falleg er tuggan, sagði húskarlinn þá eftir dálitla stund.

— Já, já — víst er hún falleg, sagði Sveinbjörn.

Svo þagnaði hann við og stundi.

— Bara það væri meira af henni, bætti hann svo við eftir stundarþögn.

Hann þagnaði aftur. Og þá kom eins og andvarp inst innan úr sálu hans:

— Það verður víst heytugga í Litla-Hvammi í sumar.

Nú þurfti Solveig að fara heim til búverkanna.

Sigurgeir þótti heyvinnan snögt um óskemtilegri, þegar hún var farin.

Þau Sigurgeir og Solveig voru ótrúlega fljót að kynnast. Áður en þau vissu af, voru þau farin að segja hvort öðru trúnaðarmál sín.

Solveigu fanst reyndar, hún lítið hafa að segja. Það hafði svo undurfátt gerst sögulegt í hennar lífi, fanst henni. Honum þótti frámunalega gaman að toga út

úr henni æfisöguna. Hún hafði venjulega verið þreytt á kvöldin og aflúin á morgnana — alt af haft nokkuð mikið að gera. Hún hafði verið hálffeimin í fyrstu, þegar hún fór að verða nokkurs konar húsmóðir heima — einkum þegar einhver var kominn —; en í raun og veru hefði henni þótt það gaman — fundist hún vaxa við það og eldast — mjög mikið gaman að eiga við yngstu börnin og ganga þeim að nokkuru í móður stað. Stundum hafði henni fundist sér gert rangt til, stundum öðrum. Einna mesta ánægjan hafði verið að lesa fyrir móður sína Íslendingasögur og gömul og ný kvæði, og þó ef til vill enn þá meiri ánægja að syngja fyrir hana, þegar hún hafði lært eitthvert nýtt lag — og svo ríða — ríða á harða stökki hestum, sem hún réð varla við. Venjulega hafði legið vel á henni. En fyrir hafði það komið, að hana langaði burt, til Ameríku eða eitthvað langt, langt burt, til þess að sjá heiminn og berjast fyrir lífinu, svo um munaði.

Og þegar hún sagði honum það, rétti hún fram langa og þrýstna handleggina og sagði:

— Mér hefði verið það óhætt. Ég hefi öll beinin til að vinna.

Hann spurði hana, fyrir hverju hún hefði þá hugsað sér að vinna, hvað hún ætlaði sér að öðlast með þeirri baráttu.

Við þá spurningu roðnaði hún og svaraði henni ekki. Því að hún hafði veður af því, að þessi ferðalöngun hennar stóð í nánu sambandi við það, sem hún gat allrasízt sagt, þótt það hefði oft fylt huga hennar með óskýrum, órólegum unaði — við óglöggustu ímyndanirnar, draumana, vonirnar, ástarþrána forvitnu, sem herti á hjartslættinum og hleypti roða í kinnarnar.

Hann fekk hana til að segja sér, að einu sinni hefði maður beðið hennar. Sigurgeir þekti manninn; hann var efnilegur og efnaður. Faðir hennar hafði fýst hana að taka honum.

Sigurgeir spurði, hvers vegna hún hefði ekki gert það.

— Auðvitað af því, að mér þótti ekkert vænt um hann, sagði hún.

— Finst þér það þá svo óumflýjanlegt og sjálfsagt skilyrði?

Hún leit á hann undrunaraugum, og það var ekki trútt um þykkju í augnaráðinu.

— Annars er það andstygð, sagði hún. Sigurgeir hafði miklu meira henni að segja. Og þá valdi hann ekki af verri endanum.

Því að það er einkennilegur munur á því, sem ungir karlmenn segja vinum sínum og vinkonum. Alt af sitja þeir í raun og veru um það, að segja eitthvað af sjálfum sér. Unaður æskunnar — hver sem hann nú er — verður nokkuð rýr, ef vér getum ekki margfaldað hann með því að gera öðrum mönnum hann skiljanlegan.

Og lagsbræðrum vorum segjum vér langmest af ávirðingunum — þeim ávirðingum, sem mannfélagið hefir komið sér saman um að sé synd, sem vér jafnvel sjálfir viðurkennum að sé synd, en vér samt sem áður — vísvitandi eða óafvitandi — stærum oss af inst í hjarta voru og teljum *ekki* synd. Það gengur alt örðugar að tjá þeim það, sem bezt er í oss, viðkvæmast, riddaralegast og karlmannlegast.

Vér geymum það handa vinkonum vorum, ungum eða gömlum. Þær kunna að hlusta á slíkar frásagnir. Þær efast ekki

um einlægnina. Þær trúa því, ef vér segjum, að vér elskum eða hötum. Þær brosa ekki að raunununum, enda þótt þær séu ímyndun ein, né að köstulunum, enda þótt þeir séu loftkendir nokkuð. Þær trúa á æskueldinn, vonareldinn, kærleikseldinn heilaga í brjóstum vorum — að hann slokni aldrei.

Að minsta kosti trúði Solveig — trúði því afdráttarlaust, að ekki að eins sín heill, heldur og heill alls landsins ætti að hvíla á herðum þessa unga manns, sem svo margt hafði séð og margt þarft lært, sem elskaði svo heitt réttsýni og drengskap og hataði svo hjartanlega alla rangsleitni og ónytjungsskap og hræsni.

Sumt skildi hún ekki hjá honum — sízt það, hvað hann var veiktrúaður á guð og annað líf. Hann hafði sagt henni það, enda þótt hann gerði sér ekkert far um að halda trúarskoðunum sínum að henni, því að hann vildi helzt, að hún héldi áfram að vera nákvæmlega eins og hún var. Trú hans hafði þornað upp, gufað burt, næstum því án þess hann vissi af. Hann taldi sér það engan ávinning — eiginlega hvorugt, því að hann þjáðist

ekkert af heilabrotum um þá hluti — en henni að sjálfsögðu tjón, ef það sama ætti fyrir henni að liggja.

Hún skildi ekkert í því, að hann, jafngáfaður maður, skyldi hafa getað komist að slíkri niðurstöðu og verið án þess að biðja guð og trúa á hann. Henni fanst það svo fráleitt, einhver undarleg sérvizka. Hún hugsaði um móður sína, sem ekki átti annað eftir en að liggja í rúminu alla sína æfi og ekkert hafði að hugga sig við annað en trú sína. Eins, eða þaðan af ver og raunalegar, gat farið fyrir hverjum sem var.

Þó þótti henni næstum því undarlegra, að hún fann, að henni þótti Sigurgeir ekkert lakari fyrir þetta og var ekki lifandi vitund hrædd um velferð hans. Hún þekti ekki muninn á sjúkri trú og heilbrigðri.

Svona liðu nokkrar vikur. Þau höfðu enn ekki talað neitt um ást sína. En öll þeirra afskifti voru í rauninni ástaratlot og hvorugt hafði minsta efa um hitt. Sál Sigurgeirs drakk í sig hina hraustlegu, mjúku, björtu fegurð hennar og hún hugsaði um hann vakandi og sofandi. Þau

voru að njóta frumgróðurs ástalífsins, sem ljúfastur er af gæðum þessa lífs. Þau höfðu vakandi auga hvort á öðru, hverju einasta augnatilliti, hverju einasta brosi, hverri einustu hreyfingu. Og alt varð það að fögnuði og nautn og merkari stórviðburðum, en gerst höfðu síðan er heimurinn varð til.

Sveinbirni var ekki farið að lítast á blikuna. Honum þótti þau draga sig nokkuð mikið saman, sonur hans og Solveig. Hann sá ekki betur en að þau væru saman, hvenær sem minsta tilefni var til þess, og oft endranær. Auðvitað fór vel á því, að hlýtt væri milli þeirra, ef Solveig átti að verða stjúpa Sigurgeirs. En honum var ekki grunlaust um, að syni sínum mundi vera ljúfara að hugsa sér Solveigu enn nákomnari sér. Og auðsætt var, að henni var ekkert ant um að bægja honum frá sér.

Hvað átti hann að gera? Honum kom til hugar að láta samdrátt þeirra afskiftalausan. Það var ekki nema eðlilegt, að Sigurgeir færi að svipast um eftir konuefni. Hann var kominn á þann aldur.

Og Solveig var efnileg stúlka, þó að hún væri fátæk. Fyrirhafnarminst var það, að fara nú ekki að standa í neinu stappi, heldur lofa þeim að eigast, ef þau kæmu sér saman um það.

En hann varð ofurlítið að hugsa um sjálfan sig. Það var hart fyrir hann, jafnefnaðan mann, með annað eins heimili, að vera konulaus alla æfi. Og honum hafði ekki reynst auðhlaupið að því að kvongast aftur. Hér var loksins konuefni, sem hann var ánægður með — og gat fengið. Honum datt ekki í hug, að hann mundi fá hryggbrot hjá Solveigu. Auðvitað var ekki óhugsandi, að hún léti sér fátt um finnast í fyrstu — ekki sízt, ef henni skyldi lítast vel á Sigurgeir. En hann gerði sér örugga von um, að faðir hennar mundi verða á sínu bandi, og það svo vel að dygði. Hann vissi vel, hvernig hann átti að fá Ólaf til þess. Og það var heldur ekki svo sem, að hér væri um neitt skammarboð að ræða. Það voru engin neyðarkjör fyrir bláfátæka stúlku, að setjast í búið á Stóra-Hvammi. — Auðvitað mundi Sigurgeir þykja fyrir að hætta við stúlkuna, ef honum var nokkur alvara

með hana, sem annars var ekki víst. Ungir piltar ætla sér ekki að eiga allar þær stúlkur, sem þeir láta líklega við. En hvort sem væri, þá mundi sú hrygð fljótlega rætast af honum. Hann var ungur og álitlegur, og mundi ekki verða á hjarni staddur, þó að ein gengi úr skaftinu. Og auk þess var það ekki nema sanngjarnt, að hann legði eitthvað í sölurnar fyrir föður sinn, eftir að hafa verið í öðru eins eftirlæti og fengið annað eins uppeldi.

Hann styrktist æ betur og betur í því, að það væri beinlínis rangt af sér, að sleppa þessu tækifæri til að gera hin efri ár sín ánægjuleg. En hann vildi fara að öllu með hægð og gætni. Heppilegast virtist honum að byrja á því, að gera Sigurgeir henni afhuga, og bezt var, að Solveig gæti sjálf séð, að því væri svo farið, áður en bónorðið væri hafið. Og einfaldasta ráðið til þess var að segja honum hreinskilnislega, hvað sér byggi í brjósti — eða að minsta kosti nokkurn veginn hreinskilnislega.

Þá var það einn góðan veðurdag, að hann lagði af stað út á engjarnar, til þess að vekja máls á þessu við son sinn.

Sigurgeir var þar einn sér og var að slá dálítinn grænan bolla, sem var mitt í kjarrinu, skamt frá túninu.

— Reytingssamar eru engjarnar í Stóra-Hvammi, Geiri minn, sagði Sveinbjörn, þegar hann kom ofan í bollann.

Sigurgeir lauk við að slá brýnuna, áður en hann svaraði. Þá stakk hann efri endanum á orfinu niður og fór að brýna.

— Ójá, sagði hann, en eiginlega finst mér nú ekki þú hafa undan sérlega miklu að kvarta, pabbi. Þér hefir búnast bærilega að þessum engjum, þótt reytingssamar séu.

— Komdu hèrna upp í barðið og hvíldu þig ofurlitla stund og rabbaðu við mig dálítið, sagði Sveinbjörn, færði sig upp í barðið og settist niður. Sigurgeir settist hjá honum.

— Já, það er satt, guð hefir blessað efnin furðanlega, sagði Sveinbjörn, og það er nokkuð mikið umvélis hér í Stóra-Hvammi — í raun og veru meira en eg sé fær um að sjá um það með ekki meiri aðstoð en eg hefi hingað til haft, síðan hún móðir þín sáluga dó.

Þeir þögðu báðir dálitla stund. Annaðhvort hikaði Sveinbjörn sér, eða hann gaf syni sínum viljandi tíma til að jafna sig eftir þessa bendingu, sem hann hafði gefið honum.

— Eg geri mér í rauninni samvizku af að breyta til, Geiri minn, tók Sveinbjörn aftur til máls. Eg geri mér samvizku af því þín vegna. Það er nú mikið farið að ganga á móðurarfinn þinn, og þetta, sem eg á, væri ekki ofmikíð handa þér, þegar eg hrekk upp af. En eftir því, sem eg þekki þig, geri eg mér von um, að þú munir ekki reynast eigingjarn, þegar karlinn hann faðir þinn á í hlut.

— Eg vona þú ímyndir þér ekki, pabbi, að eg muni sjá eftir því, að þú verjir þínum eigin efnum með þeim hætti, sem þú heldur þér verði ánægjulegast. — Mér skilst, sem þú munir vera að hugsa um að kvænast aftur.

— Já, eg er að hugsa um það, Geiri minn — eg er að hugsa um það. Og eg vissi það æfinlega, að þú mundir taka þessu eins og góður sonur. Þú hefir æfinlega verið gott barn — dæmalaust gott

barn — sjálfsagt betra barn en nokkurt annað, sem eg þekki.

Sigurgeir gazt ekki meir en svo að þessari lofræðu. Hann gat ekki fundið, að hún stæði í neinu sambandi við umræðuefnið. Í hans augum var það svo sjálfsagt, að faðir hans kvæntist aftur, ef hann langaði til þess og átti kost á því, að um það þurfti engum orðum að eyða. Hann var ekki einu sinni svo bundinn við heimilið nú, að líkindi væru til að kvonfang föður hans hefðu nein veruleg áhrif á hans eigið líf. Og hann hafði mist móður sína svo ungur, að endurminningarnar um hana komu í þessu efni lítið eða ekki til greina. Og þótt aldrei nema þessi ráðabreytni föður hans hefði komið eitthvað óþægilega við tilfinningar hans, þá átti hann sannarlega engan rétt á að bægja honum frá því, sem gat orðið honum til ánægju og hamingju, jafnvel þótt það hefði staði í hans valdi. Það fór gegnum huga hans eins og ör, að eitthvað annað og lakara mundi búa undir.

— Hver er hún? spurði hann.

— Það er — er kvenmaður, sem — sem eg vona þú getir ekkert sett út á, þó

að hún sé fátæk. -- Það er — er hún Solveig hérna á bænum, sagði Sveinbjörn. Það var eins og hann ýtti loksins játningunni út af vörunum með afli.

Sigurgeir varð svo bilt við, að hann fann að hann hvítnaði. Faðir hans sá það ekki, því að hann leit aldrei framan í son sinn, meðan á samræðunni stóð.

— Hefurðu nefnt það við hana? sagði Sigurgeir eftir ofurlitla þögn.

— Nei — nei, eg hefi ekki nefnt það við hana enn. Mér fanst, sannast að segja, eg eiga að minnast á þetta við þig fyrstan manna, af því að þú ert eina manneskjan, sem bíður nokkurn halla við það. Og eg vona, að þú hafir ekki orð á þessu við nokkurn mann — ekki heldur við Solveigu. Eg kann ekki við það, að hún frétti það, eins og þú skilur.

Sigurgeir var nú orðið svo órótt, að hann treysti sér ekki til að ræða þetta mál lengur. Honum var ekki einu sinni unt að sitja kyr. Svo hann stóð upp þegjandi, gekk ofan í slægjuna, tók orfið sitt og fór að slá.

Sveinbjörn fór rakleiðis heim. Hann varð líka feginn að slíta talina.

Sigurgeir hamaðist að slá. Það var eins og hann ætlaði að bæla niður ofsann í huga sér með því að þreyta sig líkamlega. En það tókst ekki. Ungar, öflugar, óstýrilátar hugsanir risu upp úr djúpi sálar hans, viðkvæmar, órólegar, æstar af skyldurækt og drengskap og gremju og bardagalöngun og ást — óskyldum, andstæðum öflum, sem svo oft hrjá oss og hrekja, þangað til eitthvert eitt verður hinum yfirsterkara og sogar þau öll í sig.

Nú reyndi á karlmensku hans. Hann hafði aldrei fyr átt kost á að sýna það, hvort hann væri nokkur þrekmaður eða ekki. Nú barst það tækifæri upp í hendurnar á honum. Því að það var svo sem auðvitað, að hann átti að víkja fyrir föður sínum. Hann átti að verða föður sínum til gleði og hamingju, en ekki til óhamingju og raunar. Hann var ódrengur og illur sonur, ef hann lagði ekki eitthvað í sölurnar fyrir föður sinn, þegar svo bar undir. Og það voru nú einu sinni forlög hans, að hann þurfti að leggja það í sölurnar, sem honum var dýrmætara en lífið. Hann hafði aldrei fundið það eins og nú, að ætti hann að missa hana, yrði

lífið ekki að eins gleðisnautt, heldur þjáning og kvöl. En það voru nú einu sinni forlög hans.

Ja, því þá það? Átti hann ekki sama rétt til yndis og sælu í lífinu eins og hver annar maður? Atti hann að leggja sig flatan, af því að það væru forlög sín, láta troða á sér, misþyrma sér andlega, mylja sundur það, sem nú var orðin sterkasta, eina hvöt hans til að verða verulega að manni?

Að minsta kosti átti Solveig einhvern rétt á sér. Og hann var alt að því viss um, að hún elskaði sig. Átti hann að laumast burt frá henni eins og halakliptur hundur? Var það karlmannlegt eða drengilegt? Átti hann ekki að verja hana og berjast fyrir hana og leggja alt í sölurnar fyrir hana — hana, sem helgaði honum sínar fyrstu, viðkvæmustu og hreinustu ástartilfinningar, hana, sem ef til vill hugsaði um hann nótt og dag og treysti honum og trúði á hann og hélt hann væri kongssonurinn, sem ætti að leiða sig út úr öskustó einstæðingsskaparins og líkamlegrar og andlegrar þrælkunar út í sólskin lífsins? Og hann fór að hugsa um

hana, þar sem hún stóð frammi í stofunni morguninn eftir að hann kom og vakti hann með þessum orðum:

Það ætti að vera á annari' eins stund,
að elskunnar minnar eg kæmist á fund,
ef hana' eg í heiminum fyndi.

Hann hafði fundið hana á vori lífs síns. Sá fundur hafði líka orðið til nokkurs, eða hitt þó heldur, ef hann ætlaði að laumast frá henni, jafnskjótt sem hann hafði komist að raun um, að hann unni henni um alla hluti fram!

En hvað vissi hann, nema faðir sinn kynni að elska hana eins heitt og hann sjálfur? Vitaskuld hafði hann ekkert á það minst. Hann hafði hagað orðum sínum eins og það eitt vekti fyrir honum að fá konu til að standa fyrir búinu með sér. En hvað var það að marka? Rosknir menn tala ekki um ástir — allra-sízt við börn sín. Þeir kveinka sér við því, líkt og ungar stúlkur. Þeim finst eitthvað hlægilegt við það. En það er ekki. Maður á sannarlega rétt á að elska, svo lengi sem maður getur það. Og skyldu tilfinningar föður hans eiga minna rétt á sér

fyrir það, að lífsvor hans var liðið? Skyldu þær ekki einmitt eiga meira rétt á sér fyrir það, að elliárin voru nú skamt undan með öllum sínum dapurleik? Var það ekki óþolandi tilhugsun, að einmitt hann, sonurinn, yrði til þess að hella í þau gremju og beiskju? Jú, hann varð að víkja. Hann varð að minsta kosti að gefa föður sínum færi á að flytja sitt mál við Solveigu, án þess að hann ætti þar áður nokkurn hlut að málum. Hann gat þá ekki að því gert, þó að Solveig kynni að veita honum afsvar. Nei, nei; nú var hann áreiðanlega að draga sjálfan sig á tálar. Eins og það væri ekki alveg víst, að Solveig neitaði föður hans, eins og nú var ástatt! Hann varð einhvern veginn að láta henni skiljast það, að hann væri henni afhuga.

Nei, nei, nei! Það gat hann ekki. Þó að hann yrði annars ræktarlaus ódrengur, þá gat hann *það* ekki.

Hann fór að hugsa um, hvað faðir sinn hefði farið vel að sér um daginn og talað hlýlega til sín. Nú fann hann, að hann hafði talað af einlægni og góðum föðurhug, þó að honum hefði einhvern veginn fund-

ist fátt um áður. Hann mintist þess, hvernig faðir hans hafði einu sinni, þegar hann var lítill, klappað á kollinn á honum og sagt: Blessaður vertu, stúfurinn minn. Eg er viss um, að þú verður mér æfinlega til gleði og ánægju. Og ótal atvik þessu lík komu upp í hug hans, því að faðir hans hafði jafnan verið honum góður. En jafnframt gægðust fram fagnaðarstundirnar, sem hann hafði með Solveigu verið, og andlitið á henni, fult af brosi og blíðu og gleði og trausti og von og ást.

Og hann herti sig að slá, sló, sló í sífellu, eins og hann ætti lífið að leysa — eins og grænt og mjúkt grasið kringum hann væri orðið að endurminningunum, sem hann var að berjast við — endurminningunum, sem flyktust utan um sál hans og tættu hana sundur, enda þótt þær væru ljúfar og blíðar, eins og föðurblessun og ástmeyjarbros eru vön að vera.

Hann heyrði kallað á sig og leit við. Solveig stóð uppi á barðinu og var að kalla á hann að koma heim að borða. Þá tók hún undir sig stökk, kom hlaupandi og hlæjandi ofan í slægjuna til hans.

Hún kom beint frá eldamenskunni, léttklædd, með handleggina bera upp undir olnboga, hvíta og mjúka. Hvað hann langaði til að vefja þeim um hálsinn á sér. Hvað hann langaði til að ausa út yfir hana í eldheitum kossum og föstum faðmlögum nokkuru af ástríðu sinni og þrá! Hún leit framan í hann gráum, kankvísum, ástríkum, lokkandi augunum, og honum fanst einhvern veginn eins og hún ætlaðist til þess, sem honum hafði dottið í hug.

Og svo átti hún að verða stjúpa hans! Ekki nóg með það, að hann ætti að missa hana — heldur átti hver einasta hugsun hans um hana að verða að andstygð og svívirðing! Því að hann fann, að hann mundi aldrei geta hugsað um hana með öðrum hætti en hann gerði nú.

Hann gekk þegjandi heimleiðis við hliðina á henni, því að það var eins og hann gæti ekkert sagt. Aldrei fanst honum hafa verið jafn-mikil unun að vera nálægt henni, og þó hafði því aldrei fyr verið þjáning samfara.

Hún leit á hann öðruhvoru, og skildi ekkert í því, hvers vegna honum var svo

brugðið. Var honum ilt, eða hafði honum þótt fyrir?

— Gengur nokkuð að þér? spurði hún loksins.

— Nei, það gengur ekkert að mér, sagði hann.

Hvað það var óþolandi eftir öll þau trúnaðarmál, sem þeim höfðu á milli farið, að verða nú að dylja hana þess, sem mest var í varið.

Hún spurði hann einskis meira, en gaf honum auga við og við, þangað til þau voru komin heim. Hún hafði vonast eftir að þessi för út í slægjuna til hans yrði sér til ánægju, en það hafði ekki orðið, og um stund þótti henni allir skapaðir hlutir leiðinlegir, eins og ungum stúlkum þykir venjulega, þegar þær hafa orðið fyrir vonbrigðum.

Hann mælti ekki orð frá munni, meðan hann mataðist, enda var hann ekki lengi að því, því að hann kom varla niður nokkurum munnbita. Þá lagði hann tafarlaust af stað út í slægjuna aftur.

Solveig gekk á eftir honum út á stéttina og vonaði, að hann segði eitthvað við sig. En hann gekk þegjandi burt, og hún

horfði á eftir honum, þangað til hann var kominn í hvarf.

Hvað gat gengið að honum?

Hann fór aftur að slá. En hann sló nú ekki eins kappsamlega og áður. Hann var þreyttur, þreyttur á sál og líkama. En hann hafði engan frið. Alt af sömu hugsanirnar, sama sjálfheldan, sama ráðaleysið.

En þegar hann var kominn heim um kveldið og var búinn að borða — eða búinn að látast borða — og var á leiðinni inn í svefnherbergið sitt, þá beið Solveig hans í stofunni — sömu stofunni, sem hún hafði verið í, þegar hún vakti hann fyrir fáeinum vikum.

Það var orðið skuggsýnt, en tunglið skein inn um gluggana. Og hún stóð í tunglsgeislanum, há og grannvaxin, fölleit og yndisleg.

— Viltu ekki segja mér það, Sigurgeir? sagði hún, og röddin var óskýr, eins og tunglsljósið er og ástaróttinn, þegar vér vitum ekki, hvað er að óttast.

Hvers vegna ekki segja henni það? Hvers vegna ekki binda enda á alt þetta kvalræði? — Nei, nei! Það var eins og

að höggva aftan að föður sínum, sem ekki átti sér neins ills von.

— Eg get ekki sagt þér það núna, Solveig — ekki núna. Þú fær að vita það bráðum — þú fær víst að vita það.

Og hann skauzt inn í svefnherbergið og lokaði hurðinni á eftir sér. Hann fann, að hann mundi ekki hafa neitt vald á sér, ef hann staldraði lengur við hjá henni. Hann hafði þegar sagt of mikið.

Hann flýtti sér í rúmið og langaði til að sofna. Bara að hann mætti sofa og gleyma sjálfum sér og lífinu, þangað til eitthvað rofaði til, eitthvert ráð væri fundið En hann gat ekki sofnað, þótt hann þreyttur væri. Hann bylti sér á allar hliðar í rúminu, en hvíldist ekkert.

Eitt var víst — hann gat ekki haldið svona áfram að þegja og þjást með Solveigu fyrir augunum á hverjum degi. Var ekki bezt fyrir hann að leggja af stað á morgun, eitthvað langt, langt burt, þangað sem hún kæmi aldrei? Út úr því datt honum í hug aðkomuhundur, sem um tíma hafði verið að flækjast í Stóra-Hvammi einu sinni, þegar hann var lítill. Fólkið hafði ekki viljað hafa hann þar og hafði

bundið bein við skottið á honum. Honum stóð lifandi fyrir hugskotssjónum, hvernig hundurinn hafði tafarlaust rólað burt af heimilinu, ráðalaus og skömmustulegur. Hvað honum var líkt farið og þessum hundi! Hann lét binda við sig byrði, sem hann gat ekki hrist af sér, og svo ætlaði hann að strunsa burt með hana eitthvað út í veröldina. Um þetta var hann lengi að hugsa — eða að minsta kosti fanst honum, hann vera lengi að því. Og því lengur sem hann hugsaði um það, því aumingjalegra, lítilmannlegra, hundslegra fanst honum það vera.

Þá var það loksins, þegar langt var liðið á nótt, að hann komst að niðurstöðu nokkurri. Hann ætlaði að láta skríða til skarar morguninn eftir og segja föður sínum, hvernig ástatt var. Hvað vissi hann, nema þetta gæti alt lagast með góðu? Hvað vissi hann, hvort föður sínum mundi vera nokkuð verulega fast í hendi með Solveigu? Og var hann ekki vís til að víkja fyrir syni sínum, þegar hann fengi að heyra alla málavöxtu? Ef hann var ófáanlegur til þess, varð alt að fara sem auðið yrði. Sjálfur gat hann

ekki vikið. Hann gat ekki laumast burt; hann gat ekki látið binda við skottið á sér; hann gat ekki gert sjálfan sig að hundi. Og þegar hann hafði ráðið þetta af, komst nokkur kyrð á hug hans, og þreytan varð öllum órósemdum yfirsterkari.

Snemma morguninn eftir var hann vakinn með kaffi eins og vant var. Hann fór þegar á fætur og spurði eftir föður sínum. Honum var sagt, að hann svæfi, og hann réð af að fara ekki út á engjarnar, fyr en hann hefði náð fundi föður síns. Svo hann beið hans með mikilli óþreyju. Hann hugsaði ekkert um, hvernig hann ætti að koma orðum að erindi sínu, heldur eingöngu um það, hver erindislokin mundu verða.

Það leið löng stund áður en Sveinbjörn kom á fætur, en að lokum hitti hann son sinn í stofunni. Hann varð hálf-hissa.

— Svo þú ert ekki farinn enn, sagði hann. — Það er rétt af þér að vera ekki að rífa þig upp fyrir allar aldir. Þú veizt, eg ætlast ekki til þess, að þú leggir harðara að þér en rétt eins og þú kant sjálfur bezt við.

— Eg var að bíða eftir þér, pabbi. Eg þarf endilega við þig að tala, og mér fanst ekki, eg geta dregið það. Það er um Solveigu. Eg get það ekki — get það ekki með nokkuru móti.

— Hvað geturðu ekki?

— Eg get ekki hugsað til þess, pabbi, að hún verði konan þín — né neins annars. Mér þykir sjálfum svo vænt um hana. Eg hugsa um ekkert annað en hana. Eg hefi enga ánægju af neinu, þegar hún er ekki viðstödd. Þú hættir við þetta, pabbi, sem þú sagðir mér í gær. Heldurðu þú gerir það ekki, þegar þú veizt, hvað mér stendur það á miklu? Mér er ómögulegt að gera þér grein fyrir, hvað mér stendur það á miklu, og eg vil alt til vinna að þú látir þetta eftir mér.

— Þú munt vera búinn að segja Solveigu þetta alt saman?

— Nei, eg hefi ekkert sagt henni enn þá, en eg er alveg viss um, að hún veit það. Og eg er alveg viss um, að henni þykir eins vænt um mig eins og mér þykir um hana. Svo þú sér, að það hlytist ekki annað en ólán og mæða af að fara lengra út í þetta.

Sveinbjörn þóttist sjá, að sonur sinn ætlaði að bjóða sér byrginn. Það hafði engum tekist enn, og hann ætlaði ekki að láta barnið sitt verða fyrst til þess. Hann var beinlínis að hælast um út af hryggbrotinu, sem í vændum mundi vera hjá Solveigu. Það lá við, að hann teldi sjálfum sér trú um, að hefði ekki Sigurgeir farið svona að því, þá hefði sér verið ánægja að láta að orðum hans. En úr því að svona var komið, þá var bezt að sjá, hvor þeirra hefði það. Hann þagði við dálitla stund og tók svo til máls.

— Þessu hefði eg aldrei trúað á þig, Sigurgeir, sagði hann stillilega, en það var alvarleg vandlætingasemi í rómnum og hún fór æ vaxandi eftir því sem lengra leið á ræðuna og hann talaði í sig meiri sannfæring og gremju. — Mér er eiður sær, eg hefði ekki getað trúað því á þig, þó að mér hefði verið sagt það. Manstu söguna, sem Natan spámaður sagði Davíð konungi? Nei, þú ert vaxinn upp úr kristindómnum þínum, eins og aðrir ungir menn nú á dögum. Það voru tveir menn, annar ríkur og hinn fátækur. Fátæki maðurinn átti ekkert nema eitt lamb,

sem hann elskaði eins og börnin sín. Ríki maðurinn átti auð og alls nægtir. En þegar ferðamaður kom til ríka mannsins, þá stal hann lambinu frá fátæka manninum, til þess að bera á borð fyrir gestinn. Það þótti ekki drengilega gert, og þó var fátæki maðurinn ekki faðir hans, og það var ekki nema lamb, sem hann stal frá honum. Þú ert nú ríki maðurinn, Sigurgeir minn. Þú ert ungur, lífið brosir við þér og mér liggur við að segja, að þú getir valið um allar stúlkur á landinu. Eg er fátæki maðurinn, orðinn roskinn og ekkert er fyrir framan mig nema ellin og dauðinn og gröfin. Og svo stelurðu því eina, sem mér getur til yndis orðið, gömlum manninum — stelur því og þykist góður af.

— Þetta eru tilhæfulaus ósannindi, sagði Sigurgeir, sótrauður í framan. Eg hefi engu frá þér stolið, því að þú hefir aldrei átt lifandi vitund í Solveigu og þú eignast það aldrei. Það er eg, sem hefi átt hana síðan við sáumst í sumar, og takist þér eða öðrum að skilja okkur, þá — þá er það *eg*, sem fyrir rangsleitninni verð.

— Þá er það líklegast *eg*, sem stel frá *þér*. Svo þú gerir þá föður þinn bæði að lygara og þjóf í þokkabót. Fallegt er talið. Við skulum ekki tala meira um þetta núna, Sigurgeir. Hvert einasta orð, sem þú segir, meðan þú ert í þessu skapi, verður þér til syndar og dómsáfellis.

Og Sveinbjörn fór tafarlaust út úr stofunni. Sigurgeir stóð eftir og undi við hið versta. Eftir alt sitt sálarstríð og samvizkusemi hafði hann verið laminn svipuhöggum vægðarlaust, varnarlaust. Ekki eitt einasta afsökunarorð, vægðarorð, góðvildarorð! Ekkert nema barsmíð, högg á högg ofan! Enginn kostur annars en berjast! Nú, jæja — þá það! Það var gaman að sjá, hvor þeirra bæri sigur frá borði.

Meira en 20 ár hafði faðir hans aldrei sagt annað en góðvildarorð í hans garð og aldrei gert honum annað en gott. Nú voru öll þau ástríku orð og góðu verk gleymd, sokkin á kolsvarta kaf í skafli þungyrðanna, sem sögð höfðu verið á einni eða tveimur mínútum og töluð í geðshræring og bráðræði!

Já, hann varð að ná fundi Solveigar sem allra fyrst — það var ekki eftir neinu að bíða — segja henni afdráttarlaust, hvað sér byggi í brjósti — fá hana til að lofast sér — og gera svo öllum mönnum uppskátt, að hún væri konuefnið hans. Það var fróðlegt að sjá, hvað faðir hans gat þá gert. Honum var forvitni á að sjá þann mann, sem tæki hana af sér, þegar svo langt væri komið. Hvers vegna hafði hann líka látið þetta dragast svona lengi? Hefði alt verið um garð gengið fyrir daginn í gær, þá hefði aldrei til þessara vafninga komið.

En — — hvað vissi hann í raun og veru um vilja hennar í þessu efni? Hvað var það, sem þeim hafði á milli farið? Þau höfðu verið fljót að kynnast. Þeim hafði komið ágætlega saman. Þau höfðu sagt hvort öðru meira en þau voru vön að segja öðrum — það er að segja, *hann* hafði sagt henni meira en hann var vanur að segja öðrum. *Hann* hafði haft óumræðilegt yndi af að vera nærri henni. *Honum* hafði fundist draga fyrir sólina hvert sinn, sem þau skildu. En hvað vissi hann um *hana*? Hvað vissi hann,

nema það væri hennar eðlisfar að vera opinská við alla menn, sem hún á annað borð hafði nokkurt gaman af að tala við? Vitaskuld, hún hafði stundum litið á hann þeim augum, að honum fanst blóð sitt verða sjóðandi heitt. En það var ekki dæmalaust, að stúlka liti hýrt til karlmanns, án þess að hún ætlaði sér að verða konan hans. Var það ekki hlægilegt af honum að ganga að því svona vísu, að hún ynni honum hugástum? Hún hafði að minsta kosti aldrei sagt neitt, sem gæfi það í skyn — ekkert einasta orð gat hann upp á hana hermt í þá átt. Og fyrir hverju var að gangast, þar sem hann átti í hlut? Ekki var svo sem því að heilsa, að hann væri efnaður. Faðir hans hafði mint hann á það í gær, að móðurarfurinn hans væri á förum. Og ekki þurfti hann að búast við hjálp frá föður sínum, ef hann hygði á þetta kvonfang. Var það ekki, þegar hann hugsaði um þetta með ró og stillingu, töluvert aðgengilegra fyrir fátæka stúlku, sem átti bláfátæka ættingja, að setjast í búið á Stóra-Hvammi, en að fara að bindast honum allslausum og bíða eftir honum ár eftir ár, eða þá hrekjast

með honum í fátækt og vandræðum, hver veit hvert? Hvað vissi hann nema Solveig hefði alt af ætlað sér að verða stjúpa hans, síðan er hún kom að Stóra-Hvammi? Hvað vissi hann nema hún hefði sýnt sér óvenjulega ástúð einmitt af því, að hún ætlaði sér að verða stjúpa hans?

Í fyrstu voru þessar hugsanir hans lítið annað en hálfgildings-uppgerð, eins konar drembilegur leikur. En hann kvaldi sig með þeim, þangað til þær voru orðnar óbærilegar. Þær uxu eins og skriða. Óvissan varð æ öflugri, hræðslan enn óviðráðanlegri. Hann *varð* að finna Solveigu.

Svo fór hann að leita að henni um húsið. Honum var þá sagt, að hún væri uppi á lofti — faðir hans hefði kallað á hana þangað og þau mundu hafa lokað sig inni í einu herberginu þar.

Solveigu hafði ekki orðið svefnsamt um nóttina — ekki fremur en Sigurgeir. Það hafði ekki leynt sér, að hann bjó yfir einhverju daginn áður. Hún gat ekki á heilli sér tekið. Hvað gat það verið? Hvers vegna mátti hún ekki fá að vita

það? Það er æfinlega hart fyrir konur að spyrja og fá ekkert svar, enda þótt þær spyrji um það, sem þeim kemur ekkert við. En þetta kom henni við. Henni kom alt við, sem hrygði Sigurgeir. En auk þess var enginn vafi á því, að þetta snerti hana sjálfa beinlínis — hún var alveg sannfærð um það. Sigurgeir hafði nærri því sagt það kveldinu áður, þegar hann skildi við hana í stofunni. Hvað gat það verið? Hafði Sigurgeir sagt föður sínum það, sem hún hafði nú um stund vonað, að hann mundi segja henni sjálfri, og faðir hans svo lagt blátt bann fyrir? Það var Sveinbirni líkt, að þykja hún of fátæk handa syni sínum. En það var ekki það. Sigurgeir var ekki sú rola, að láta hugfallast út af öðru eins. Það var eitthvað annað. Hvað gat það verið?

Þessu var hún lengi að velta fyrir sér um nóttina. Og þegar Sveinbjörn kallaði á hana um morguninn, þóttist hún vita, að nú væri ráðning gátunnar í vændum og var heldur en ekki forvitin. Hvað *gat* það verið.

Sveinbjörn var sýnilega í geðshræringu. Rauðir flekkir voru um andlitið á honum

og svo mikill óstyrkur var í höndunum á honum, að hann ætlaði ekki að geta tekið utan um lykilinn til að tvílæsa. Jafnauðsætt var, að hann reyndi að leyna því og fara að öllu sem stillilegast.

— Eg ætla ekki að hafa langan formála að því, sem mig langar til að segja þér, Solveig mín, tók Sveinbjörn til máls. Eg er orðinn svo gamall, að eg hefi lært að fara styztu leiðina, þegar eg rata hana. Alt af, síðan þú komst hingað í vor, hefi eg hugsað mér, að þú ættir ekki að þurfa að hrekjast héðan.

Þá þagnaði hann drykklanga stund. Solveigu fór að verða heitt um hjartaræturnar. Hún hélt, að Sveinbjörn ætlaði að fara að flytja mál sonar síns. En hvers vegna í ósköpunum sendi Sigurgeir föður sinn? Gat það verið, að hann hefði ekki einurð á að nefna það sjálfur?

— Og eini vegurinn til þess er auðvitað sá, að þú verðir konan mín, bætti Sveinbjörn þá við.

Solveig ætlaði ekki að trúa sínum eigin eyrum. Hún starði á Sveinbjörn eins og tröll á heiðríkju. Hún hélt, sér hefði hlotið að misheyrast.

— Að eg verði *hvað?* sagði hún þá nokkuð hvatskeytlega.

— Konan mín, sagði Sveinbjörn hálfkindarlegur. Honum fanst nærri því, hann heyra hryggbrot í málróm hennar.

— Er þér alvara, Sveinbjörn?

— Já, víst er mér alvara, svaraði hann hálf-önuglega. Er eg sá gárungi, að þú hafir ástæðu til að halda, að eg segi þetta í galsa?

Svo honum var alvara! Solveigu lá við að fara að hlæja. Henni fanst það eitthvað svo skoplegt, hvernig hún hafði misskilið hann, og bónorðið sjálft svo kátlega fráleitt. Hún svaraði samt kurteislega:

— Það getur ekki orðið.

— Gættu nú að, hvað þú segir, Solveig mín, sagði Sveinbjörn. Það munu flestir kalla, að þú neitir gæfu þinni, ef þú tekur þvert fyrir þetta. Og ekki mundi faðir þinn ætlast til þess. Eg mun reyna að gjöra mitt til, að þú svarir þessu á þá leið, sem mig langar til. Svaraðu ekki í fljótræði. Hugsaðu þig vel um.

— Eg þarf ekkert um það að hugsa, og eg vona, að þú misvirðir það ekki við mig. Það getur ekki orðið — aldrei nokkurn tíma.

— Hvers vegna ekki? Ef það er vegna Sigurgeirs, þá er þér óhætt að trúa því, að það verður aldrei neitt úr neinu ykkar á milli. Er það hans vegna?

— Eg er frjáls manneskja, svaraði Solveig, og var ekki trútt um þykkju í rómnum, og er ekki skyldug til að færa ástæður fyrir öðru eins og þessu. Þér er nóg að vita það, að þetta, sem þú fer fram á, verður aldrei —; hvernig sem alt veltist, þá er ekki til neins að nefna *það*.

Þá lauk hún upp hurðinni og fór út og ofan stigann. Sveinbjörn kom á hælana á henni, en hann fór út úr húsinu. Reiðhestur hans var rétt við túnið. Sveinbjörn fór rakleiðis til hans, hnýtti snæri upp í hann, teymdi hann heim og lagði á hann. Þá fór hann inn og hafði fataskifti.

— Eg ætla að skreppa út í kaupstað, sagði hann við Solveigu, þegar hann kom út aftur ferðbúinn. Eg býst við, eg komi við í Holti. Þú munt ekki vilja, að eg skili neinu til foreldranna þinna?

— Nei — ekki nema eg biðji að heilsa.

— Eg kem heim aftur annað kveld, ef guð lofar, sagði Sveinbjörn þá, kvaddi Solveigu vingjarnlega og lagði af stað.

Solveig mætti Sigurgeir í anddyrinu, og hann bað hana að koma með sér inn í stofuna.

— Hvað vildi pabbi þér? spurði Sigurgeir, þegar þau voru komin þangað inn.

— Hvað heldurðu? sagði hún brosandi. Enn fanst henni þetta vera hlægilegt.

— Biðja þín? sagði Sigurgeir.

— Hvernig vissirðu það?

— Hverju svaraðirðu?

— Ja — hverju heldurðu, eg hafi svarað? Eg hélt, þú vildir ekki eiga mig — fyrir stjúpu, — svo eg —

Hann tók utan um hana undir höndunum og hún vafði handleggjunum um háls honum — —

Góðri stundu síðar fóru þau hvort til sinnar vinnu, létt í lund og fagnandi, eins og ung hjónaefni eiga að vera. Lífið var bjart eins og heiðskír sumardagur og ekkert var til í öllu sólskininu nema þau ein.

Morguninn eftir var sunnudagur, og þá var Solveig komin í alt annað skap. Hún var farin að hugsa um það, sem Sveinbjörn hafði sagt, að hann ætlaði að koma

við í Holti. Hún bjóst við óánægju, vafningum og baráttu. Hún gat ekki hugsað sér, að neitt gæti orðið til þess að svifta þeim sundur; hún sá engin ráð til þess. Það var enginn minsti slæðingur í huga hennar af efa um það, að Sigurgeir sæti við sinn keip. En samt var hún hrædd — hún vissi ekki við hvað. Það var einhvern veginn orðið dimt í hug hennar, og hún hafði veður af vofum alt í kring um sig.

Flestir af bænum fóru til kirkju um daginn, nema þau Sigurgeir. Þegar fólkið var farið, settust þau inn í stofuna. En þeim gekk örðugt að tala saman. Solveig var einhvern veginn svo dauf og utan við sig, að Sigurgeir vissi ekki, hvað hann átti að segja eða hugsa. Hvers vegna gat ekki fyrsti fundurinn þeirra eftir lofunina verið að minsta kosti *eins* skemtilegur eins og allar þeirra samvistarstundir höfðu áður verið? Honum fanst það ósanngjarnt og alt öðru vísi en hann hefði ástæðu til að vonast eftir. Hver einasti nýlofaður karlmaður ætlast til að unnustan sé glöð og kát. Enda þótt eitthvað mótdrægt hafi hent hana, á hún samt að

leika á als oddi, finst honum — af fögnuði út af því, að vera lofuð honum. Og hér hafði engan skapaðan hlut nýjan að höndum borið síðan í gær. Þá datt honum í hug út úr vandræðum, að biðja hana að syngja eitthvað fyrir sig. Hún vissi ekki, hvort hún gæti sungið neitt núna, en eftir ofurlitla stund var hún samt farin að syngja þessar vísur:

Eg sótti' hana heim um sumardag,
að sunnan í frægasta leiði. —
Þá söng mér gleðiljóð dansandi dröfn
og dýrlega sól skein í heiði.
Nú ísi lokuð eru' öll mín sund,
Og aldrei kem eg á hennar fund.
Því sigli eg einn út á æginn
um ískaldan vetrardaginn.

Eg veit ekki, hvar eg get helzt fundið land,
né hvernig áttum er varið.
Svo báran verður að bera mig hvert,
sem báturinn helzt getur farið.
Það þýtur í lofti og þokan er köld
og það er nú enda komið kvöld.
Já, hvert á að halda' yfir æginn
um helkaldan vetrardaginn?

Og norðanvindurinn beljar og blæs
og blóðughaddan sér skautar.

Svo stíga þau saman hinn stiglanga dans
og stýrimann reyna til þrautar.
Svo döpur er skemtun við drafnar söng,
þá dagur er stuttur, en nóttin löng.
Guð flytji nú fleyið um æginn
um fárkaldan vetrardaginn.

— Hvaða ógn er það raunalegt, sem þú ert nú að syngja, sagði Sigurgeir — brosandi, enda þótt honum fyndist fátt um kvæðið, og væri í hálf-illu skapi. Hann gat ekki að sér gert, að bera það saman við kvæðið, sem hún hafði sungið yfir honum morguninn eftir að hann kom, og honum gramdist það, að tilhugalíf þeirra skyldi byrja svona dauflega.

— Hver hefir kent þér þessar vísur?

— Mamma — hún hefir kent mér alt, sem eg kann.

Þá þagði hún við lítið eitt.

— Guð hjálpi okkur, Sigurgeir, ef sundin skyldu lokast, sagði hún svo.

Í sama bili var riðið í hlaðið, og þeim varð litið út um gluggann. Það var faðir hennar, sem var kominn.

Sveinbjörn hafði komið við í Holti, eins og hann hafði gert ráð fyrir, og fundið

Ólaf að máli. Þegar þeir voru seztir inn í stofuna, hóf Sveinbjörn samræðuna með því að tjá Ólafi, hvað sér þætti mikið fyrir því, að það stæði nú svo á fyrir sér, að hann yrði nú að ganga eftir þessu lítilræði, sem þeim færi á milli.

Ólafi hnykti við í meira lagi. — Þessu líka lítilræði, tautaði hann fyrir munni sér.

— Já — auðvitað, það er orðið nokkuð mikið, sagði Sveinbjörn, og því síður get eg látið þetta ganga svona.

— Samt veiztu nú, Sveinbjörn minn, að eg skulda ekki öðrum en þér, og að þú getur gengið að öllu, sem eg á, þegar þér sýnist. Og þú veizt líka, að eg er að basla við að reyta til þín leigur af láninu, eftir því sem eg get.

— Já, en svo veizt þú líka, að alt af safnast fyrir meira og meira með hverju ári. Eg verð að fara að hugsa dálítið um sjálfan mig. Það er ekkert hóf á því, hvað eg á orðið mikið hjá öðrum.

— Þú manst það víst, að þú hefir alt af sagt, að meðan eg sýndi sömu viðleitni á að standa í skilum og okkur annars bæri ekkert á milli, þá mundir þú ekki

ganga að mér. Þú getur ekki annað sagt, en að eg hafi reytt mig eftir mætti. — Hvað sem skuldaskiftunum annars líður, þá hefir þú ekki enn tapað á mér, Sveinbjörn. Og þú veizt það líka, að eg hefi ekki verið þér andstæður, þegar þú hefir viljað fá einhverju framgengt í sveitarmálum.

— Ekki kannast eg við það, Ólafur minn, að það hafi verið neinum fastmælum bundið — að minsta kosti ekki neinum löglegum samningum — að eg ætti að láta skuldaskifti okkar darka svona um aldur og æfi. Þú sér það sjálfur, *einhvern tíma* hlýtur að koma að skuldadögunum.

— En þú veizt, að eg *get* ekki borgað þessa skuld, meðan börnin eru svona mörg í ómegð. Það væri sama sem að setja mig á sveitina. Við höfum verið góðir vinir tuttugu ár, og eg trúi því ekki, fyr en eg tek á, að það sé *það*, sem fyrir þér vakir. Hvað er það þá? Þú býr yfir einhverju, sem þú hefir ekki enn látið uppi. Hvað er það, sem þú vilt fá mig til að gera?

— Fá þig til að gera?! Þú heldur þó ekki, að eg ætli að fara að kúga þig til að gera eitthvert ódæði? Nei, þú fær

sannarlega að vera frjáls að öllum þínum verkum fyrir mér, Ólafur minn. — Eg veit, að það er örðugt fyrir þig að borga sem stendur, og eg hefi mikið um það hugsað, hvernig okkur væri báðum hentast að hafa þetta. Mér hefir hugkvæmst ráð, sem eg mundi fyrir mitt leyti una við. En eg veit ekki, hvernig *þér* kann að lítast á það, og eg vona, að þér skiljist það, að eg læt þig alveg sjálfráðan, gersamlega sjálfráðan.

Ólafur kinkaði kolli og horfði áfergjulega framan í Sveinbjörn.

Sveinhjörn þagði við litla stund og tók svo aftur til máls.

— Mér hefir hugkvæmst, sagði hann, að bjóða þér að taka Solveigu þína að mér — giftast henni — helzt nú í haust. Gæti þetta lánast, þá getur þú nærri, að eg mundi líta eftir því, að ekki krepti að þér, meðan við lifum báðir. En gæti nú ekkert úr þessu orðið, þá hefi eg hugsað mér að breyta eitthvað um til muna. Eg er orðinn þreyttur á að búa með sama hætti og að undanförnu. Eg hugsa mér helzt að bregða þá búi og líklegast flytja burt af landinu — þó að það sé vitaskuld ekki

fullráðið enn. En hvað sem eg tek fyrir, þá þarf eg þá á *öllu* mínu að halda. Eg neyðist þá til að fara það, sem eg kemst, við *alla* mína skuldunauta. En eg tek það fram aftur, að eg læt þig alveg sjálfráðan. Eg vil enga nauðung — enga þvingun. Hvernig lízt þér svo á þetta?

— Þú getur því víst nærri, að mér lízt ekki öðruvísi en vel á það, ef það getur lánast. En — hefir þú nefnt það við Veigu? Það er auðvitað mest undir henni komið.

— Eg býst við, hún hafi skilið það á mér.

— Og hvernig tók hún því?

— Hún tók því — tók því — eiginlega ekki líklega. En hún hefir sjálfsagt hugsað sér að ráðfæra sig við ykkur, foreldra sína. Eg ætla alveg að leggja málið í þínar hendur, Ólafur minn. Eg kem heim annað kvöld, og þá þætti mér gott að fá að vita annaðhvort. Þú hefir þetta alveg eins og ykkur kemur saman um. Náttúrlega er mér það áhugamál. En eg vil enga nauðung — þú manst það — enga nauðung.

Og svo fór Sveinbjörn að hraða sér á stað, og Ólafur fór inn til konu sinnar. Hann stundi við, um leið og hann settist á rúmið fyrir framan hana.

— Ertu lasinn í dag, góði minn? sagði hún. Þú ert svo fram úr öllu hófi þreytulegur.

O-nei, hann var ekkert lasinn venju fremur. Hann hafði líka hvílt sig stundarkorn, því að það hafði komið gestur.

Já, hún hafði heyrt, að Sveinbjörn í Stóra-Hvammi hefði komið. Átti hann nokkurt sérstakt erindi núna?

— Naumast verður sagt, að hann hafi komið erindislaust. — Hann var að biðja dóttur okkar.

— Guð varðveiti mig! — biðja hennar Veigu?

— Já, og eg býst við að fara á morgun og minnast á það við hana.

— Hefir hann þá ekki minst á það við hana sjálfur?

— Jú, svo skilst mér — en það hefir ekki gengið saman með þeim.

— Hvers vegna lætur þú þá ekki þar við sitja? Þetta kemur mest henni við.

Hún veit bezt um sinn eigin vilja. Hvers vegna vera að skifta sér nokkuð af því?

— Sveinbjörn mæltist til þess, að eg talaði við hana. — Eg sé líka fram á, að það muni verða nokkuð örðugt fyrir okkur, ef þessi ráð takast ekki.

— Það er þó ekki komið svo fyrir okkur, Ólafur, sagði kona hans og tók fast í handlegginn á honum, að við þurfum að selja barnið okkar — selja hana Veigu — til þess að — til þess að fara ekki á sveitina? Gerðu það fyrir mig — farðu ekki — farðu ekki — skiftu þér ekkert af þessu. Sveinbjörn getur sjálfur flutt sitt mál við hana og Veiga getur svarað fyrir sig sjálf.

— Jú, elskan mín, eg verð að fara og finna hana. Sveinbjörn sækir þetta fast, þó að hann segi ekki mikið. Það væri rangt gert af mér, að láta hana ekki vita, að — að — það kæmi sér vel — að það er æðimikið undir því komið, hvernig hún svarar.

— Guð minn góður — aumt er að vera fátækur — guð minn góður — guð minn góður, sagði hún, sneri andlitinu upp að þili og breiddi rekkjuvoðina yfir það.

Þau Sigurgeir og Solveig fóru út á stéttina til þess að heilsa Ólafi, þegar þau sáu hann ríða í hlaðið. Ólafur lét þess þegar getið, að sig langaði til að tala við Solveigu fáein orð í einrúmi. Sigurgeir varð því eftir úti, en þau feðginin fylgdust að inn í stofuna og settust við borðið.

— Eg veit, til hvers þú ert kominn, pabbi, sagði Solveig. Sveinbjörn hefir fundið þig í gær.

— Já, hann fann mig í gær. — Hann sækir þetta fast. Er þér þetta mjög á móti skapi?

— Já, eg er búin að segja Sveinbirni það sjálfum, að það sé ekki til neins fyrir hann að hugsa til þess. Og eg sagði honum það svo afdráttarlaust, sem eg hafði vit á.

— Svo þú ert búin að vísa honum á bug afdráttarlaust? Auðvitað ræður þú þér sjálf — en — heldur þú, að það sé óhugsandi, að þér geti snúist hugur? Það hefði mikið að þýða fyrir okkur öll, okkur heima, ef þér gæti snúist hugur.

— Það er alveg óhugsandi, pabbi. Og til sannindamerkis er það, að — að — eg er lofuð öðrum manni — honum Sigurgeir.

— Guð sé oss næstur! — Lofuð honum Sigurgeir? — veit Sveinbjörn það?

— Það gerðist ekki fyr en hann var farinn í gær. En hann fer samt áreiðanlega nærri um það, því að Sigurgeir sagði honum, hvað sér byggi í brjósti, áður en hann' fór.

— Og samt sækir hann þetta svona fast! Því hann sækir það fast. Þú veizt ekki, hvað hann sækir það fast. Hann ætlar að setja okkur á sveitina, Veiga, ef þú lætur ekki undan honum. Hann hefir tangarhald á öllu, sem til er í Holti — jörðinni, peningnum — öllu saman. Hann ætlar að taka það alt. Þú skilur það — hann ætlar að setja móður þína á sveitina og börnin og alt. Hann hefir hótað því, og eg veit, hann stendur við það. Eg veit ekki, til hvers eg er að segja þér þetta. Það er líklegast synd af mér að vera að því. Ekki getur þú neitt við því gert. Mér dettur svo sem ekki í hug að fara neitt að reyna að neyða þig — allra sízt þegar svona stendur á fyrir þér. En það gerir minst til, þó að eg segi það nú — þú fengir víst að vita það innan skamms, hvort sem væri. Það liggur víst ekki í

láginni, þegar við förum á sveitina. Það leynir sér víst ekki, þegar farið verður að flytja hana móður þína í eitthvert kotið á kviktrjám — eða hvernig sem þeir nú flytja hana — eg veit ekki, hvernig þeir fara að því að flytja hana.

Solveig glápti eins og agndofa á föður sinn, meðan hann lét dæluna ganga. Fyrst gat hún ekki gert sér grein fyrir því, sem hann var að segja. Hún hafði haft eitthvert veður af skuldaskiftum milli þeirra Sveinbjarnar, en hún hafði enga hugmynd um, hvernig viðskiftum þeirra var í raun og veru farið. Svo þegar faðir hennar fór að tala um kviktrén og flutninginn á móður hennar, var eins og augu hennar lykjust upp á einu augabragði. Henni var sem hún sæi þann atburð gerast fyrir augum sér, og hann skygði á alt annað. Slík eymd og óhæfa mátti ekki við bera, hvað sem það svo kostaði.

— Skilst mér það rétt, pabbi, sagði Solveig svo stillilega, að hún var steinhissa á því sjálf — skilst mér það rétt, pabbi, að engin önnur úrræði séu til að forða ykkur frá sveit en þau, að eg eigi Sveinbjörn?

— Því er miður; eg sé ekkert ráð, Veiga mín. Eg veit það, eins og eg veit að eg sit hérna, að Sveinbjörn gengur eftir sínu. Eg veit engan, sem eg gæti þá leitað til — þú skilur það, eg hefði þá enga tryggingu að bjóða nokkurum manni, af því að eg væri öreigi. Og þegar eg væri staddur á hjarninu allslaus, þá *gæti* eg ekki unnið fyrir móður þinni og þeim fimm börnunum, sem eru í ómegð. Eg er orðinn hálfgert skar, Veiga. Eg vinn það, sem eg get; en eg er orðinn ósköp ónýtur. Þú trúir því ekki, hvað eg finn til þess, að vera orðinn ónýtur. Hugsaðu þér að verða eftir af hinum piltunum — af því eg er orðinn svo mæðinn — lengst niðri í mýri — og vera þó með mjórri spildu en þeir. Eg fengi ekki nærri því full daglaun hjá öðrum. Fyrir nokkurum árum hefði eg ekki getað skilið það né trúað því, að eg yrði nokkurn tíma svona ónýtur. Og hvað er það þó í samanburði við að fara á hreppinn — guð minn góður — að hugsa sér að fara á sveitina!

— Vertu ókvíðinn, pabbi, sagði Solveig. Þú fer ekki á sveitina. Eg skal taka Sveinbirni. Þá lagast þetta alt saman;

— er það ekki víst, að þá lagist þetta alt saman?

— Nei, er þér alvara, Veiga? Guð launi þér þetta, blessað barnið mitt. — Jú þá lagast þetta alt saman. — En í guðs bænum, láttu ekki hana móður þína skilja á þér, að eg hafi reynt að neyða þig. Eg hefi ekki reynt það — hefi eg? Segðu henni, þú gerir það af frjálsum vilja. Þú gerir það af frjálsum vilja — gerirðu ekki? Þú gerir það til þess að hjálpa foreldrunum þínum og systkinunum þínum — en þú gerir það af frjálsum vilja — gerirðu ekki?

— Eg *geri* það að minsta kosti, hvað frjáls sem viljinn er nú, sagði Solveig nokkuð óþolinmóðlega. En þú mátt vera óhræddur um það, pabbi, að þér verður aldrei kent um það, bætti hún svo við.

Ólaf grunaði, að dóttir sín mundi helzt vilja jafna sig á þessu í einrúmi, enda hafði hann ekkert meira að segja. Svo hann fór út úr stofunni. Hann fann Sigurgeir úti fyrir og fór að rabba við hann um hitt og þetta. Hvorugur þeirra mintist einu orði á erindi hans.

Solveig sat kyr á stólnum, krosslagði handleggina á borðinu, grúfði andlitið niður í þá og stundi hátt. Grátið gat hún ekki og hugsað gat hún ekki. Sorgin lagðist um stund eins og kolsvört þoka yfir hug hennar og hún gat ekki áttað sig þar. Þá fór að rofa til eins og fyrir hvassviðri.

Svona var þá komið — og þetta átti að verða endirinn á öllum hennar æskudraumum. Hann Sveinbjörn átti að verða maðurinn hennar! Hvað það var viðbjóðslegt — óútmálanlega andstyggilegt!

Hún fór að hugsa um sögur af mönnum, sem höfðu orðið að samrekkja huldufólki með óviðráðanlega óbeit í sál sinni og líkama. — Var hún heilluð af óvættum? Eins og það væri ekki betra að vera heilluð af álfum inn í hóla og kletta, og geta falið þar sorg sína og andstygð og svívirðing fyrir augum mannanna, heldur en að dragast með það alt í sólarljósi mannheima með Sigurgeir við hliðina á sér!

Þá kyrði ofurlítið. Hafði hún ekki sjálf valið þennan kostinn? Átti hún þá ekki

að reyna að standa við sinn eigin úrskurð með stillingu, hugprýði og þolinmæði?

Jú, hún hafði valið — valið eins og ofsótt dýr, sem komið er fram á hamrasnös og á kost á því tvennu: að steypa sér fram af hengifluginu eða láta drepa sig uppi á hömrunum. Eins og um nokkuð væri að velja, þegar átti að setja foreldra hennar á sveitina, rífa börnin frá móður hennar í rúminu, þeyta þeim út í tvistinn og bastinn og ef til vildi hrekja hana sjálfa frá manni sínum og hola henni niður sem hreppsómaga í fletið móti baðstofudyrum hjá einhverjum ræflinum, sem vildi taka hana fyrir minst meðlag. Eins og það væri nokkurt viðlit að lifa með það á samvizkunni, að hafa getað afstýrt öðrum eins ósköpum og hafa ekki gert það!

En ef þetta var óhjákvæmilegt til þess að bjarga foreldrum hennar og systkinum, var það þá ekki guðs vilji, að hún gerði það? Átti hún ekki að beygja sig undir guðs vilja — ekki með þeim hætti, sem hún gerði, með vonzku og ofsa, heldur með auðmýkt og undirgefni? Vitaskuld var þetta hart, en hans vegir voru órannsakanlegir!

Efinn greip nú sál hennar í fyrsta sinn með heljarklóm sínum, kreisti hana, nísti og tætti hana sundur, eins og mögnuðustu draugarnir gera, þegar þeir ná í varnarlausar mannskepnurnar í náttmyrkrinu.

Guðs vegir voru ekki betri fyrir það, þó að þeir væru órannsakanlegir. Það, sem var ljótt og andstyggilegt og níðingslegt, varð ekki gott, þó að eitthvað gott kynni að geta af því hlotist — einhvern tíma. Það var guðs að sjá um, að níðingsverkin væru ekki unnin. Hann gat ekki þurft neitt á þeim að halda, og það voru engin útlát fyrir hann, almáttugan guð, að afstýra þeim. Hún, sem var ekki annað en syndug manneskja, mundi afstýra hverju níðingsverki, sem hún ætti kost á. Og svo gjörir almáttugur guð það ekki — hann, sem jafnframt er algóður! Var nokkurt vit í þessari kenningu? Nei, annaðhvort var guð ekki almáttugur, eða hann var ekki algóður — beinlínis vondur — eða hann var ekki til.

Hún hafði veður af því, að hugsunin væri voðaleg. Hún var þá annaðhvort í höndunum á vondu valdi, eða hraktist fyrir einhverju, sem hvorki var gott né

vont — ekkert annað en afl — eins og reiðalaust og stýrislaust skipsflak í stórsjó. En henni fanst einhver friðun í voðanum. Hann stælti mótstöðuaflið og dró hugann burt frá andstygðinni.

Og hún sagði sér það hvað eftir annað — eins og móðir hennar hafði haft það upp fyrir henni hvað eftir annað, sem hún með engu móti mátti gleyma, þegar hún var lítil —: annaðhvort er guð vondur, eða hann er ekki til.

En Sveinbjörn var til — því miður — og hún átti að verða konan hans. Nú fór hún að svala sér á honum í huganum. Hún fór aftur að hugsa um dýrið á klettasnösinni. Hraust dýr búast til hefnda, þegar ekki verður undankomu auðið. Skyldi hún ekki geta látið hann iðrast þess arna? Hvað hún skyldi kvelja hann! Hvað hún skyldi eitra fyrir honum lífið! Hvað hún skyldi eyða og spenna fjármunum hans, af því að hann elskaði þá! Hvað hún skyldi svívirða hann napurt í annarra viðurvist, hve nær sem hún kæmist höndunum undir! Hvað hún skyldi hella yfir hann miklu af brigzlyrðum, þegar þau væru tvö ein saman! Hvað það skyldi

vera henni mikill fögnuður að lúta niður að honum á banastund hans og orga inn í eyrað á honum, að hann væri níðingur!

Hurðinni var lokið upp og Sigurgeir kom inn í stofuna. Solveig sat þá upprétt við borðið móti glugganum, lagði handleggina fram á það og krepti hnefana.

Sigurgeir gekk inn fyrir borðið og leit á hana. Henni var mjög brugðið. Andlitið hálfgrátt og kinnarnar sýndust rýrari en þær áttu vanda til. Hún einblíndi út í gluggann. Hann hafði aldrei séð hana neitt líka þessu, og það datt ofan yfir hann.

— Solveig, sagði hann heldur lágt, en með öndina í hálsinum. Hún leit ekki við, sat grafkyr eins og áður.

— Solveig, Solveig — hvað gengur að þér? Er þér ilt? sagði hann nokkuru hærra og tók utan um aðra höndina á henni.

Hún hrökk við og kipti að sér hendinni. Hann laut niður að henni og ætlaði að kyssa hana. Hún ýtti honum frá sér og sagði:

— Þú mátt ekki snerta mig.

Það var ekki þykkja í röddinni og ekki heldur minsta blíða — ekkert nema bláköld alvara.

Sigurgeir þótti atferli hennar æ undarlegra og óskiljanlegra. Var hún fárveik eða var hún orðin brjáluð?

— Hvers vegna má eg það ekki? spurði hann vandræðalega.

Hún þagði við nokkura stund, og sagði svo:

— Af því að eg á ekki að verða konan þín, heldur stjúpa þín.

Sama þykkjuleysið í röddinni, sama blíðuleysið, sama alvaran. Og ekki leit hún við enn, heldur einblíndi út í gluggann.

Honum varð orðfall. Hann fann, að þetta var satt, og að hvorki var óráð á henni né hún vitstola. Gremjan, sem hafði verið að brjótast í hug hans um daginn, varð á svipstundu að hamslausri reiði, og reiðin gaf honum ekkert svigrúm til að átta sig, gera sér grein fyrir hrellingunni, sem annars var svo auðsæ á Solveigu sjálfri. Efasemdirnar, sem hann hafði verið að kvelja sig með morguninn áður, risu nú upp í huga hans, margfalt

sterkari, urðu á augabragði að sannfæring. Hann þóttist skilja, hvers vegna Solveig hefði séð sig um hönd. Hún hafði auðvitað tafarlaust farið að sjá eftir að hafa lofast honum, og þess vegna verið svona drumbsleg, áður en faðir hennar kom. Svo hafði faðir hennar rekið smiðshöggið á iðrun hennar. Honum þótti verst, að hann gat ekki komið orðum að því nógu napurt, særandi, og varð að sætta sig við að segja háðslega:

— Já, faðir minn er auðvitað efnaðri en eg.

Nú fyrst leit hún við. Það var harðneskjusvipur á andlitinu á henni. Og hún horfði fast framan í hann, lengi, lengi, beint inn í augun á honum, eins og henni væri ómögulegt að fá af sér að líta á neitt annað. Og það fóru að koma kippir í varirnar á henni. Þá hrukku tvö stór tár, sitt af hvoru auga, og þá hvert af öðru í sífellu.

Hún átti örðugt með að tala fyrir gráti, en gerði það samt.

— Segðu ekki þetta — segðu ekki þetta, Sigurgeir. Segðu það ekki — segðu það ekki, elskan mín. — Nóg er nú samt

— þó þú níðist ekki á mér. — Faðir þinn — faðir þinn — ætlar — ætlar að setja — setja fólkið mitt á sveitina — ef hann fær mig ekki. — Og eg get ekki — get ekki lofað honum það. — Það verður að hafa það — þó að eg — þó að eg missi þig — og þó að eg sjái aldrei glaðan dag — og þó að eg verði að illri manneskju — og óguðlegri — hann skal ekki fá að setja þau á sveitina — hann *skal* ekki. — En þetta máttu ekki segja, Sigurgeir — eg á það ekki skilið — það er synd af þér — það er óguðlegt.

Þá grúfði hún sig aftur niður í handleggi sína á borðinu og grét mikinn, svo að herðarnar nötruðu.

Sigurgeir var ekki með öllu ókunnugt um skuld Ólafs við föður hans, og hann skildi tafarlaust, hvað um var að vera. Reyndar gerði hann sér ekki í fyrstu fulla grein þess að hann ætti í raun og veru að missa Solveigu. En reiði hans var þegar sprungin eins og vindbóla, og hann fekk óþolandi samvizkubit út af orðunum, sem hann hafði látið sér um munn fara.

Hann tók utan um herðarnar á henni, ætlaði að reisa hana upp og faðma hana að sér.

Hún leit á hann eins og í draumi, tók þá hart viðbragð, spratt á fætur, færði sig frá honum og leit aftur á hann. Þá þaut hún út um stofudyrnar, eins og kólfi væri skotið og upp á loft.

Hann fór út á tún og gekk þar fram og aftur.

Hann var auðvitað að hugsa um það, sem nú hafði við borið — ekki um það, að Solveig ætti að verða stjúpa sín. Hann trúði því í raun og veru ekki enn, og hugsaði ekki um það — heldur um atferli sjálfs sín. Hann mintist þess, hvernig hún hafði verið ásýndum, þegar hann kom til hennar inn í stofuna. Og svo í fyrsta sinni, sem hann sá hana harmþrungna — í fyrsta sinni, sem hann átti kost á að vera henni til aðstoðar og huggunar, hafði hann sætt því lagi til þess að segja henni nöprustu beiskyrðin, sem honum gátu til hugar komið — til þess að níðast á henni, eins og hún hafði sjálf að orði komist. Hvað það var ljótt, ódrengi-

legt, illmannlegt — óguðlegt, eins og hún hafði líka sagt.

— Guð fyrirgefi mér, sagði hann, án þess að vita af því í fyrstu. Þá fór hann að taka eftir því, að hann var að tauta þetta fyrir munni sér í sífellu: Guð fyrirgefi mér.

Það var engin bæn, heldur hugsunarlaus barnsvani. En það svifti honum á einu vetfangi langar leiðir aftur í tímann. Löngu gleymd atvik liðu fram hjá hug hans í einni striklotu, án þess að nokkurt hlé yrði á.

Hann mintist þess, hvernig hann hafði einu sinni, þegar hann var undurlítill angi, legið í rúmi sínu og móðir hans setið á rúmstokknum fyrir framan hann og látið hann lesa faðirvor. Hann hafði orðið að vanda sig svo mikíð á fimtu bæninni, því að honum hætti við að ruglast í henni, sleppa úr henni miðpartinum, og segja: Fyrirgef oss vorum skuldunautum. Og í þetta sinn hafði honum skilist hún í fyrsta skifti — áður hafði hún ekkert verið annað en flókin og vandasöm orð.

Hann mintist þess, hvernig hún hafði þráfaldlega brýnt þessa bæn fyrir honum

— hvernig hún hafði sagt honum, að þegar honum hefði orðið á að gera eitthvað ljótt, mætti hann aldrei gleyma því að biðja guð að fyrirgefa sér — það væri ekki nóg að hún fyrirgæfi honum, að mennirnir fyrirgæfu honum — guð yrði líka að gera það.

Og hann mintist þess sérstaklega, hvernig hún hafði einu sinni haldið þessu boði að honum. Honum fanst eins og það hefði verið í gær. Munaðarlaus drengur hafði verið í Stóra-Hvammi, á aldur við hann sjálfan. Hann hafði einu sinni komið aftan að þessum dreng í galsa og glánaskap og hrundið honum, og drengurinn rekið niður andlitið og fengið blóðnasir. Sigurgeir hafði orðið logandi hræddur við að sjá blóðið, hlaupið rakleiðis til móður sinnar og sagt henni, hvar komið var. Hún tók drenginn, þó honum og huggaði hann. Þá sagði hún Sigurgeir, að nú yrði hann að biðja drenginn fyrirgefningar — hann mætti ekki hætta, fyr en hann væri búinn að fyrirgefa honum — og svo skyldi hann koma og finna sig. Drengur var tregur til sátta. Svo bauð Sigurgeir honum 40 völur, ef hann vildi fyrirgefa

sér, og þóttist heldur en ekki ryðja sig. Drengur vildi fá meira. Þá bauð Sigurgeir honum grænan legg, sem hann átti. Það var reiðhesturinn hans og gæðingur mikill — meiri gæðingur en nokkur annar hestur á heimilinu, enda var enginn hestur þar grænn nema þessi. Það fór að lyftast brúnin á særða drengnum, en hann var ekki vonlaus um að geta komist að betri kaupum, af því að Sigurgeir var þetta svo mikið áhugamál. Hann sagðist þurfa að fá meira — hann hefði meitt sig svo mikið — sér væri enn ilt í nefinu. Sigurgeir bauð honum þá 20 skeljar. — Eg vil líka fá hörpudiskana, sagði drengur. Sigurgeir átti 10 hörpudiska, og honum þótti þeir fallegri en öll önnur djásn, sem hann hafði séð. Hann bauð einn hörpudiskinn — þann sem skarðið var í. — Nei, alla hörpudiskana, sagði hinn. — Jæja, þá það, en nú máttu til með að fyrirgefa mér, sagði Sigurgeir, því að nú á eg ekkert meira til. — Hinn sá, að það var satt, nú mátti hann til með að fyrirgefa Sigurgeir, af því að hann átti ekkert meira til. Og svo fyrirgaf hann honum.

Sigurgeir fór aftur til móður sinnar og sagði henni sáttargjörðina. — Nú áttu eftir að biðja guð að fyrirgefa þér, sagði hún — Honum fanst þess ekki þurfa; áverkinn væri bættur að fullu. Strákskömmin tók alt, sem eg átti — líka hörpudiskana — og hann er búinn að fyrirgefa mér. — En ef einhver meiðir þig og er svo góður við þig á eftir og þú fyrirgefur honum, á eg þá ekki líka að fyrirgefa honum? sagði móðir hans. — Jú, en guð er ekki *mamma* hans Sveinka. — Jú, aumingja Sveinki á hvorki pabba né mömmu, svo guð verður að vera bæði pabbi hans og mamma hans. Heldurðu þá ekki, að hann hafi tekið sér það nærri, að þú skyldir meiða hann? — Jú, fyrst guð var *mamma* hans Sveinka, þá mátti hann líklegast til með að biðja hann að fyrirgefa sér. Og svo gerði hann það. Og svo þótti honum svo merkilegt, hvað guð lét sér ant um Sveinka, að hann sá ekki lengur eftir hörpudiskunum.

Eftir nokkurn tíma var svo þetta, sem móðir hans ætlaðist til, komið upp í vana fyrir honum.

Þessar endurminningar runnu saman við hugsunina um Solveigu, þar sem hún sat

úrvinda af sorg og hann hafði atyrt hana og móðgað. Honum fanst ekki verða bætt fyrir þá synd. Þó að hann bæri hana á höndum sér alt lífið, þá var það ekki annað en sjálfsögð skylda, enda þótt ekkert hefði í skorist. Hann fór að hugsa um blekklessur á hvítum, táhreinum pappír — klessur, sem drápu í gegn, með ýmislega löguðum, andstyggilegum öngum út úr sér. Óhæfubletturinn var eftir, kolsvartur, viðbjóðslegur, óafmáanlegur. Það var ekki nóg að hún fyrirgæfi honum — bletturinn var eftir samt.

Og þá var það, að hann fekk óviðráðanlega löngun til að biðja guð að fyrirgefa sér, eins og hann hafði gert, þegar hann var lítill, »úthella hjarta sínu«, biðja af öllum kröftum sálar sinnar. Og svo gerði hann það — afdráttarlaust, efalaust, skynsemislaust. Hann var orðinn barn af nýju. Lindir efasemdanna höfðu um stund þornað í eldi ástríðunnar.

Ef einhver hefði sagt honum um morguninn, að slíkt mundi henda hann um daginn, þá hefði honum fráleitt þótt sá maður spámannlega vaxinn. En sjálfsagt hefði honum samt þótt það enn ótrúlegri spá-

dómur, að unnusta hans yrði áður búin að afneita guði og staðráða með sjálfri sér að verða svo vond kona, sem henni yrði unt.

Afturkastið kom von bráðara, og þar með jafnvægi í hug hans. Það var ekki trútt um, að hann skammaðist sín. Oddborgaraeðlið er orðið svo ríkt i oss, að oss hættir við að fyrirverða oss, hvenær sem vér gefum oss eitt augnablik á vald einfaldri sterkri tilfinning, — enda þótt enginn hafi orðið þeirrar yfirsjónar var nema vér sjálfir. Og svo stóð þetta ástand, sem hann hafði verið i, ekki i neinu sambandi við lífskoðun hans. Það var eins og eitthvert hálf-veiklað, hálf-hlægilegt aðskotadýr, sem vilst hafði inn i líf sálar hans.

Hann fór nú að geta hugsað um það með stillingu, hvernig ástatt var um þeim Solveigu. Honum varð ljósara og ljósara, i hvert óefni var komið. Í fyrstu sá hann engin ráð. Það var ekki von, að Solveig gæti til þess hugsað, að foreldrar sínir og systkin færu á sveitina —, en fyrir bragðið var hún á valdi föður hans. Sjálfur gat hann ekki hjálpað. Ekki gat hann borgað skuld Ólafs.

Jú — eitt var hugsanlegt: að lofa föður hans að taka eigur Ólafs, og að svo hjálpuðust þeir Ólafur á einhvern hátt að því, að hafa ofan af fyrir fjölskyldunni. Efnilegt var það ekki. Það var fullörðugt að byrja með tvær hendur tómar, þótt ekki væri þung fjölskylda í ofanálag. Það hafði það auðvitað í för með sér, að þau Solveig máttu ekki giftast fyrst um sinn. En það var sjálfsagt að bjóða þetta og leggja fram alla sína krafta til að fá því framgengt.

Alt í einu kom Guðríður í Litla-Hvammi honum til hugar. Hún var eina manneskjan, sem hann gat leitað til í þessum kröggum. Reyndar gat hann ekki hugsað sér, að hún gæti neitt verulega hjálpað. Hvað um það — hún var að minsta kosti bezta, eina vinkonan, sem Solveig átti, og gat huggað hana með stillilegum orðum og fengið hana til að jafna sig. Það var sjálfsagt að finna hana.

Hestur Ólafs var að naga hlaðvarpann. Sigurgeir stökk tafarlaust á bak honum. Í sama bili kom Ólafur út. Hann hafði ráfað einmana fram og aftur um stund, og verið að hugsa um, hvernig hann gæti með haganlegustum orðum gert konu sinni skil-

janlegt, að Solveig ætlaði að giftast Sveinbirni af frjálsum vilja. Þá hafði honum farið að leiðast og ætlað að kveðja dóttur sína og halda af stað. En honum hafði ekki tekist að ná fundi hennar. Hún hafði lokað sig inni í herbergi uppi á lofti og lauk ekki upp, þegar barið var að dyrum hjá henni. Hann ætlaði því að fara, án þess að kveðja hana, þó að honum þætti það leiðinlegt. En þegar hann kom út, sá hann Sigurgeir vera að fara á bak hesti sínum og fanst það kynlegt.

— Þetta er klárinn minn, Sigurgeir, kallaði hann til hans.

— Já, eg kem undir eins aftur, sagði Sigurgeir og reið tafarlaust af stað.

Hann fann Guðríði heima og sagði henni alla málavexti. Henni félst mjög um.

— Guð minn góður! sagði hún. Og þetta er alt mér að kenna. Að eg skyldi skjóta þeirri flugu að honum Sveinbirni, að fá sér hana Veigu fyrir bústýru!

Hún lagði af stað með honum inn að Stóra-Hvammi. Hann gekk við hliðina á henni og teymdi hestinn. Hún var orðfá mjög á leiðinni, var auðsjáanlega hugsi. Hún fann Ólaf fyrir utan Stóra-Hvamms-

húsið. Hann var þar að bíða eftir hesti sínum.

— Farðu ekki, fyr en eg geri þér viðvart, sagði hún, þegar hún var búin að heilsa honum. — Þér er annars bezt að bíða, þangað til Sveinbjörn kemur heim. Hver veit, nema þú getir fært konunni þinni eitthvað greinilegri fréttir, ef þú bíður, heldur en þú getur nú.

Ólafur lofaði því. Og Guðríður fór upp á loft til Solveigar. Hún lauk upp, þegar hún heyrði, hver komin var.

Sveinbjörn kom heim um kveldið. Þau Guðríður og Ólafur voru bæði úti til þess að taka á móti honum. Guðríður sagðist hafa beðið eftir honum dálitla stund, því að hún þyrfti að tala við hann dálítið, en nú væri sér farið að liggja á að komast heim. Svo þau fóru bæði inn í stofuna og settust þar.

— Þig grunar auðvitað, hvaða erindi eg á við þig, sagði Guðríður. Eg er búin að tala við þau Sigurgeir og Solveigu.

Sveinbjörn svaraði engu, en beið átekta.

— Þú veizt það ef til vill, að eg hefi heldur haldið í hönd með henni Veigu, síðan hún var lítil. Þess vegna er eg að skifta mér af þessu. — Henni er það mjög nauðugt.

— Það lagast vona eg, sagði Sveinbjörn.

— Það lagast ekki Sveinbjörn. Þú yrð-ekki öfundsæll af henni nauðugri. Þú sagðir mér einu sinni, að þú hefðir heyrt, hún væri stórlynd. Eg hefi sannfærst um það í dag, að það sé eitthvað hæft í því. Þú veizt ekki, hvað örðug kona getur verið manni sínum, ef hún er staðráðin í að leggja sig í framkróka um það.

— Það lagast, vona eg.

— Heldurðu ekki, þetta sé synd af þér — að neyða svona unga, saklausa stúlku, sem elskar annan mann — og það son þinn? Þetta er glæpur, Sveinbjörn. Og það verður þér bæði til skammar og óláns.

— Er það glæpur að ganga eftir sínu? Ert þú ekki vön að ganga eftir þínu? Annað geri eg ekki. Og eg býð jafnvel Ólafi að láta skuldina standa — standa von úr viti, ef hann og dóttir hans vilja fara að mínum ráðum. Er það glæp-

ur? — Þú hefðir annars getað afstýrt þessu í vetur, Guðríður. Þér láðist það þá. Nú er það um seinan. Það situr eiginlega ekki á þér, að skifta þér af því, hver verður konan mín. Og það er ekki til neins fyrir þig að tala frekara um það mál.

— Jæja þá. Eg býst við, að það sé ekki til neins. — Þú erfir ekki þetta hjal við gamla grannkonu þína, Sveinbjörn?

— Nei, eg held síður en svo. Allrasízt þar sem eg á það í raun og veru þér að þakka, ef Solveig verður konan mín.

Og Sveinbjörn hló við einstaklega ánægjulega og ástúðlega.

— En sú blessuð tíð, sagði Guðríður. Það er þó satt, að þetta hefir verið gott og hagstætt sumar. Þú munt vera búinn að fá inn heytuggu?

— Eg? Það er nú helzt að segja. Hvernig ætti eg að fá inn hey — engjalaus maður? Það er eitthvað öðru vísi en í Litla-Hvammi.

— Já, ekki er að vanþakka það. Þar verða mikil hey í haust. Eg vona að minsta kosti, að við fáum tólf hundruðin fyrir réttirnar. Það hefir verið mikið gras

hjá mér í sumar. Það hefir ekki óvíða svona hér um bil flekkjað sig á engjunum. En ekki fyrir það —' það hefir ekki verið mikið meira gras en vant er. Það er svo fyrir þakkandi — þær eru ekki vanar að bregðast, engjarnar í Litla-Hvammi. — Eg sé eftir að þurfa að selja kotið.

— Selja? sagði Sveinbjörn, eins og hann stæði á öndinni.

— Já, eg er að hugsa um að selja það. Eg er orðin þreytt og ónýt, og eg er að hugsa um að fara að hvíla mig. Eg býst við að selja það í vetur. Eg á vísan kaupanda.

Sveinbjörn fór að eiga örðugt með að sitja kyr á stólnum.

— Þú lætur vonandi gamlan nágranna þinn og kunningja sitja fyrir kaupunum, sagði hann.

— Já, hvers vegna ættu ekki þínir peningar að vera eins góðir og annarra, Sveinbjörn?

— Hvað hefir þú hugsað þér að fá fyrir jörðina?

Guðríður nefndi fjárhæðina. — Eg vona að þér þyki það ekki of mikið.

— Eg býst við, að það sé sanngjarnt, sagði Sveinbjörn. — Sannleikurinn var sá, að honum þótti það meira en sanngjarnt, — hreint og beint gjafverð.

— Má eg þá reiða mig á það, að þú seljir mér Litla-Hvamm fyrir þetta — nú í haust eða vetur — einhvern tíma fyrir næstu fardaga?

— Eg býst við því. — En þá ætlast eg samt til að ráða gjaforði Solveigar — og að fá fulla trygging fyrir því, að ekki verði gengið að Ólafi, meðan börnin hans eru í ómegð.

Sveinbjörn spratt upp af stólnum.

— Nei, Guðríður mín; við erum góðir vinir þar fyrir utan. Gjarna vildi eg eignast Litla-Hvamm. En hvað sem því líður, hefi eg hugsað mér að ráða því, sem gerist hér á mínu heimili að svo miklu leyti, sem það er á mínu valdi, og eins viðskiftum mínum við menn.

— Vertu nú stiltur, Sveinbjörn, eins og þú ert vanur. Eg skil þig prýðis-vel. Eg efast ekki um, að þú sjáir það ofurvel, að það eru öll líkindi til, að Litli-Hvammur verði þér nota- og happadrýgri en Solveig. Þú veizt það líka mjög vel, að það eru engin neyðarkjör fyrir þig að láta

skuld Ólafs standa — að minsta kosti lofa honum að grynna á henni smámsaman, gera honum einhverja þá kosti, sem ekki setja hann á höfuðið. Það vita bæði guð og menn, að hingað til hefir þú grætt á honum, en ekki tapað, og þú getur vel búið svo um hnútana, að þú eigir ekkert á hættu. En þú vilt ekki láta undan — það er hluturinn. Þetta er eintómur þrái og stórmenska.

— Hvað um það — það situr við það, sem eg er búinn að segja. Ef þú hefðir látið að orðum mínum í vetur, Guðríður, þá hefðir þú nú getað haft atkvæði í viðskiftum okkar Ólafs. Þú ert svo skynsöm kona, að eg vona að þú firtist ekki við það, þó að eg segi, að nú komi þér þau ekkert við.

— En skilurðu það þá ekki, maður, að fleiri geti verið þráir en þú? Þú fær Solveigu aldrei. Þú getur tekið alt af Ólafi — þú fær hana ekki samt. Eg sé um, að Ólafur fari ekki á sveitina. Og svo fær þú ekki Litla-Hvamm, hefir óvirðing af öllu saman og óvingast við son þinn, sem þér þykir þó í raun og veru svo vænt um.

Þetta kom yfir Sveinbjörn eins og helliskúr úr heiðskíru lofti. Þessi leikur á skákborðinu hafði honum aldrei til hugar komið.

Þegar Guðríður kom út frá Sveinbirni, gekk hún rakleiðis til Ólafs og sagði við hann:

— Ríddu nú alt hvað þú kemur bikkjunni, til þess að draga ekki konuna þína lengur á málalokunum. Segðu henni, að Veiga fái að ráða sér sjálf. Við höfum orðið vel ásátt, við Sveinbjörn. Hann gengur ekki að þér með skuldina, og verður vonandi auðveldari í viðskiftum við þig hér eftir en hingað til fyrir mægða sakir. Því að nú skiftir enginn sér af því, sem þeirra fer á milli, Sigurgeirs og Veigu.

Ólafur spurði, hvernig í ósköpunum hún hefði getað fengið þessu framgengt. En hún gaf honum ekkert út á það í það sinn.

— Við erum gamlir nágrannar, við Sveinbjörn, og vön við að koma okkur saman, sagði hún.

Og Ólafur lagði á stað harla glaður. Nú þurfti hann ekki lengur að brjóta heilann um það, hvernig hann ætti að koma orðum að því, að dóttir sín lofaðist af frjálsum vilja.

Solveig fylgdi Guðríði heim á leið. En það varð lítið úr samræðum. Solveig var óumræðilega glöð, eins og nærri má geta, og hugur hennar var fullur af þakklæti við vinkonu sína, enda þótt hún hefði enga hugmynd um, hve mikið Guðríður hafði í raun og veru í sölurnar lagt fyrir hana. En hún var eftir sig eftir allar geðshræringarnar um daginn og átti örðugt með að tala nokkuð til muna — gat sízt af öllu komið orðum að því, sem henni var innanbrjósts, en gat ekki heldur fengið af sér að fara að tala um neitt annað. Og Guðríður var líka óvenjulega orðfá. Við túnfótinn í Litla-Hvammi skildu þær og hvor hélt heim til sín. En Guðríður fór ekki rakleiðis inn í bæinn.

Hún settist niður undir bæjarveggnum og horfði út yfir túnið sitt og engjarnar í mánabjartri kvöldkyrðinni. Sætin stóðu þétt á grundunum, líkust eyjum á firði, og vörpuðu frá sér svörtum skuggum.

Hún var að hugsa um, hvað þetta væri alt fallegt í þessari fölu geisladýrð — hvað það væri fallegt, þegar skuggarnir væru að færast upp eftir því á kvöldin og rauðhvítt sólarljósið ofan eftir því á morgnana — hvað það væri æfinlega yndislegt — hvað hún hefði haft mikla björg af því, og hvað sér hefði í raun og veru alt af liðið hér vel — hvað hún ynni því heitt öllu saman — hvað mikil óþreyja hefði venjulegast í sér verið, þegar hún hefði verið nætur sakir annarstaðar — hvað það væri hart að eiga að skilja við þetta — hvað það væri hart að vita það í höndunum á öðrum. Manninn hennar og drenginn hennar hafði guð tekið frá henni, og nú voru mennirnir að taka Litla-Hvamm frá henni líka. Og hún stundi hátt. Hún fann, að hún elskaði lífið, heiminn, starfið — eins og hver heilbrigð sál gerir — og Litli-Hvammur var hennar heimur og við hann var alt hennar starf bundið, því að hún fann, að á nýju starfi gat hún ekki byrjað.

Lengi, lengi sat hún og hugsaði — hugsaði um Litla-Hvamm — hugsaði um skepnurnar sínar, sem hún yrði nú að selja —

hugsaði um manninn sinn og drenginn sinn — hvar þeir mundu nú vera — hvort ljósið umhverfis þá mundi vera blíðara, ljúfara, dýrlegra en ljósið, sem nú lá yfir-Litla-Hvammi.

Þá fór hún inn í húsið sitt og háttaði — og hugsaði alt það sama upp aftur.

Fám dögum síðar gerðu þau Sveinbjörn og Guðríður kaupmála sinn skriflega. Sveinbjörn vildi helzt binda sem fyrst enda á það mál. Guðríður átti að flytja af jörðinni á næstu fardögum og Sveinbjörn átti að hafa borgað hana áður að fullu. Ólafur var þar viðstaddur og samdi jafnframt við Sveinbjörn um skuld sína, og fór vel á með þeim. Öll töluðu þau um trúlofun þeirra Sigurgeirs og Solveigar sem sjálfsagða.

Svo þegar allir samningar voru um garð gengnir, spurði Ólafur Guðríði, hvað hún hugsaði nú fyrir sér. Hún kvaðst hafa hugsað sér að fara til Vesturheims að sumri.

— Úr því eg fer að breyta til á annað borð, ætla eg að gjöra það svo um muni, sagði hún.

— Við förum líka, sagði Solveig, þegar hún frétti þetta. Ekki látum við hana fara eina eftir alt, sem hún hefir fyrir okkur gert.

Og svo var það tafarlaust afráðið. Sigurgeir tók því með mesta fjöri og ákefð, hugsaði sér að nema land í Vesturheimi, vinna sjálfur baki brotnu og láta þær Solveigu og Guðríði eiga góða og næðisama daga. Hann fór út að Litla-Hvammi svo oft, sem hann kom því við, og gerði sér hið mesta far um að koma Guðríði í skilning um vonir sínar og fyriræltlanir.

Hún tók öllum bollaleggingum hans vel og vingjarnlega og sagðist kunna þeim beztu þakkir fyrir að vilja ekki yfirgefa sig. — Það yrði víst nokkuð einmanalegt fyrir mig að vera þar ein mín liðs, þó að þar sé sagt fjörugt og skemtilegt. — Annars var hún tillögufá.

En það atvikaðist svo, að ekkert varð úr þessu ferðalagi fyrir neinu þeirra. Þegar á leið haustið, leyndi það sér ekki, að Guðríður var að missa heilsuna. Hún var farin að megrast, orðin máttfarin og hafði með öllu mist glaðværð sína. Vinnufólkið hennar skildi ekkert í henni. Hún var

hætt að hafa nokkura verulega umsjón með heimilinu og lokaði sig oftast inn í húsinu sínu. Um jólaleytið hætti hún að klæðast. Solveig vitjaði hennar daglega. Og þá var það einu sinni að Guðríður sagði við hana:

— Eg held ekki, við verðum samferða, Veiga mín. Það liggur víst fyrir mér annað ferðalag. Það er líka sjálfsagt vel farið. Eg er orðin svo gömul og kenjótt, og vestra kvað vera svo ólíkt því, sem hér er. Eg hefði stöðugt orðið þar með ólund og ykkur til ama og ergelsis. — Mig furðar ekki á því, þó að tengdaföður þinn tilvonandi langaði til að eignast Litla-Hvamm. Eg lái honum það ekki. Það er góð jörð — og hér er fallegra en nokkurstaðar annarstaðar. — Eg vona, að það sé einhver Litli-Hvammur á ströndinni fyrir handan.

Á útmánuðunum var hún jörðuð. Solveigu hafði hún arfleitt að eigum sínum.



Hvað eg man vel eftir því, þegar eg lagði upp á fjallið forðum — fjallið uppi yfir prestsetrinu, þar sem faðir minn átti heima. Eg var eitthvað tíu ára gömul þá, og ætlaði mér að sjá útsjónina af fjallsbrúninni.

Hver hjallinn tók við af öðrum, þegar upp í fjallið dró, og alt af sá eg nýja og nýja brún uppi yfir mér. Alt af fanst mér, eg hlyti að vera komin alla leið, þegar eg væri komin upp á næstu brúnina. En alt af kom ný og ný brún — þangað til eg var komin upp á hæsta hjallann. Þá varð fyrir mér þverhnípt klettabelti, og ekki var nokkurt viðlit fyrir mig að komast upp eftir því.

Eg var jafn-nær eftir alt ferðalagið, því að af efsta hjallanum sá eg ekki annað en sama dalinn, sem eg sá á hverjum degi heiman að frá mér.

Nú er eg orðinn gömul kona og á frá-

leitt langt eftir ólifað. Mig langar til að lifa töluvert lengur. En eg veit samt, að það er heimska. Eg er komin upp alla hjallana, upp að klettunum, og hamingjubrúnin er langt, langt fyrir ofan mig. Það fer enginn þann veg á mínum aldri. Og annars minnist eg þess ekki, þegar eg hugsa mig um, að eg hafi séð neinn annan spóka sig þar uppi.

Eg er að vona, að enginn komist í þessi blöð mín. Sú var tíðin, að mig langaði til að skrifa fyrir aðra langar sögur og átakanlegar, um alla þá fegurð, unað og dásemdir, sem eg hélt þá, að flestir menn mundu einhvern tíma eiga að fagna — að minsta kosti eg. Sú löngun er löngu um garð gengin. Eg skrifa fyrir sjálfa mig eina og mér til afþreyingar. Og það því fremur, sem eg veit vel, að þetta, eg ætla að skrifa, yrði mér til lítils — hvað vel sem mér tækist að segja

Eg ætla að skrifa ofurlítinn þátt ferðasögunni, segja sjálfri mér, h mér gekk að komast upp á einn — þann sem örðugastur var uppgöngu hjónabandsástarhjallann. Eg ætla að frá öllu sem sannast og réttast að eg

vit á. Það gerir minst til, þótt alt verði ófágað, þar sem enginn á að sjá það nema eg — eg, sem framar öðrum á hlut að máli, og hefi verið að hugsa um þetta öðru hvoru síðustu 40--50 árin.

Já — það gekk nokkuð örðugt fyrir mér, að láta mér lærast að þykja vænt um manninn minn. En mér lærðist það. Mér þótti vænt um hann. Eg bar lotningu fyrir hans tryggu, staðföstu karlmannslund, hans hreinu, falslausu sál.

Vitaskuld — það var nokkuð lítið um fagnaðarnautn í hjónabandi mínu. Eg þurfti ekki mikla áreynslu til að hafa taumhald á gleðinni. Venjulega fanst mér nokkuð gráleitt og þokukent umhverfis mig — lítið af skærum litum. Vötn lífsins voru sjaldan sérlega fagurblá.

En hvað um það — upp að hömrunum er eg komin.

---

Eg var einbirni og móðurlaus, frá því er eg man eftir mér. Stallsystur átti eg engar, en leikbræður tvo, eftir að eg var farin að stálpast.

Ásgeir var annar þeirra og Þorkell hinn.

Þeir voru synir efnabænda á næstu bæjum við prestsetrið, jafngamlir, þrem árum eldri en eg. Á vetrum voru þeir að jafnaði til náms hjá föður mínum nokkur ár, og frá honum fóru þeir í skóla.

Vinir voru þeir svo miklir, að þeir skildu aldrei ótilneyddir. En ólíkari drengi getur ekki. Ásgeir snarlegur, ráðríkur, sítalandi, drakk alt í sig, sem hann átti að læra, þegar hann nenti því, en fekk svo ekki af sér að líta í bók tímunum saman, örlátur og viðkvæmur Þorkell þunglamalegur, gat lítt komið fyrir sig orði, hlýðinn og undanlátssamur, iðinn, tornæmur og samhaldssamur. Asgeir réð einn öllu, hvað sem þeir áttust við. Vanaviðkvæðið var, að Þorkell elti Ásgeir, eins og lamb móður sína, og — að Asgeir elti mig.

Eg fekk að læra það, sem þessir piltar lærðu, áður en þeir fóru í skóla. Eg vandist á að lesa; hugurinn hneigðist miklu meira að bókum en nauðsynjaverkum. Og eg vandist á að hugsa um það, sem eg sá og las.

En mér hætti langmest við að hugsa um það alt á einn veg. Eg hugsaði um

fífilinn, þegar hann er orðinn að biðukollu; um kvöldroðann, þegar næturslikjan er að færast yfir hann; um Guðrúnu Ósvífursdóttur, þegar hún játaði, að þeim hefði hún verið verst, er hún unni mest; um Hrefnu, þegar Kjartan var látinn; um Helgu fögru með skikkju Gunnlaugs á knjám sér; um ekkjurnar, sem eg sá hvað eftir annað í kirkjugarðinum yfir gröfum manna sinna.

Og á sumrin, þegar Ásgeir var kominn heim úr skólanum, talaði eg við hann um þessar hugsanir tímunum saman. Hann hló að mér stundum, en ekki stóð á svörunum. Stöðugt hélt hann hinni hliðinni uppi fyrir augum mér. Í raun og veru væri miklu meira af fögnuði og unaði í lífinu og sögunum okkar en af þessu, sem eg væri alt af að sjá. Það væri eitthvað sjúkt í þessu. Ekkert væri heilbrigt, nema gleðin og íturhyggjan.

Margsinnis hefi eg séð þetta fullyrt á prenti, ekki sízt á síðustu árum. Eg er ekki fær um að hrekja þá skoðun — ekki færari nú en þegar eg var að skeggræða um þetta við Ásgeir nýfermd. Til þess þekki eg enn mannssálirnar of lítið. En

það veit eg nú, sem eg ekki vissi þá, að gleðin hefir ekki á nokkurn hátt bjargað *mér*. Það er hluttekningin með sorginni, lotningin fyrir henni, skilningurinn á henni, sem hefir forðað mér frá að verða vond kona og hleypt heilbrigði inn í *mitt* líf.

En hvað það var yndislegt að tala um þetta við Ásgeir — og um alt annað, sem okkur bar á góma. Sá fögnuður hefir sjálfsagt mestur verið í lífi mínu. Og hann varð ríkari með hverju árinu. Aldrei fanst mér eg geta af honum séð, frá því er við fyrst kyntumst. Eg veit ekki, hvenær eg fór fyrst að unna honum hugástum sem karlmanni; breytingin var svo hægfara. En það veit eg, að sumarið áður en hann útskrifaðist úr skóla varð mér heitt um hjartaræturnar í hvert sinn, sem hann á mig. Og mér fanst hann líta einh veginn öðru visi á mig en aðrar En ekkert orð fór okkur á milli í þá

Þegar hann var orðinn stúdent eftir og kominn heim, sagði hann mér, hann ætlaði að sigla til háskólans. brá víst, og hann ætlaði eitthvað að segja. En þá kom faðir minn til ar og meira varð ekki úr samtalinu í

sinn. En Asgeir stakk því að mér, um leið og hann kvaddi mig, að hann þyrfti *mikið* við mig að tala.

Skömmu síðar var eg send á næsta bæ, síðdegis, rétt fyrir túnasláttinn. Eg var gangandi, þurfti ekkert að flýta mér, lötraði í hægðum mínum suður grundirnar, teigaði sumarloftið og lét hugann reika víða.

Grösugur hvammur, djúpur, var á leið minni, þegar grundunum slepti, og sást hann ekki af veginum fyr en að honum var komið. Eg settist þar niður í eina brekkuna, naut ilmsins af blóðberginu og horfði á fjöllitu góðviðrisborgirnar á norðvestur-himninum. Þær þokuðust hægt og hægt til í andvaranum, blágrænir gluggarnir stækkuðu og minkuðu og lifrauðar skýjarandirnar urðu að húsaþökum og hallaturnum og fjallatindum.

Mér sýndist þetta vera að fjarlægjast, berast burt frá mér eitthvað út í heiminn — eins og Ásgeir. Hugsana-sambandið var oft svo laust hjá mér á þeim árum, og er það reyndar enn í dag. Það er ótrúlegt, hvernig allir skapaðir hlutir gátu mint mig á Ásgeir þá. En þó mundi lík-

legast hitt þykja ótrúlegra, ef nokkurir fréttu, hvað margt verður til að minna mig á hann enn — jafn-gömul og eg er orðin.

Eg lá þarna í grasinu og hugsaði um hann — hvort hugur hans mundi í raun og veru nokkurn tíma hafa staðið mér nær en þessar skýjaborgir — hvort hann mundi sjálfur líða að fullu og öllu út úr lífi mínu, eins og skýin, sem eg átti aldrei að sjá framar, að minsta kosti ekki í sömu mynd.

Þó varð mér litið yfir í brekkuna hinumegin við hvamminn. Ásgeir var þá að ríða ofan eftir henni.

Hann fór af baki niðri í hvamminum og kom hlaupandi upp eftir til mín. Æskufjörið var auðsætt á hverri hreyfingu á grannvöxnum líkamanum. Þegar hann var kominn til mín, sá eg, að hann var meira en glaðlegur. Það var einhver hróðugur svipur á andlitinu á honum, eins og hann væri ný-búinn að leggja undir sig eitthvað til muna af veröldinni. Hann var víst frá augunum, þessi svipur. Þar var glampi, sem síðan hefir alla mína æfi

komið mér til að hugsa um sigurvegara eftir fólkorustu.

— Komdu sæl, Dísa, sagði hann og kysti mig, eins og þá var siður.

— Hvaða dæmalaust ertu kátur í dag, sagði eg.

— Eg varð svona kátur fyrir fáeinum augnablikum, sagði hann og leit brosandi framan í mig.

Eg fann, að eg roðnaði. Mér datt í hug að eg mundi skilja hann.

— Hvað kætti þig svona mikið? sagði eg samt.

— Að finna þig hérna eina. Eg kveið svo fyrir að þurfa að kveðja þig heima hjá þér — því að eg er á leiðinni til að kveðja — sigli núna í vikunni með skipinu sem fer af Eyrinni. Og svo þarf eg svo mikið við þig að tala. Seztu hérna hjá mér ofurlitla stund.

Við settumst niður í brekkuna.

— Eg veit þér þykir vænt um mig, Dísa, sagði hann.

Það lá við, eg firtist.

— Mér!? sagði eg. Ertu genginn af göflunum? Hvenær hefi eg sagt það?

— Þú hefir aldrei sagt það. En eg veit það — eg veit það — eg veit það. Eg hefi heldur ekki nokkurn tíma sagt, að *mér* þyki vænt um *þig*. Og samt veizt þú *það*.

Já, eg býst við því, að eg hafi vitað það. Og oft hafði eg um það hugsað, hvernig hann mundi segja mér þetta. Eg var svo barnaleg, að eg hafði ímyndað mér, að hann mundi gera það einhvern veginn miklu hátíðlegar. Vonbrigðin og æsingin út af því að hafa þó fengið að heyra þessa játningu -- í fyrsta sinn á æfinni — og svo kvíðinn fyrir að missa Ásgeir út úr landinu — alt þetta ófst saman í huga mínum, og eg fór að gráta.

— Af hverju ertu að gráta, elskan mín? sagði hann og tók utan um mittið á mér.

— Eg veit ekki. Það er ekki nema vitleysa, sagði eg. Mér finst eins og þú tala um þetta með léttúð. Þetta er þó alvarlegt — finst þér ekki? Og svo að vita þig fara svona langt burt og eiga svo ef til vill aldrei að fá að sjá þig aftur.

— Hvernig geturðu talað, góða, bezta? Hvers vegna ættirðu ekki að sjá mig aftur? Hvert ætti eg að fara, þegar eg verð

búinn að taka próf og orðinn sýslumaður, nema til þín? Við hvern ætti eg að tala um alla fegurðina, sem eg hefi þá séð, nema þig? — og um allar bækurnar, sem eg hefi lesið, og alla mennina, sem eg hefi kynst, og um alla þrá mína eftir þér — hverjum skyldi eg eiga að segja frá þessu öllu, nema þèr? Og hvern ætti eg að faðma nema þig? — og hvern ætti eg að kyssa, nema þig? — og hvern ætti eg að elska, nema þig? Þú sér þetta sjálf, Dísa.

Já, eg sá það! Glaðvær ástúðin í orðum hans og málrómi fekk það vald yfir mér, að eg komst í sama skap og hann.

Og svo sátum við þarna í hvammbrekkunni fram á kvöld og töluðum um ókomna tímann — um öll bréfin, sem við mundum skrifa hvort öðru, með hverri einustu ferð sem félli — um fögnuðinn við að finnast aftur — um alla okkar lifnaðarháttu, þegar við værum orðin hjón. Vonirnar tóku hugi okkar upp á sína sterku vængi, báru þá lengra og lengra og vögguðu þeim í skínandi lofti ímyndananna.

Svona sátum við langt fram á kvöld. Þá rankaði eg loksins við mér.

— Það verður farið að undrast um mig heima, ef eg fer nú ekki að flýta mér, sagði eg. Vertu nú blessaður og sæll.

— Nei — nei — *komdu* nú sæl, Dísa, sagði hann. Nú fyrst erum við að finnast í lífinu. Komdu nú blessuð og sæl.

Og hann kysti mig — marga, marga kossa — hálf-hlæjandi með fagnaðarsvipinn óumræðilega í augunum. En milli kossanna bað eg hann að skrifa mér — og gleyma mér ekki — og hugsa um mig — og elska mig alstaðar og æfinlega — og — eg man ekki hvað.

Haustið kom og skipin á Eyrina. En það kom ekkert bréf til mín. Póstgöngur voru þá engar. En veturinn kom og nýtt vor kom með ný skip. En ekkert þeirra hafði neitt mér að færa.

Guð minn góður! Enn í dag get eg varla ógrátandi um það hugsað — að bíða svona og bíða og vona svona og vona — og alt af skuli vonin reynast tál! Að fara að vita, að vonin er ekki annað en tál, og vona samt — vona í vitleysu, af einberri þrá, friðlausri löngun!

Við höfðum komið okkur saman um, að segja engum neitt frá fundi okkar, fyr en hann væri kominn aftur til landsins. Mér veitti hægt að efna það loforð, því að eg var ekki í þeirri vináttu við nokkura manneskju, að eg segði henni leyndarmál mín. En í fyrstu langaði mig til að mega segja þetta einhverjum. Svo tók með öllu fyrir þá löngun, þegar vonbrigðin komu til sögunnar. Frá hverju hafði eg svo sem að segja? Að eg hefði látið telja mér trú um, að piltur mundi halda áfram að hugsa um mig öllum öðrum fremur, eftir að hann hefði kynst fríðum og mentuðum og gáfuðum stúlkum í höfuðstað ríkisins!

Eg fann vel, að þetta hafði verið barnaskapur. En það var ekkert léttara né ljúfara fyrir það. Og svo hugsaði eg um Ásgeir og stúlkurnar í Kaupmannahöfn á daginn, og grét út af þeim á kveldin í rúmi mínu, en á nóttunum dreymdi mig þau.

Faðir minn tók eftir því, að eg var að verða grá og gugginn, lét mig drekka miklu meira af mjólk en eg hafði lyst á, og leitaði annara ráða. Eg hlýddi öllu — og hugsaði og grét og þráði og fyrirvarð

mig. Veturinn varð mér langur og dapurlegur.

Með vorinu bárust fréttir af Ásgeir: að hann stundaði ekki nám sitt, en hefði leiðst út á siðferðislega villustigu. Þær fréttir bárust svo ár frá ári. Og eg hélt áfram að hugsa um hann. En í hugsununum voru ekki lengur gaddar afbrýðiseminnar heldur hitaverkur meðaumkunarinnar.

Sex ár voru liðin, síðan er við Ásgeir höfðum fundist í hvamminum. Ekkert bréf hafði komið og enginn vonarneisti var lengur lifandi í brjósti mínu. Söknuðurinn olli ekki lengur neinni þjáningu. Eg hélt, hann mundi vera gersamlega undir lok liðinn. En eftir á finst mér eins og eg hafi þó alt af haft eitthvert veður af honum innan við flestallar hugrenningar mínar. Að minsta kosti var eins og næmasta tilfinningin fyrir fegurð og ánægju lífsins fyrir utan mig væri horfin. Alt var orðið daufara og daprara en það hafði áður verið. Eg hélt, það kæmi til af því, hvað eg var farin að eldast. Mennirnir

voru orðnir heimskir, ljótir og leiðinlegir. Og sá innilegi unaður, sem eg hafði haft af skynlausri náttúrunni, lifandi og líflausri, var horfinn. Það lá jafnvel við, að mér væri hætt að þykja nokkuð vænt um hestana.

En hvað sem söknuðinum líður, þá var þessi breyting skiljanleg af því einu, hvernig lífi mínu var að öðru leyti háttað. Faðir minn lét mig leika lausum hala. Það var víst sönn þjáning fyrir hann að halda nokkuru því að mér, sem hann fann að mér var ógeðfelt. Og eg forðaðist alla vinnu, að svo miklu leyti, sem mér var með nokkuru móti unt. Og svo mikið hefi eg lært af mínu langa lífi, að eg veit það nú, að gróður hjartans skrælnar aldrei eins og í ábyrgðar- og iðjuleysinu, að það er ekkert, sem eins vel lýkur upp frjóvunarlindunum eins og viðleitnin við að gera skyldu sína.

Líf mitt snerist alt inn á við — varð að verkalausri trú, kærleikslausu tilfinningafálmi, óljósum draumum, sem vantaði allan veruleik, löngun eftir einhverju óvæntu, óvenjulegu, óhugsanlegu.

Þorkell hafði hætt við skólanám á miðri leið. Hugur hans hafði hneigst æ meira og meira frá bókum, meira og meira að búskapnum. Hann var nú orðinn myndarmaður, hár og þrekinn og að öllu hinn karlmannlegasti. Faðir hans var nú nýlátinn og hann hafði erft miklar eignir. Búhöldur var hann ágætur og vinnugarpur hinn mesti. Eg gat aldrei varist þeirri hugsun, þegar eg leit á skeggkragann, sem hann hafði á kinnum og höku, eins og bændum var títt á þeirri tíð, að honum færi bezt að hafa dálítið af heyi í skegginu. Einkennilega óframfærinn var hann í látbragði. Það var til muna hik á honum í hvert skifti, sem hann tók kaffibolla af bakkanum hjá okkur á sunnudögum. Hann settist æfinlega fyrir aftan aðra, ef hann kom því við, og mér fanst hann hafa sterka löngun til að fara út í vegginn. Aldrei opnaði hann neina hurð fullu, heldur ýtti sér á hlið inn um svo gætt, sem hann gat. Allra manna hann orðfæstur, en viðmótið góðmann- Mentamaður var hann vitanlega En orð lék á því, að hann væri og drenglyndur.

Mig var farið að gruna, að hann mundi bera nokkuð öðru vísi hug til mín en annara kvenna. Ekki af því, að hann skifti sér meira af mér en öðrum. Síður en svo. En þegar hann leit gráum, góðmannlegum augunum á mig, þá var hiti í þeim, enda þótt þau væru annars nokkuð dauflég. Og svo var faðir minn farinn að ympra á því síðustu vikurnar, að þar mundi vera mannsefni handa mér á boðstólum. En það vissi eg, að hefði Þorkell nokkurn að trúnaðarmanni, þá var það faðir minn.

Fyrir því kom mér það ekki með öllu óvænt, þegar faðir minn kallaði mig á eintal fram í stofu einu sinni um haustið og bar þar upp við mig bónorð fyrir hönd Þorkels.

— Hvers vegna nefnir hann það ekki við mig sjálfur? varð mér fyrst að orði, og eg veit, það muni hafa verið lítilsvirðingar-keimur í málrómnum.

— Eg býst við, sagði faðir minn stillilega, það sé af því, að hann er mér kunnugri en þér, þó að aldursmunurinn á okkur sé meiri. Hann hændist að mér ungur, og það hefur haldist fram á þennan dag.

— Mér þykir ekkert vænt um hann, pabbi, sagði eg.

— Eg skil það, sagði hann. En eg veit líka, að það er meðfram af því, að þú þekkir hann ekki. Betri og vandaðri mann gætirðu ekki fengið.

Eg svaraði engu og faðir minn þagði dálitla stund. Þá hélt hann áfram:

— Eg hefi ekki þjáð þig mikið með giftingatali, Dísa. En oft hefi eg um það hugsað, hvað um þig mundi verða, þegar eg er fallinn frá. — — Eg veit, hvað þú ætlar að segja — þú hefur einhvern tíma látið þér það um munn fara áður við mig — að eg kenni það sjálfur, að óhætt sé að varpa allri sinni áhyggju upp á drottinn. Auðvitað hjálpar hann líka. En hjálp hans verður nokkuð óaðgengileg þeim, sem ekki hjálpa sér sjálfir.

— Og svo finst þér eg eigi að hjálpa sjálfri mér með því, að giftast Þorkeli — láta hann sjá fyrir mér?

Eg sá eftir þessu um leið og eg slepti orðinu. Eg fann, að þetta var hártogun og hann leit á mig svo raunalega.

— Ekki hefi eg sagt það, Dísa, sagði hann. En víst er um það, að þú átt að

hjálpa þér sjálf. Þú átt að hjálpa þér sjálf með því að læra að láta þér þykja vænt um einhvern. Trúðu mér — það verður bezta hjálpin. Hugsaðu þig nú um — stendurðu vel að vígi í því efni, þegar guð verður búinn að taka mig frá þér?

Eg þagði.

— Eins og þú getur nærri, ætla eg ekki að leggja fast að þér, Dísa mín, sagði faðir minn enn fremur. Þú átt mest á hættunni, og þú ert komin á þann aldur, að þú átt að ráða þér sjálf. Að fyrra bragði mun eg aldrei oftar á þetta minnast. En hugsaðu um það. Og minstu þess þá jafnframt, að elskan er ekki eingöngu fólgin í því, sem venjulega er kallað ástarhugur, heldur líka í góðvild, samhyggju, virðing og sjálfsafneitun. Hún er sjaldnast algjör hjá okkur mönnunum. En þá verðum við að bjargast eins og bezt lætur.

Hvers vegna lét eg undan. Var það fyrir alvöruorð föður míns, þótt fá væru? Var það af tilfinningunni fyrir því, að líf mitt væri nokkuð stefnulítið í höndum sjálfrar mín, og að óhultast mundi að láta föður minn standa við stýrið, meðan þess yrði auðið? Eða var það deyfð iðjuleys-

isins og ábyrgðarleysisins, sem fengið hafði það vald yfir mér, að eg sætti mig við að láta berast með straumnum? Eg veit ekki. Alt kann þetta að hafa átt nokkurn þátt í því.

---

Hvers vegna ætti eg að vera að rifja vandlega upp fyrir sjálfri mér fyrsta hjónabandsárið okkar, ófrjóasta og óvirðulegasta partinn af öllu mínu lífi?

Hvers vegna ætti eg að vera að hafa fyrir því að sanna sjálfri mér nú, hvernig hann reyndi að vaka yfir sérhverri ósk minni — hvernig eg sumpart sá það fyrst eftir á, sumpart þá viðleitni hans við að vera mér til geðs eins og sjálfskyldu, sumpart amaðist við henni — hvernig eg mátti í öðru veifinu ekki til þess hugsa, að nokkur yrði annars var en að mér þætti sæmilega vænt um manninn minn, og lét mér í hinu veifinu gremjast það, að eiga þann einfeldning að eiginmanni, sem ekki gat séð annað eins og það, að mér lá við að fyrirlíta hann?

Hvers vegna ætti eg að kvelja sjálfa mig með því að segja sjálfri mér einni

nákvæmlega frá því, hve kalt, neyðarlega þjáningarlítið vonleysið var — hvernig mig skorti í raun og veru alla löngun til að gera skyldu mína — hvernig eg reyndi að telja sjálfri mér trú um, að líf allra manna væri að sjálfsögðu ljótt, ástríðusnautt, kærleikslaust, hálfvolg, bragðlaus kássa?

Hvers vegna vera að láta hugann reika í ísgrárri, ömurlegri þokunni?

Það hvesti áður en mig varði og þá sveiflaðist þokan burt! — — —

Mér stendur fyrir minni dagurinn, sem Þorkell kom heim úr kaupstaðnum í sumarkauptíðinni, árinu eftir að við giftumst.

Eg minnist þess ekki, að hafa séð hann áður með jafn-glöðu bragði. Enda hafði hann tíðindi að segja.

Ásgeir var kominn til landsins. Þeir höfðu fundist í kaupstaðnum. Hann var meira að segja orðinn sýslumaður okkar.

Það hafði orðið fagnafundur með þeim, og um kveldið höfðu þeir sezt saman að drykkju inni hjá verzlunarstjóranum. Ásgeir hafði sagt honum talsvert af veru

sinni í Kaupmannahöfn — hvernig hann hefði lent í óreglu, þegar eftir að hann var þangað kominn, en svo farið að sjá, að nú var annaðhvort að duga eða drepast; annaðhvort varð hann nú að fara að herða sig við námið eða sjá fram á að fara algerlega í hundana. Og svo hafði hann náð prófi og fengið sýsluna tafarlaust, að því loknu.

Þá spurði maðurinn minn, hvar hann ætlaði að setjast að. Ásgeir sagðist ekki hafa ráðið það við sig, því að hann væri nýkominn, kvaðst helzt búast við að komast í hálfgerð vandræði, því að húsakynni væru víðast hvar lítil. Að vori vildi hann helzt fara að búa, en auðvitað gæti það ekki orðið þetta árið.

Eg spurði, hvort hann væri ekki kvæntur.

Það sjá allir, hvað mikið mér kom við, eða hitt þó heldur. Samt þorði ekki að líta framan í manninn minn, an eg var að spyrja hann að þessu. eg var á nálum um, að hann mundi einhverja breytingu á röddinni.

Nei, hann var ókvæntur, ekki einu trúlofaður, eftir því sem hann hafði

Maðurinn minn hafði þá boðið honum að vera hjá okkur til næsta vors.

Mér fór að verða órótt í meira lagi.

— Hvernig gat þér dottið annað eins í hug? sagði eg.

— Það er nú svona, eins og þú veizt, að við erum æskuvinir, sveitungar og skólabræður. Og hér eru meiri húsakynni en á nokkurum öðrum bæ í sýslunni. Og svo hélt eg, sannast að segja, að það kynni að geta orðið þér til skemtunar, heldur en hitt. Mér hefir stundum fundist, að ekki mundi vera trútt um að þér leiddist.

— Hvað sagði hann? Þá hann það?

— Hann vísaði málinu til þín. Var ófáanlegur til að ráða nokkuð af að fullu, fyr en hann vissi, hvernig þú tækir í það. Mér heyrðist, hann ganga að því næstum því vísu, að þú mundir ekki vilja sig á heimilið. Það lá við, að mér heyrðist hann ímynda sér, að það mundi vera einhver gamall urgur í þér við hann. Líklegast hefir hann verið tregur á að auka þér annríki og fyrirhöfn. En einhverstaðar verður hann að vera, maðurinn.

Þá þögðum við nokkura stund. Eg var svo utan við mig, að eg gat um ekkert hugsað — hvorki um þetta né annað.

— Er þér nokkuð á móti að hann komi? sagði hann þá. Þú hugsar um það til morgundagsins. Þá fellur ferð út í kaupstaðinn, og eg hefi lofað að láta hann vita annaðhvort sem fyrst.

Eg veit vel nú, hverju eg hefði *átt* að svara. Auðvitað hefði eg átt að þvertaka fyrir það, að hann stigi sínum fæti inn fyrir þröskuldinn á mínu heimili. Það hefði eg líka gert, ef eg hefði ekki fengið frestinn til morguns. Eg var í fyrstu staðráðin í að gera það.

En eg gerði það ekki. Eg fór að hugsa mig um — hugsaði um það allan daginn og mestalla nóttina. Nú veit eg vel, hvað það var, sem reið af baggamuninn. En eg gerði mér ekki grein fyrir því þá, forðaðist eins og heitan eldinn að kannast við það fyrir sjálfri mér.

Eg taldi mér trú um, að ef eg kynni manninn minn að fara að hvað milli okkar Ásgeirs hefði farið. inlega hafði mér verið það meira en geðfeld tilhugsun. Nú fanst mér það

áfram óbærilegt, þegar Ásgeir var kominn í nágrennið.

Einkum hélt eg þó, að sú ánægja mundi fyrir mér vaka, að geta fært Ásgeiri áþreifanlega heim sanninn um það, að eg sæi ekki lifandi vitund eftir honum — að láta hann sjá það dags-daglega, að eg hefði svo afdráttarlaust rifið hann út úr huga mínum og hjarta, að eg virti hann ekki einu sinni þess að láta mér vera neitt í nöp við hann.

Hinu leyndi eg sjálfa mig þá, sem eg veit svo vel nú, að í hugskoti mínu lá enn í felum þráin eftir að mega vera nálægt honum, þrátt fyrir alt og alt. Og það var *hún*, sem varð skynseminni — mér er líklegast óhætt að segja samvizkunni — yfirsterkari.

Svo morguninn eftir sagði eg manninum mínum, að mér væri sama, þó að sýslumaðurinn flytti sig til okkar.

Viku síðar var von á honum, að kveldi dags. Þorkell hafði farið að sækja hann. Eg var friðlaus af umhugsun, tilhlökkun, kvíða.

Að hugsa sér að eiga
að sjá hann aftur! — e
ekki eftir nokkur ár, he
Og nú skyldi mér mi
á móti honum! Eg sky
upp nokkuru orði — —
Guð minn góður — –
ar skyldi bera svona sa
— og ekkert annað í au
annar kvenmaður!
En hvað vissi eg ann
efinn og iðrunin ófust sa
góður — ef Ásgeir —
ekki að hugsa um það
miðju kafi, byrjaði anna
stöðugt aftur að sömu hu
það ekki, hvort eg var
augum hans en hver an
Eg reyndi að forðast
um hann og um manninn
mig. En það tókst ekki
anirnar æfinlega áleitnar
hefi lagt kapp á að bæg
Eg sá til þeirra, þegar
rétt að túninu, og l
vildi eg verða á
yr en í síðustu lög. M

það, sem gerðist í morgun, heldur en það sem gerðist þann dag. Samt gæti eg ekki fullyrt nú, hvort eg vildi þá alt til vinna að sjá hann aldrei, eða eg vildi ekki af því missa að finna hann fyrir öll þau gæði, sem eg hafði hugmynd um.

Eitt var samt víst: hann var að koma, og nú reið á, að láta ekki á neinu bera. Eg fór inn í baðstofu og leit þar í spegil. Áður hafði eg haft fataskifti.

Þorkell kom inn að sækja mig, þegar hann hafði vísað Ásgeiri til stofu, og eg fór fram með honum. Hann gekk inn í stofuna á undan mér, fór inn fyrir Ásgeir og stóð að baki hans, meðan við heilsuðumst.

— Komdu sæll, Ásgeir, og velkominn! sagði eg og rétti honum höndina.

Hann leit framan í mig um leið og hann tók kveðju minni — einhvern veginn svo óumræðilega raunalega, að mér fanst. Eg hélzt ekki við í stofunni lengur.

— Þið eruð víst svangir. Nú kem eg strax með matinn, sagði eg, fór út og inn í búr.

En það dróst fyrir mér að koma matnum fram. Eg lokaði að mér búrinu, svo

enginn komst inn, og settist á bekk, þar var.

Mjúkt handtakið, falleg, útlend fötir beinn, liðlegur vöxturinn, hárið, sem hafði til muna síðan fyrir sjö árum, legur svipurinn — og framar öllu augnaráðið raunalega — alt hafði læst sig inn í sál mína þessi örfáu blik, sem eg stóð við í stofunni.

Og svo Þorkell fyrir aftan hann, legur, áhyggjulaus, heimskulega, ánægður! Mér fanst hann líkastur — meinlausum, tryggum hundi. Á augnabliki bað eg guð að fyrirgefa þessa hugsun. En eg gat samt ekki ist henni.

Eg veit ekki, hve lengi eg sat þarna bekknum og grét, grét beisklega. Þo fanst eg vera furðu lengi að sækja inn.

Þegar þeir voru búnir að borða og var að taka af borðinu, bauð Þorl toddý. — Þú situr hjá okkur, elskan mín hann við mig. Eg er viss um, þykir gaman að rifja strax við þig.

Mér hafði létt svo, að eg fann, að eg mundi ekki fara að gráta aftur. Og það var eins og eg gæti ekki til þess hugsað að vera annarstaðar en þarna í stofunni fram eftir kvöldinu.

En — guð minn góður — hvað það var mikið kvalræði!

Ásgeir gerði sér alt far um að leika á als oddi. En það var eins og eg væri alt af hrædd við það, sem hann mundi segja; mér fanst hann stöðugt vera að stikla á kviksyndi.

Hann spurði um búskapinn — hvernig við kynnum við hann og hvernig hann gengi.

Þorkell lét hið bezta yfir því, taldi fram eins og til tíundar sauðféð, kýrnar og hrossin. Eg þagði. Einu sinni, meðan hann lét dæluna ganga, leit Ásgeir á mig. Eg held, eg hafi fremur fundið það en séð. En eg fann jafnframt eða sá, hvort sem það nú heldur var, að þreytusvipurinn á honum hvarf snöggvast og glampanum í augunum brá fyrir eins og eldingu.

Þá var því lokið, sem Þorkell lagði til samræðunnar. Ásgeir sveigði talið að öðru svo fljótt, sem hann gat. Fyrst mintist

hann á bækur, sem við höfðum lesið saman. Hvort eg hefði lesið þær aftur nýlega? — Nei. — Hvort eg hefði náð í nokkurar nýjar bækur síðustu árin? — Nei. — Þá fór hann að tala um hina og aðra leika, sem við höfðum átt saman, og staðina, sem okkur höfðu þótt fallegastir. Svo nærri mér gekk hann, að hann sagðist engan stað hafa séð jafn yndislegan eins og brekkuna í hvamminum.

Eg svaraði fáu nema einsatkvæðisorðum. Hvert orð hans fanst mér líkast nálstungu.

Þorkell varð einskis var. Hann sat þarna með ánægjubros á vörunum og — tómt höfuðið, að mér fanst, sagði svo sem ekkert, kinkaði að eins kolli, samsinti í sífellu. Mér datt í hug, að eg vildi alt til vinna, að á einhverri sjálfstæðri hugsun bólaði hjá honum, helzt einhverri mótspyrnu gegn þessum viðsjála vini hans. Hjá manninum mínum átti eg að leita trausta og halds, ef það var nokkurstaðar að finna í veröldinni. Og svo var þar ekkert annað að fá en aulalega góðgirni og skilningslausa uppgjöf.

Og andstygðar-hugsunin fór aftur að ásækja mig — sú, að Þorkell væri eins og

hundur Ásgeirs — og að eg væri hundinum gefin.

Eg bauð þeim góða nótt og fór að hátta. En svefnsamt varð mér ekki. Eg var að hugsa um ófærurnar, sem eg hafði flanað út í — —

Og þegar maðurinn minn kom til mín í rúmið síðar um kvöldið og tók handleggnum utan um mig, fór ískaldur hrollur um mig. Eg lézt sofa.

Fram undir morgun hugsaði eg í sífellu. Og niðurstaðan varð sú, að heyja baráttu mína ein, láta ekki á neinu bera, en varast að gefa Ásgeiri nokkurt færi á að tala við mig í einrúmi. Eg reyndi að setja mér fyrir sjónir, hve vænan mann eg ætti, og vonaði að valmenska hans yrði mér að brynju gegn freistingunni.

Sumarið út gekk alt slysalaust. Maðurinn minn grunaði ekkert. Svo mátti kalla, sem hann væri mér betri og betri með hverjum deginum, og eg reyndi, það sem eg gat, að muna alt af eftir því, hvernig eg átti að vera. En örðugt veitti það — drottinn minn góður, hvað það var örðugt! Mér fanst kaldur vindur næða um mig nakta í hvert skifti, sem hann ætlaði

að láta eitthvað öðru vísi að mér en vandalausum manneskjum.

Alt af hafði eg veður af því, að Ásgeir væri að sitja um að segja eitthvað við mig í einrúmi, þó að hann færi hægt. En eg varðist.

Þangað til einn dag um haustið, í fyrstu snjóum. Maðurinn minn var eitthvað úti við. Óskiljanlegt ógætni- og léttúðarkast kom að mér, og eg fór ein fram í stofuna til hans.

Hann var að skrifa, þegar eg kom inn, en stóð þegar upp. Það var eins og hann væri viðbúinn að nota hvert færi, sem gæfist, og hann tók tafarlaust til máls:

— Mig hefir lengi langað til að tala við þig, Þórdís — alt af síðan eg kom hingað. Eg hefi einhvern veginn aldrei átt kost á því. Nú lofarðu mér að segja við þig fáein orð?

Já, eg hafði farið nærri um það. En að lofa honum að segja það! Það gat þó aldrei sakað mikið að fá að heyra, hvað hann bar fyrir brjósti.

— Þú verður þá að hafa hraðan á að segja mér þetta, sagði eg hlæjandi. Því að eg hefi mörgu að sinna og er í annríki.

— Eg ætlaði bara að þakka þér, sagði hann og hikaði við.

— Þakka mér fyrir hvað?

— Nei, ekki *bara* þakka þér — líka biðja þig fyrirgefningar. — Það var ósvífni af mér að þiggja boð ykkar um að fara hingað — eg skil það nú eftir á. Því meira finn eg til þess, hvernig viðtökur þínar hafa verið — að þú skulir hafa tekið mér eins og bróður — sem þér væri yndi að sjá aftur.

Það lá við, eg þyktist við þetta þakklæti. Mér hafði þá algerlega mistekist. Eg hafði ætlað að kvelja hann með viðtökunum. Og honum fanst þær vera svona dæmalaust þakklætisverðar!

— Hvernig hafðirðu svo sem ímyndað þér, að eg mundi taka á móti þér? Ef til vill eins og — eins og — gömlum unnusta, sem eg gæti ekki með nokkuru móti orðið afhuga? Ónei! Það geta fleiri gleymt en þið, karlmennirnir. Og þið megið vera yndislegri en alment gerist, ef við eigum að ganga harmandi og sýtandi út af ykkur alla okkar æfi.

Þessi barnalegu vanstillingarorð ætlaði eg að segja blátt áfram og brosandi, eins

og mér væri ekkert annað en gletni í hug. En það var víst óstyrkur í röddinni. Og eg sá samstundis eftir því að hafa sagt þetta.

Hann leit á mig um leið og eg slepti orðinu. Eftir á fann eg, að á því augnabliki var ekki þunglyndi í augunum, heldur sami glampinn, sem þar hafði verið daginn, sem við hittumst í hvamminum.

— Nei, eg bjóst ekki við, að þú mundir hugsa til mín öðru vísi en eg á skilið, sagði hann. Eg er ekkert barn. Og eg er ekki heldur svo vondur maður, að eg gleðjist ekki af því, að þú hefir eignast vænan mann, sem — sem þér þykir vænt um. — Eg veit ekki, hvað eg hefi ímyndað mér, Þórdís. Og eg veit það þó. Eg ímyndaði mér þig yndislega. Og þegar til kom, varstu enn yndislegri en eg hafði ímyndað mér.

Að eg skyldi ekki slíta talinu, þegar þangað var komið. Að eg skyldi láta teygjast út á syngjandi hálkuna, þvert ofan í öll mín áform! Hvað mér mundi verða láð það, ef einhver kæmist í þessi blöð mín. Hvað eg mundi lá það sjálf, ef einhver önnur ætti í hlut.

— Svo þú ímyndaðir þér mig svona einstaklega yndislega? Hvenær? Var það í Höfn, sem þú ímyndaðir þér það?

Aldrei hefi eg séð fljótari breyting verða á nokkurum fullorðnum manni. Sigurglampinn var horfinn. Í stað hans var komin klökk alvara í augun og röddina.

— Já, — já! sagði hann. Æfinlega og alstaðar. Alt ilt hefirðu ástæðu til að hugsa um mig. Líka þetta, því miður. En það er samt ekki rétt til getið. Ekkert augnablik lífs míns hefi eg hætt að elska þig, Þórdís. Ekkert augnablik hefir mér blandast hugur um, að þú værir það yndislegasta, sem eg hefi augum litið.

Hvers vegna sat eg þarna, gift konan, og hlustaði á þetta? Vegna hvers drekkur dauðþyrstur maður óhollan svaladrykk? Af því að hann er dauðþyrstur. Eg hefi síðan skilið á minn hátt það, sem Bjarni Thorarensen segir:

„Glaður drekk eg dauða úr rós
á vörum þín,
því skálin er svo skær“.

— Hvers vegna skrifaðirðu mér aldrei, Ásgeir? sagði eg.

— Já, hvers vegna skrifaði eg ekki? — hvers vegna skrifaði eg ekki? Hvers vegna renna sumir lækir um grænar engjar, aðrir um gróðurlausa sanda? Hvers vegna eru sumir steinar demantar, en aðrir hrafntinna? Hvers vegna eru sumar verur englar og aðrir djöflar? Hvers vegna eru sumir gæfumenn og aðrir ólánsmenn?

— Hver er sinnar lukku smiður, Ásgeir.

— Já — já. Hver er sinnar lukku smiður. En hvers vegna smíða ekki allir jafn-vel? Af því að þeir eru ekki allir jafn-góðir smiðir. Af því að sumir eru fæddir hetjur en aðrir gungur. Af því að sumir eru fæddir til að hugsa og aðrir til að starfa, og enn aðrir til hvorugs. Af því að sumir eru fæddir með ís í hjartanu og aðrir með eld, og enn aðrir hálfvolgir. Af því að sumir eru sterkir og aðrir veikir. Af því lífið verður sumum að leiðarstjörnu, öðrum að mýrarljósi. Af því að sumir eru fæddir til sigurs, aðrir til ósigurs. Af því að sumir eru gæfumenn og aðrir ólánsmenn.

— Eg skil ekki, hvert þú ert að fara, Ásgeir. Mér finst óhugsandi, að þú hefðir

aldrei getað skrifað mér línu, ef þú hefðir viljað. Og eg þráði það svo mikið.

— Mér finst það líka. Eg hefi ekkert mér til afsökunar. Eg veit ekkert, hvernig eg á að gera það skiljanlegt — ekki einu sinni sjálfum mér — nema með þessu, að eg var veikur og glaumurinn var sterkur — að þráin eftir nautnum lífsins var sterkari en skynsemin og samvizkan — að nautnirnar voru illar tálnautnir — að hafgúusöngurinn töfraði. Ný nautn, nýjar syndir, nýjar hugsanir, nýtt líf — — alt var bjart, skínandi, lokkandi. Það var eins og marahláka í sál minni — eins og fossandi leysing í fjallshlíð. Og það losnaði um alt — alt, sem hafði bundið æskulíf mitt saman. Þú veizt það ekki — enginn veit það að óreyndu —, hvað það er fyrir staðfestulítinn ungling, að sviftast svo að segja á einu vetfangi úr fámenninu í sollinn, úr kotungskapnum í dýrð menningarinnar, úr ófrelsinu í frelsið, að finna lífsgleðina stæla vöðvana og æsa ímyndanirnar, að sjá lífið í geislaflóði æskusólarinnar — og lenda í höndunum á afvegaleiddum æskumönnum. Enginn veit, nema sá, sem reynt hefir, hvað það er

að ætla sér að faðma gyðju frelsisins, en lenda í höndunum á flagðkonu og hafa ekki mátt til að rífa sig burt frá henni. Enginn veit, hvað það er að vera í álögum, nema sá, sem hefir reynt það. Það er andstygð, finst mér, að hugsa um þetta eftir á Og það væri óhæfa, að vera að skýra þér frá því nákvæmar. En dæmdu ekki hart um mig, Þórdís — dæmdu ekki — dæmdu ekki. En fyrirgefðu.

Eg að dæma hann! Var eg ekki sjálf í álögum, sem engum varð um kent nema sjálfri mér? Og voru ekki mín álög því óttalegri og óafsakanlegri, sem maðurinn minn var meira valmenni? Þessu brá fyrir í huga mínum eins og eldingu, sem sýnir hyldýpi fyrir fótum manns.

— Eg dæmi engan — allra-sízt þig, sagði eg. En hvers vegna skrifaðirðu ekki? Gleymdirðu mér? Og fór þér að þykja vænt um aðrar konur?

— Nei — nei — nei! Það sáir enginn í ofsaveðri. Ný ást festir ekki rætur í sollinum. En um þig hugsaði eg — þrátt fyrir alt og alt — dag og nótt. Oft og mörgum sinnum ætlaði eg að skrifa þér. En mér fanst aldrei eg geta það. Í því

ástandi, sem eg var í, fanst mér það nokkuð líkt því að taka á snjóhvítu silki með pottahrím á höndunum eða syngja hjartnæman sálm blindfullur inni í svívirðilegum drykkjuskálum.

Enn í dag skal eg láta það ósagt, að hve miklu leyti þetta var satt eða augnabliks ímyndun hans. En ekkert augnablik hefi eg trúað því, að hann hafi þá vísvitandi sagt mér ósatt. Víst er um það, að þá trúði eg afdráttarlaust. Og það var eins og hver hugsunar- og tilfinningarfrjóangi sálar minnar yrði þungur af dögg meðaumkunarinnar.

— Hvernig losnaðirðu úr þessum ósköpum? spurði eg.

— Eg veit ekki öllu meira um það en hitt, hvernig eg komst í þau. Það veit eg þó, að lausnina átti eg að þakka þér — endurminningunni um þig. Eina nótt varð hún ríkari en nokkuru sinni áður. Henni fylgdi andstygð á því lífi, sem eg hafði lifað. Eg fann, að eg var annaðhvort að verða að engu eða þá að einhverju illu. Og eg varð hræddur, hræddur við ljósið, hræddur við myrkrið, hræddur við sjálfan mig, hræddur við alt lífið. Vísa, sem eg

hafði lært, þegar eg var lítill, hékk óaflátanlega í huga mínum nokkura daga:

Um ljómandi dýrð þótt eg leggi minn stig,
er líkt og eg özlaði um flóa.
Hvort læðist nú ólánið umhverfis mig,
sem allslaus og hungruð tóa?

Mér fanst eg vera eins og varnarlaus sauðkind og óláns-tóan vera á vakki kringum mig.

Á þessu gekk nokkura daga. Mig langaði eitthvað burt — eitthvað langt, langt burt — út í einhvern afkyma veraldarinnar — eins og eg hugsaði mér að fela mig þar fyrir óláninu. Stundum datt mér í hug að fara rakleiðis heim til Íslands. En eg hafði ekki þrek til að láta nokkurn mann hér á landi sjá mig. Að lokum réð eg af að taka í mig dáð og dug, lúka námi, eða réttara sagt fara að byrja á því. Og það tókst, þó að örðugt veitti í fyrstu. — Hvað míg langaði innilega til að mega skrifa þér, þegar eg var farinn að ná mér aftur. En eg fann, að það hefði verið ósvífni, eftir það sem á undan var gengið. Í stað þess vann eg — vann mér þekkingu, vann mér sálarstyrk og jafnvægi, og þó að ótrúlegt sé, þá vann eg mér nýja

von — von um þig — eg hefi aldrei vonað neitt annað en um þig. Var það ekki frámunaleg heimska, Þórdís, að vona eftir þetta alt? Jú, auðvitað, enda er nú sjón sögu ríkari. En eg gerði það samt. Eg hlúði að nýju voninni eins og móðir að nýfæddu barni sínu. Eg veit þú firtist ekki við það, því að enginn lifandi maður hefir orðið þess áskynja fyr en þú nú.

Mér er ókunnugt um, hvernig aðrar konur elska. Eg er líka með öllu ófróð um það, hvernig við *eigum* að elska eftir réttum reglum. En hitt veit eg, að á því augnabliki fanst mér sem jafnvel algóður guð gæti ekki fyrirgefið mèr aðra eins synd og þá, að bíða ekki eftir honum — og það þó að eg hefði átt að bíða eftir honum til eilífðar.

Við þögðum bæði dálitla stund. Eg þorði ekki að líta upp. En eg fann, að hann hafði ekki augun af mér. Þá færði hann sig að mér, laut niður að kinninni á mér og sagði lágt og innilega:

— Kystu mig, Þórdís — rétt í þetta eina skifti. Láttu það vera merki þess, að þú fyrirgefir mér alt og alt — og jafnframt kveðju. Þú manst, að við kvödd-

umst aldrei í hvamminum forðum, gerðum ekki nema heilsast. Við eigum eftir að kveðjast. Ekkert annað en kveðjast. Það getur ekki verið nein synd fyrir þig að kveðja mig. Hugsaðu þér, að eg væri dáinn — það er sama sem, þegar gleðin er dáin og vonin er dáin. Ef eglægi hér lík, þá mundirðu laumast fram til mín, þegar enginn sæi til, og kyssa mig, gamlan, breyskan, ólánsaman æskuvin þinn, sem aldrei elskaði neitt, nema þig. Þú gætir ekki stilt þig um það, og þú vissir vel, að það væri engin synd. Kystu mig — kystu mig.

Og eg vafði hendurnar um hálsinn á honum.

Eg vaknaði eins og af draumi við að sjá manninn minn standa á gólfinu rétt fyrir innan dyrnar, snjóugan og vosklæddan.

Eg hrökk úr faðminum á sýslumanninum og staðnæmdist á miðju gólfinu, ráðalaus og hugsanalaus.

Maðurinn minn mælti ekki orð frá munni, eg veit ekki hvað lengi — mér fanst það vera eilífðartími — og blíndi á okkur í sífellu. Eg fann kuldann leggja

af snjóugum fötunum og það fór hrollur um mig.

Loksins varð honum þetta að orði:

— Að *þú* skyldir geta gert þetta, Þórdís!

Þá skjögraði hann út um dyrnar, eins og þung byrði væri á bakinu á honum, sem hann fengi naumast risið undir.

Já — að eg skyldi geta gert það! Mér fanst eins og eg hefði misþyrmt saklausu barni.

Eg hikaði mig augnablik í ráðaleysinu, þaut þá út á eftir honum og sá hann hverfa út úr bæjardyrunum. Eg hélt á eftir.

Dimt var í lofti, lausamjöll á jörð, fjúk allmikið og harðviðri. Eg sá, hvernig jafnóðum skefldi í spor hans.

— Þorkell! Þorkell! kallaði eg og þrammaði út í fönnina á eftir honum.

Hann anzaði ekki — hélt viðstöðulaust áfram. Mér sýndist sami óstyrkurinn á honum eins og þegar hann gekk út úr stofunni.

— Þorkell! Þorkell! Í guðs bænum farðu ekki svona frá mér. Gerðu það fyrir mig, lofaðu mér að tala við þig.

Ekkert svar. En það dró heldur saman með okkur.

— Þorkell! Þorkell! Elskan mín! farðu ekki, farðu ekki! Lofaðu mér að tala við þig.

Hann nam nú staðar og beið mín við túnfótinn.

— Hvað viltu mér? sagði hann, þegar eg náði honum.

Já — hvað vildi eg honum? Eg hafði ekkert hugsað um, hvað eg ætti að segja, og mér varð orðfall.

— Hvað viltu mér? sagði hann þá aftur óþolinmóðlega.

— Farðu ekki, farðu ekki! Komdu heim aftur og lofaðu mér að tala við þig. Eg skal segja þér, hvernig öllu er varið. Þú misskilur það. Komdu heim. Farðu ekki út í veðrið. Hann er að ganga í blindbyl.

— Já, hann er að ganga í blindbyl og þess vegna þarf eg að fara og hjálpa piltunum til að koma heim fénu. — Þú ætlar þó ekki að fara til að gera þér upp hræðslu og umönnun fyrir mér? Það fer þér illa, Þórdís. Ætli það rætist ekki af þér von

bráðar, þó aldrei nema það yrði eitthvað fljótt um mig?

Hann sagði þetta ekki með neinum þjósti, heldur með átakanlegum raunakeim í röddinni. Það syrti að með hverri stundunni. Og mér fanst einhvern veginn hann horfa út í bylinn á með þeim hætti, sem þar ætti hann heima.

— Segðu ekki þetta, Þorkell — það er svo voðalegt. Þú hefir mikið að fyrirgefa. En ekki eins mikið og þú heldur. Komdu komdu, farðu ekki, farðu ekki.

— Farðu nú heim, Þórdís. Þetta er kvefveður — drjúgum hlýrra inni hjá sýslumanninum. Vertu nú sæl og heilsaðu honum frá mér.

Og hann sneri sér frá mér og lagði af stað.

Eg þreif í handlegginn á honum.

— Ætlarðu að fara svona frá mér? sagði eg.

Hann anzaði engu, en sleit sig af mér. Eg tölti á eftir honum.

— Elsku-Þorkell! sagði eg. Farðu ekki.

En hann greikkaði sporið og það dró sundur með okkur. Eg sá, að þetta var ekki til neins, nam staðar, mændi á eftir

honum ofurlitla stund, sá enn sporin fyllast af snjó og sneri þá við heimleiðis.

Eg settist inn í húsið okkar hjónanna í þeim baðstofuendanum, sem að hlaðinu vissi, lokaði að mér og tók mér sauma í hönd. En eg gat ekki stungið nokkurt rétt nálspor.

Eg var að hugsa um manninn minn, þegar hann hafði farið frá mér með hugann fullan af ótrygð minni — hvort hann mundi ekki hata mig, biðja mér óbæna — eða hvort sorgin mundi halda áfram að liggja á bonum eins og farg úti í bylnum, eins og mér hafði sýnst hún gera, þegar hann fór út úr stofunni.

Hvað rangsleitnin, sem eg hafði haft í frammi gegn honum, var óttaleg — að hafa ótilneydd svikist inn í líf hans með leyndarmál mitt, ekkert látið hann vita annað en öllu væri óhætt, og svo komist að þeirri niðurstöðu, að eg gæti aldrei elskað hann — að hafa svona orðið ósigrandi tálmi þess, að hann gæti notið ástar einhverrar annarrar, betri konu, gert svo að segja leik að því að gera hann að ólánsmanni.

Nei, nei — það var óbærileg tilhugsun að hafa það á samvizkunni, að hafa gert nokkura manneskju að ólánsmanni — hvað þá mann, sem eg vissi, að unni mér hugástum, mann, sem eg var skyldug til að elska. Þetta *varð* að lagast — ef ekki með einlægri ást, þá með ósannindum og yfirdrepskap. Hvað sem það kostaði, varð eg að uppræta þá hugsun hans, að eg væri honum ótrú — eða bæri í brjósti minsta snefil af ótrygðar-tilfinningum.

Mér kom til hugar hrollurinn, sem í mig hafði komið við ástaratlot hans. Það varð að hafa það. Eg varð að sætta mig við þau. Eg fann, að það var ekkert annað eða hlýrra en meðaumkunarhugur, sem eg bar til hans. En eg fnnn líka að meðaumkunin var samvizka mín, og að þegar á átti að herða, var samvizkan ríkasta aflið í sál minni. Það var engin dygð. Mér var blátt áfram þess varnað að fremja til lengdar og vísvitandi illverk gegn nokkurum manni, sem ekki hafði gert mér neitt nema gott. Eg fann að meðaumkunin girti fyrir slíkt athæfi.

Og samt — mitt í þessu stríði gat eg ekki varist hugsuninni um Ásgeir. Mér

fanst þunglyndisleg augu hans hanga á mér, full af grátbeiðni og söknuði. Eg gat ekki að mér gert að fara að hugsa um þann óumræðilega fögnuð og hamingju að mega hafa þau hjá sér alt lífið — ekki saknandi, tregandi, heldur fylla þau dagsdaglega með gleði og ástríki, halda óaflátanlega við í þeim glampanum yndislega, sigurglampanum. nautnarglampanum, sem þar átti heima öllu öðru fremur.

Mér varð litið út um gluggann og þessir óvits-draumar voru roknir burt á svipstundu.

Veðrið var orðið voðalegt, öskubylur, svo að ekki sá faðmsbreidd frá rúðunni; snjódrífan í loftinu kakkþykk eins og grjónagrautur og jafnframt á ofsaferð líkt og kúlnahríð væri. Það hvein í strompinum og tísti í rúðunum og baðstofan skalf og mér fanst eg heyra sumpart æðisorg, sumpart eymdarkvein utan úr moldviðrinu.

Og úti í þessu veðri var maðurinn minn! Eitt augnablik hafði því brugðið fyrir í huga mínum, þegar eg var að skilja við hann, að hann væri að leggja út í lífshættu. Svo hafði eg gleymt því. Nú mintist eg þess aftur.

Þarna var hann úti í óveðrinu, harmþrunginn, eða í heiftarhug til mín, eða hvorttveggja. Eg mintist geðshræringaróstyrksins, sem á honum hafði verið, þegar hann lagði af stað. Mér fanst, hann hlyti að verða úti. Mér fanst óhugsandi, að nokkur maður kæmist lífs af úr öðru eins veðri, en allra-sízt, ef hann bjó ekki að allri sinni stillingu og öllum sínum þrótt.

Hver voða-spurningin rak aðra. Hvað skyldi hann ráfa lengi í bylnum, viltur, klökugur, ráðþrota? Skyldi hann grafa sig í fönn, eða finnast dauður á hjarninu, þegar bylnum létti? Skyldi hann stirðna kreptur eða réttast úr honum? Skyldu augu hans verða opin, þegar hann yrði borinn heim til mín, helfreðinn, og færa mér frá honum sakargift og dóm handan úr eilífðinni?

Og meðaumkunin, sem jafnan hafði, þangað til nú, verið frjóvandi dögg í huga mínum, varð að ætilyfi, af því að nú var hún blandin vonleysinu. Mèr fanst hún vera að eta sál mína sundur.

Eg hugsaði um hann liggjandi á fjöl einan út í jökulkaldri skemmunni á hlað-

inu — og allir meira og minna hræddir við hann. Eg hugsaði um hann, þegar honum yrði sökt niður í kaldan kirkjugarðinn og gröfin fylt á svipstundu með kaldri mold, eins og spor hans höfðu fylst af snjó þá um daginn. Eg gat ekki fest hugann við það, að hann mundi halda áfram að lifa góðu lífi í fjölmenni eftir dauðann, þó að eg efaðist ekki um það. Eg hugsaði að eins um dauðann, kuldann, einveruna, — þennan óumræðilega einstæðingsskap andvana líksins, sem eg gat með engu móti gert mér grein fyrir að yrði að dauðum hlut.

Þessar hugsanir fóru að verða óbærilegar. Gat það ekki verið, að þeir væru komnir í húsin með féð? Reynandi var að fá að vita það. Eg gat ekki beðið alveg aðgerðalaus. En að biðja að fara í fjárhúsin? — hann var karlmaðurinn í bænum. Mér kom til hugar, að það gæti fyrir komið, hann neitaði mér um það.

Ásgeir var að ganga um gólf í stofunni, eg lauk upp hurðinni. Eg sá, að var þungbúinn og honum var órótt. heyrðist enn meira á í stofunni held-

ur en inni í baðstofunni, því að veðrið stóð beint á stofugluggann. Hann nam staðar frammi fyrir mér.

— Eg verð að biðja þig að fara í húsin, Ásgeir, sagði eg.

Hann skildi mig ekki í fyrstu.

— Í húsin? sagði hann. Við hvað áttu?

— Í fjárhúsin, sagði eg — vita hvort þeir eru ekki komnir. Eg er að vona, þeir séu komnir — en eg verð að fá að vita vissu mína. Eg er svo hrædd.

— Svo þú ert hrædd, sagði hann eins og í leiðslu. — Þá skýrðist svipurinn á andlitinu á honum alt í einu og hann bætti við:

— Heldurðu, hann hati mig, Þórdís?

— Það veit eg ekki. Það verður þá ekki úr því bætt fyr en seinna. Fyrst er að vita, hvort hann er lifandi.

— Eg skil þig. Þú heldur hann hati mig og — og — og að hann -- að hann komi ekki aftur lifandi. Þá verður aldrei úr því bætt.

— Eg vona þú vitjir um hann, Ásgeir, sagði eg. Þú veizt, að það er ekki langt út í húsin hérna á túninu.

Hann fór aftur að ganga um gólf.

— Eg skil ekki, sagði hann heldur
dræmt, hvað þér gengur til að senda í
húsin. Ekkert getur við það unnist. Eg
á ekki við það, að það er vitanleg lífs-
hætta — ekki sízt fyrir mann, sem er
óvanur byljum. En komist þeir að hús-
unum, þá koma þeir líka heim, rétt á
eftir — það er að segja, ef þeir treysta
sér til að leggja af stað frá húsunum aft-
ur. Og treysti þeir sér ekki til þess, þá
— þá næ eg húsunum naumast.

Þar með var samræðunni slitið og eg
gekk þegjandi burt frá honum.

— Þórdís! Þórdís! kallaði hann á eftir
mér, þegar eg var að fara út úr dyrunum.
En eg sneri mér ekki við, lokaði hurðinni
á eftir mér og hraðaði mér inn.

Mig tók það sárt, að hann skyldi
láta að orðum mínum. Snöggvast
mér, sem í hans sporum hefði eg gert
hvað sem það svo hefði verið —
hefði verið beðin um úr þessari
að hann hafði svo afdráttarlaust
ást sína sama daginn. Eg
að úrtölur hans voru alveg
ar. Það var ekkert við það unnið að
í bylinn. En eg hafði beðið

það í angist minni. Það var vitanlega lífshætta að fara út í bylinn, — eg sá það á eftir. En eg hafði beðið hann um það. Jafnvel ást vor mannanna er ósanngjörn og heimtufrek. Ekki er furða, þó að alt annað í oss sé það.

Var hann heigull? Sú spurning kvaldi mig nokkura stund. Á þeim árum þótti mér ekkert jafn-fyrirlitlegt í víðri veröld eins og huglaus karlmaður. Eg fór að bera þá saman — með alt öðrum hætti en að undanförnu — manninn minn úti í bylnum, í baráttu lífs og dauða, og sýslumanninn inni í ofnhitanum, hræddan við að fara í fjárhúsin. Og um nokkur augnablik fanst mér afvegaleiðsla mín vera hlægileg smán. Það hafði mér aldrei fundist fyr — né heldur hefir mér fundist það síðan.

Því að mér kom bráðlega til hugar spurningin, sem Ásgeir hafði fyrir mig lagt — hvort maðurinn minn mundi hata hann. Og á sama augnabliki skildist mér það, að það var hatur dáins eða deyjandi manns, sem hann óttaðist. *Það* var engin óvirðing í mínum augum. Grettir var

engin bleyða. En voðann handan yfir haf dauðans var hann hræddur við.

Mér hægðist við að komast að þessari niðurstöðu — hægðist fáein augnablik, en ekki heldur lengur. Því að hugsanirnar um manninn minn komu af nýju, engu óríkari en nokkuru sinni áður.

Það var orðið svo að segja aldimt inni. Bylurinn hlaut að verða svartari með hverri stundinni. Ahrifin af skynseminni í úrtölum Ásgeirs veiktust með hverju augnabliki í huga mínum. Hræðslan og óróleikinn óx svo að segja með hverju andartaki. Hver einasti þytur í bylnum varð að nýrri ásökun.

— Hvað á eg að gera? — guð góður — hvað á eg að gera? sagði eg sjálfa mig.

Og þá var eins og svarið kæmi úr sálu minni:

— Hvað ætli þú gerir? Þú gerist ekki meira en þú ert búin að gera. sendir hann út í dauðann, lamaðan. Trygðin, sem þú hézt brúðkaupsdeginum, var Hallgerðar inn, sem líf hans var ef til vill

komið. Og svo neitaðirðu honum um lokkinn á banadægri hans!

Alt í einu datt mér ráð í hug — að fara sjálf og leita í húsunum. Vitaskuld var það í raun og veru ekkert ráð, heldur helbert óráð. En það var ekki aðgerðaleysi — og aðgerðaleysið var óbærilegast. Eg gerði mér víst enga grein fyrir hættunni — til þess fyrirleit eg hana of hjartanlega.

Eg hafði einhvern tíma heyrt, að það væri alt að því ókleift að komast nokkuð áfram í byljum í kvenmannsfötum, og það rifjaðist nú upp fyrir mér. Kista var þarna inni hjá mér með fötum, sem maðurinn minn átti, hafði verið tekin úr stofunni, þegar Ásgeir kom. Eg vatt mér samstundis úr pilsunum og fór í buxur. Þær voru alt of síðar, en eg bretti þær upp. Þá fór eg í stórtreyju utan yfir peysuna, vafði sjali utan um höfuðið og hálsinn og þaut út úr baðstofunni. Eg varð að fara fram hjá stúlkunum, sem sátu að tóvinnu. Þær ráku upp hljóð og kölluðu eitthvað á eftir mér. En eg sinti því ekkert, hraðaði mér fram göngin og

fann, að eg var óvenjulega létt
buxunum.

Eg lauk upp
upp á þröskuldinn og átti fult í
að koma hurðinni aftur, því að
sparn á móti. Samt tókst mér
fetaði eg mig áfram meðfram
studdi mig við þau með annari
en lét hina leika í lausu lofti.

Ærhúsið var efst á túninu.
ætlaði eg að halda, því að þangað
beint undanhald undan veðrinu.
haldið byrjaði, þegar eg beygði
yzta bæjarkampinn. Eitt augna
eg mig, þegar eg átti að sleppa
Mér flaug í hug, að nú væri eg
af stað út í dauðann — bænum
aldrei lifandi. En það gerði
Eg hafði ekkert þar að gera í
ástandi og eg hafði verið í, síðan
inn minn fór.

Eg lét vindinn bera mig burt
um. Áður en mig varði, stakst
uðið í einn skaflinn.

— Hvers vegna ekki láta hér
ast? sagði eg við sjálfa mig. I
ekki lofa snjónum að lokast yfir

hafði heyrt, að menn sofnuðu vært í þeirri sæng, þótt köld sé hún. En mér fanst, að hinzti svefninn mundi ekki verða vær, eins og ástatt var fyrir mér.

Eg brölti á fætur, sneri andlitinu móti veðrinu til þess að vera viss um stefnuna, sneri mér svo við og hélt áfram.

Enn í dag, eftir öll þessi ár, fer mér kalt vatn milli skinns og hörunds, þegar eg hugsa um þessa ferð — ekki lengri en hún var — þegar eg hugsa um þytinn í loftinu — mér finst vængjasúgur illra anda hljóti að vera eitthvað líkur honum — hugsa um, hvernig óveðrið lamdi mig og skók, máttlitinn vesaling — hugsa um, hvernig snjórinn þvældist fyrir fótum mér — hugsa um allar bylturnar og andköfin. Og enn hendir það mig við og við að hrökkva með andfælum upp úr draumum um þetta frost og þessa fannfergju og þetta myrkur og þennan ofsa — finst í svefninum það alt vera komið, til að níðast á mér og mínum, utan af einhverjum voðalegum náströndum.

En þá, meðan á þessu stóð, var eg óhrædd — fanst ekki nærri eins mikið um það eins og eftir á. Óveðrið í sál

minni hafði leikið mig miklu
í baðstofunni. Nú komst það
meðan eg var að beita öllu mínu
þetta eina — að halda lífinu.

Og fjárhúsinu náði eg einhvern
— vissi ekki fyr til en eg rak
annan dyrastafinn. Eg náði
anum, sem hurðin var bundin
af naglanum, og lauk upp.
myrkrið gein á móti mér. Eg fór
komst brátt að raun um, að engin
var í það hús komin.

Hvað átti eg nú að gera?

Líkamlega áreynslan hafði
og stilt taugarnar, og það var
mikið jafnvægi á skapsmunina, að
hugsað málið af nokkurri
gat gert mér grein fyrir, hvuıka
leysu eg var að fara. Og eg ]
það, að héldi eg ein af stað frá
þessu veðri — hvort heldur væri
bæjarins eða til þess að leita að
húsum — þá yrði mér ekki lífs

Og þegar þarna var komið,
óárennilegt að deyja.

Eg mundi það frá fornu fari,
menn geymdu hrífu fyrir ofan eina

una. Eg þreifaði fyrir mér og fann hana. Eg notaði hana sem slagbrand fyrir hurðina. Með því einu móti gat eg haldið henni aftur, því að bylurinn stóð beint á dyrnar. Þá þreifaði eg um garðann og fann, að hey hafði verið gefið á hann. Eg fór upp í garðann og hnipraði mig saman í garðahöfðinu.

Eg veit ekki, hvað lengi eg lá þarna — fráleitt hefir það verið mjög lengi. En langt fanst mér úr verða.

Eg var hrædd, gat ekki varist hinum og öðrum hryllilegum sögum — fór að hugsa um drauga, sem standa hér og þar í myrkrinu og glápa á mann — ekkert sést nema eldrauðar glyrnurnar og skjallhvítur tanngarðurinn. Eg reis upp við olnboga og skimaði út í myrkrið, var að gæta að, hvort eg sæi ekki einhverstaðar rauða díla og hvítt strik fyrir neðan þá. — En eg sá ekkert.

Þá komu mér til hugar magnaðar vofur, sem eg hafði heyrt getið um að réðust á menn í fjárhúsum og heytóttum og gengju þar af þeim dauðum. Það lá við, eg ætti von á að einhver þeirra mundi þá og

þegar þeyta mér upp í háa-loft eða leggjast ofan á mig og merja mig sundur.

Loks fór eg að hugsa um menn, sem fá dregist inn í fjárhús og sæluhús úr öðrum eins mannskaðabyljum og þessum, eiga ekkert erindi þangað annað en deyja og liggja þar helstirðir fyrir fótum þeim, sem næst koma.

Út úr því fór eg að hugsa um manninn minn af nýju. Skyldi hann nú vera lagstur fyrir í einhverjum skaflinum? Eða skyldi hann vera að brjótast áfram í bylnum, viltur og ráðþrota? Skyldi svipur hans leita fyrst að mér inni í bænum og finna mig svo þarna í fjárhúsgarðanum?

Og því næst vöfðust ýmist alls konar voðafeikn hjátrúarinnar saman í huga mínum í eina bendu eða gliðnuðu sundur — óteljandi feigðar og heljarmyndir, sem íslenzkt myrkur, einangrun og þunglyndi hefir verið að draga upp um tíu aldir. En alt af bar mest á manninum mínum — dauðum, raunalegum, ásakandi — — —

Mér heyrðist eg heyra hóað rétt fyrir utan dyrnar og eg reis upp.

Guð minn góður og almáttugur — voru þeir komnir með féð?

Eða voru það að eins svipir þeirra og þeir sjálfir einhverstaðar — einhverstaðar úti í bylnum?

Sem eg var lifandi manneskja, var komið við hurðina!

Eg heyrði annan vinnumanninn úti fyrir blóta. Og svo bætti hann því við, að hurðin væri ekki bundin aftur og samt lykist hún ekki upp.

Auðvitað ekki — hrífan var fyrir!

Eg vatt mér ofan úr garðanum og reif hana frá dyrunum í ofboði. Vindurinn kastaði hurðinni inn, lamdi vegginn með henni. Eg stóð fyrir framan garðahöfuðið.

Nokkurar kindur ruddust inn í dyrnar og námu þar staðar. Það var hottað á féð fyrir utan, en það stóð kyrt í bendu.

Þá heyrði eg, að sagt var í dyrunum:

— Svei mér sem það er ekki einhver andskotinn óhreinn hér inni, Þorkell!

Svo hann var þá kominn lifandi!

Eg varð utan við mig af fögnuði, fann samt draga úr mér máttinn, linaðist upp, eins og slitinn þráður, eftir alla æsinguna. Það vakti óljóst fyrir mér, að guð væri

óumræðilega góður. En eg hafði ekki vald á hugsunum mínum, að eg gæti að honum. Eg hafði ekki einu sinni á að færa mig til frá fénu, heldur þarna, eins og dauður hlutur, og hélt í garðabandið.

— Er þarna nokkur? sagði Þorkell var þá kominn rétt að segja inn til

— Já, sagði eg og fór nú að rakna mér.

Mér datt í hug að hlaupa upp um inn á honum. En eg þorði það ekki.

— Hver er þetta? spurði hann.

— Það er eg — Þórdís.

Hann kom fast að mér í heudings og tók á öxlinni á mér.

— Hvernig í ósköpunum víkur því að þú ert hingað komin?

— Í öllum lifandi bænum, var óþolinmóðlega fyrir utan — standið ekki svona fyrir fénu. Við missum út í veðrið.

Maðurinn minn þreif í handlegginn mér og hálf-dró mig á eftir sér inst aðra króna.

— Hvað ertu að fara? sagði Ertu orðin vitlaus?

— Eg veit ekki. Eg býst við því, sagði eg.

— Hvað ertu að fara?

— Mér var svo órótt heima. Eg hélt þú kynnir að vera kominn í húsin.

— Hvar er sýslumaðurinn? Er hann í hinni krónni?

— Nei, nei. Hann er ekki með mér. Eg fór ein. Hann er heima.

— Ertu orðin brjáluð, manneskja? Sástu ekki, að þetta er manndrápsveður?

— Jú, jú. Eg sá það. En þú varst úti í því. Og mèr fanst ekki gera svo mikið til um mig.

Þá gat eg ekki varist gráti lengur. Og jafnframt fekk eg hug til að leggja hendurnar um hálsinn á honum.

— Þú hefðir ekki átt að fara svona frá mér í dag. Það var svo óttalegt, sagði eg og kysti einhverstaðar á fannbarið andlitið á honum.

— Skilst mér það rétt, að þú hafir farið út í bylinn bara til að vitja um mig? sagði hann og tók höndunum utan um mig.

— Já, já! sagði eg.

— Hvers vegna fór sýslumaðurinn ekki með þér?

— Eg bað hann ekki um það.

— Má eg reka hann úr okkar húsum á morgun, eða fyrsta færan dag? sagði hann.

— Já, sagði eg.

Hann þrýsti mér upp að sér svo fast, að það lá við hann meiddi mig.

Króin var orðin troðfull af fé. Hann lyfti mér hátt upp, eins og litlu barni, bar mig út gegnum fjárþvöguna og lagði svona af stað með mig frá húsinu.

— Ekki geturðu borið mig svona, góði, alla leið, móti veðrinu, sagði eg.

— Jú sagði hann. Og eg get borið þig á höndum mér alt lífið, á hverju sem gengur, og ætla líka að gera það.

Eg fekk hann samt til að sleppa mér, að eg vildi heldur ganga. En svo studdi hann mig, að mér fanst ekkert veðrið.

---

Var eg þá komin upp á hjallann, sem var uppgöngu?

Eg læt að minsta kosti svo, sem eg hafi komist það. Og eg vona, guð fyrirgefi mér, ef einhver sporin upp á brúnina hafa verið óstigin. Eg gerði það, sem eg gat. Eg reyndi stöðugt að hugsa um, hvað hann var góður, hreinhjartaður, stiltur, sannarlegt karlmenni. Eg reyndi að hafa það alt af hugfast, hvernig hann efndi orð sín í fjárhúsinu — að bera mig á höndum sér alt lífið.

En eg þurfti að setja mér að hugsa um þetta. Þær voru svo óáleitnar, þær hugsanirnar — komu sjaldan af sjálfum sér.

Aðrar hugsanir komu óboðnar. . . . Eg breiddi upp yfir höfuð, þorði ekki að líta á neinn eða neitt og grét í rúminu daginn eftir fjárhúsferðina, þegar eg vissi að Ásgeir var að fara af heimilinu. Og eg grét vorið eftir, þegar eg frétti, hann væri að fara alfarinn burt af landinu. . . . Eg hefi grátið svo oft — oftar en nokkur veit, oftar en eg hefði átt að gera.

En nú er eg hætt því. . . . Eg er farin að hlakka til — nema þegar mér er órótt.

Báðir eru þeir farnir á undan mér inn gegnum hamrana, inn á ókunna landið

hinumegin. Og vitanlega fer eg bráðum sömu leiðina.

Eg hlakka til samfundanna — nema þegar mér verður órótt af þeirri tilhugsun.

Hvorn þeirra hygst ég að finna? . . . Eg veit reyndar, að í öðru lífi verða menn eins og englar guðs. En eg get samt ekki með nokkuru móti hugsað mér, að það verði neitt fagnaðarefni að vera samvistum með þeim *báðum*.

Ætti eg son, væri eg ánægð með hann, ef hann líktist Þorkeli í öllu verulegu. Eg vissi þá, að viljandi gerði hann engum manni rangt. Eg vissi þá, að það væri ekki sjálfs hans sök, ef hann yrði ekki gæfumaður.

Ætti eg son, gæti eg ekki á heilli mér tekið, ef hann yrði eins og Ásgeir. Eg vissi, að hann bæri þá í sál sinni frækorn ógæfunnar. Eg gengi að því vísu, að hann mundi varpa óhamingju inn í sál annarra manna.

Hvað er eg að segja? Hefir Ásgeir varpað óhamingju inn í sál mína?

Óróleik, vitaskuld — hugarstríði, hrellingu. En er það óhamingja?

Er það óhamingja fyrir stöðupollinn að fá uppgönguauga? Er það óhamingja fyrir sálina að ástríðuvindurinn sópi af henni rykinu? Er það óhamingja fyrir laugina, að hitinn, sem aldrei dvínar, sumar né vetur, nái til hennar.

Er það óhamingja fyrir mig, standandi einmana hérna undir hömrunum, að geta ekki hugsað til þess öðru vísi en með óumræðilegum fögnuði að hitta einn af samferðamönnunum fyrir handan?

Sé nokkuð að fyrirgefa, hefi eg að minsta kosti fyrirgefið . . . Eins og eg vona að guð fyrirgefi mér alt — líka þá bæn, að það verði Ásgeir, sem eg fæ að hitta fyrir handan hamrana.

